# IÐUNN,

TÍMARIT

TIL SKEMMTUNAR OG FRÓÐLEIKS.

---

Ritstjórn:

Björn Jónsson, Jón Ólafsson,

Steingrímur Thorsteinsson.

SJÖUNDA BINDI.

REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR BJÖRN JÓNSSON.

ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA.

1889.

# Efnisskrá:

# Hjálpræðisherinn.

Eptir

dr. Friðrik Nielsen,

*háskólakennara í Khöfn.*



## I.

Í því á þessi trúarbragðahreyfing sammerkt við flestar aðrar kirkjuhreyfingar þær, er nokkuð kveður að — eptir því sem merkislimir »hjálpræðishersins» hvað eptir annað hafa haldið fram,—að hún á upptök sín að rekja til eins manns, hins svonefnda »allsherjarforingja», er af flokksmönnum sínum er talinn eitthvað á borð við Lúther, Georg Fox og Jón Wesley. Æskusaga »allsherjarforingjans» er aðdragandinn að sögu »hjálpræðishersins». Trúarfélag það, sem hann upphaflega hneigðist að, hefir verið móðurskaut þessarar trúarhreyfingar, og hún ber á sér glöggt ættarmót við ýmislegt það, sem einkennilegt er við það trúarfélag.

Vilhjálmur Booth er fæddur í Nottingham árið 1829. Faðir hans fylgdi sið ríkiskirkjunnar,

en hið tilvonanda fyrirliðaefni »hjálpræðishersins« var þegar 14 vetra genginn í flokk meþódista, og hjá þeim snerist hann ári seinna »til guðs«. Um sama leyti voru tveir ungir menn, er nýlega höfðu gjört apturhvarf, farnir að leitast við að leiða menn til lífernisbetrunar, með því að halda þar guðrækilegar samkomur, og bauðst Vilhjálmur Booth, óðara en hann sjálfur var snúinn á hjálpræðisveg, til þess að vera í samvinnu við þá. Áður en hann var 18 vetra, var hann búinn að fá orð á sig sem leikprédikari. Þegar meþódistar sáu, hvað mikið honum var léð, vildu þeir sem fyrst gjöra hann að presti í sínu trúarfélagi, en læknir hans aftók það, þar sem hann ekki mundi hafa heilsu til þess að leggja svo mikið á sig, sem þeir þurfa, er stöðugt standa í því, að reka menn á yfirbótarbekkinn. Booth varð því enn um stund að sætta sig við það, að vinna að verki sínu sem leikprédikari, og það var ekki fyr en árið 1853, að hann varð prestur. Sú grein meþódistaflokksins, er hann hafði gengið í löguneyti við, var hin svonefnda »New connexion«[1], sem er ein hin fámennasta af meþódistadeildunum. Þessi deild meþódistanna er að því leyti frábrugðin hinum, að allt skipulag hennar er afarfrjálslegt, og var hún stofnuð árið 1797 af Alexander Kilham. En þetta löguneyti Booths við þetta stjórnfrjálsa félag hefir haft þau áhrif á hann, að hann er alveg móthverfur því að vilja láta afl atkvæða ráða, þegar úr einhverju skal skera.

---

1) Árið 1880 voru ekki nema 26,000 manna í þessari grein meþódistaflokksins.

Þegar vér heyrum fyrstu frásögurnar um prestsleg störf Vilhjálms Booths, þá rekum vér oss í þeim á nokkuð, sem meþódistar og sáluhjálparherinn eiga sammerkt í — þeir vilja hvorirtveggja geta bent á átakanlegan árangur erfiðis síns. Fyrst var hann prestur í London, en eptir nokkrar vikur fór hann til eyjarinnar Guernsey. Af framkvæmdum hans þar er þannig sagt: »Hann tók til starfa á miðvikudegi. Fyrstu dagana bar ekki á neinu merkilegu öðru en því, að einlægt fjölgaði þeim, er á hann hlýddu, og apturhvarf manna varð alhugaðra, en á sabbatsdaginn játuðu þrír tigir manna, að þeir hefði höndlað hjálpræðið, og eptir 10 vikur taldist svo til, að ekki færri en 300 manns hefði gengið guði á hönd. Hjálpræðisstarf hans breiddist eins og eldur út um eyjuna. Hin kirkjufélögin tóku upp aðferð hans, og árangurinn varð mikil uppskera sálna». Frá Guernsey hélt svo Booth lengra til þess að prédika iðrun og apturhvarf, og meþódistablöðin gátu ávallt flutt nákvæmar skýrslur um, hve mikill væri árangurinn. Í Nýja-Kastala sneri hann á einni viku 290 manns, í Sheffield á einum mánuði 663, og þar fram eptir götunum. En svo mikil ofstæki og ærsl urðu á samkomum þeim, er Booth hélt, til þess að vekja menn til apturhvarfs, að enda meþódistum þótti nóg um, og var reynt að fá hann til þess að gegna prestsþjónustu á tilteknum stað í friði og spekt, þó ekki væri nema fáein ár. En svo mikil víkingslund var í hinum tilvonanda fyrirliða hjálpræðishersins, að ekki leið á löngu, áður en hann vildi leggja upp í

nýjan leiðangur sem guðspjallari. En 1861 vildi meþódistasamkundan ekki nota hann til þeirrar þjónustu, og réð hann þá af að fara sinna ferða.

Það var kona hans, er fastlega hvatti hann til þess að fylgja þessari guðspjallara köllun, er hann þóttist hafa, og er það á öllu auðséð, að þegar líður sjálfan fyrirliðann, þá kveður ekki að neinum í öllum sáluhjálparhernum, eins og að frú Katrínu Booth. Í sérhverri trúarbragðahreyfingu hafa konur eitthvað komið til sögunnar, og þess eru dæmi í kirkjusögunni, að í sumum trúarflokkum hefir mest kveðið að aðgjörðum kvennfólksins, og konurnar ljósast lýst því, hvað flokkurinn hefir einkennilegt borizt fyrir. Af prédikunum þeim og ræðum, sem frú Booth hefir látið prenta eptir sig, getum vér séð, að hún er kona hrifin af trú, og hennar hjartgróna guðrækni fær einkennilegan blæ við það, að henni er samtvinnuð framtakssemi og dugnaður, ásamt glöggri greind á því, hvað helzt er nauðsynlegt, sem opt fylgir enskum konum. Sem móðir er hún hróðug yfir því, að öll börn hennar, bæði synir og dætur, ganga í »hjálpræðisherinn»; og hún sér glögglega hin miklu mein mannlegs félags, að því er snertir trúarbrögðin og trúrækni, og henni blandast eigi hugur um það, hvernig helzt megi ráða bót á þeim; hún er einnig ötull og atkvæðamikill formælandi kvennfrelsisins. Í ritlingi, sem að efnisskipan og orðfæri er afbragðsvel saminn, hefir hún haldið fram rjetti kvennfólksins til þess að prédika evangelíum, og ef leggja mætti trúnað á spásagnir hennar, þá yrði þess ekki langt að bíða, að konur í öllum kirkjufélögum fengi leyfi

til þess að prédika í kirkjum og verða prestar, en um þetta hafa þó enn sem komið er margir, og það hinir einbeittustu formælendur kvennfrelsis í þegnlegum efnum, viljað synja konum. En frú Booth segir: »Ætti ekki kvennfólkið, sem af guði er gætt fegurð og þokka að vexti og yfirliti, sem flestum er lagnara að koma svo orðum sínum, að mönnum verði hughvarf við, og sem guð hefir gefið örvar og næmar tilfinningar og viðkvæmni, ætti því ekki einnig að vera leyft það, að vera prestar». Voru ekki spákonur á dögum hins forna sáttmála? og voru ekki í hinum fyrstu kristnu söfnuðum konur gæddar náðargjöf spádómsandans? Frú Booth vill sanna það með orðum heilagrar ritningar, að konur hafi rétt til þess að verða prestar, og að það sé ekki nema »ósiður», sem við hafi gengizt í 18 aldir, að fyrirmuna þeim það, og til þess að sanna þetta, verður hún að hleypa sér út í biflíuþýðingu, og meðal annars er fjölorð rannsókn um það, hvernig réttast sé skilið gríska orðið λαλεῖν, er stendur í 1. Kor. 14, 34. Og svo tekur hún fyrir allar merkiskonur biflíunnar og kirkjusögunnar, til þess af dæmum þeirra að sanna það, að konur hafi þessa köllun til kennimannsskapar. Þær Föbe þjónustukona, og fjórar dætur Filippusar guðspjallamanns, er allar höfðu spádómsanda, frú Guyon, móðir Jóns Wesleys, og Elisabet Fry eru allar taldar upp, ekki til þess að sanna það — sem kirkjan aldrei hefir neitað — að konur geti unnið stórmikið gagn í þarfir guðsríkis, heldur því til sönnunar, að kristinn söfnuður hér eptir eigi að

hafa konur, ekki síður en karla, í kennimannsstöðu.

Þetta, að hjálpræðisherinn svo eindregið heldur fram »the female ministry»(kvennlegum prestskap) er eitt með öðru því, er stutt hefir að því, að hann næði að útbreiðast. Í öllum leiðangri hjálpræðishersins hefir kvennfólkið með kenningum sínum miklu afkastað. Bæði er það, að þær hafa boðið af sér góðan þokka, þær hafa og ekki legið á tilfinningum sínum, og einmitt fyrir það hrifið aðra með sér, svo að þær jafnvel hafa komið tárunum út á gömlum, gallhörðum syndaselum, er ekki mundu hafa annað gjört en hróp og háð að heitingum iðrunarpostula meþódista um helvíti og eilífan eld. Og þetta, að hjálpræðisherinn hvikar ekki við, að halda fram kvennfrelsishugmyndinni svo langt, sem hún verður lengst rakin, þetta hefir vakið vinsældir hans víða, þar sem menn alls ekki hafa hirt um fagnaðarboðskap þann, sem þessir kvennkynjuðu kennimenn prédika. Hjálpræðisherinn ber vott um það, að meþódistar og kvennfrelsismenn hafa að nokkru leyti gengið í fóstbræðralag. Sú grein meþódistanna, sem fjarlægust var því, að vilja með Wesley aðhyllast biskupsstjórnarfyrirkomulagið á kirkjunni, hefir í hjálpræðishernum skýrt lýst því yfir, að hún samsinnir að einu og öllu þau orð postulans: »Í Kristi Jesú er enginn greinarmunur á karli og konu». Það er alls ekki ósennilegt, þegar að því kemur, að kvennfrelsismálið kemur til úrslita, að þá kunni hjálpræðisherinn að ríða af baggamuninn.

En það er annað mikilsvert mál, er varðar

allt skipulag mannlegs félags, sem er viðfangsefni þessarar aldar, og sem hjálpræðisherinn hefir látið talsvert meira til sín taka en nokkurn tíma kvennfrelsismálið. Hjálpræðisherinn vill vera trúarbrögð fjórðu eða fimmtu stéttarinnar. Miklu eindregnara en hinn gamli meþódistaflokkur beinist hjálpræðisherinn að þeim hluta þjóðarinnar, sem sí-ókyrr, eins og hið brimsollna haf, ríður undir þær breytingar og byltingar, sem eru að verða og við má búast. Í einni af ræðum þeim, er frú Booth hefir haldið fyrir merkum og mikilhæfum mönnum ýmsra stétta, um það, hvernig hjálpræðisherinn horfði við ríki og kirkju, hefir hún bent á það, að einkanlegt starfsvið hjálpræðishersins sé hinar svonefndu »hættulegu stéttir«. Hún hefir haldið því fram, að hlutverk hjálpræðishersins væri ekki bundið við England eitt, heldur þyrfti að taka til allra þjóða, og því til sönnunar hefir hún bent á lögjafnaðarmenn Frakklands og Þýzkalands, á svörtu hendina á Spáni, á nihilistana á Rússlandi. Meðal annars segir hún: »Eg hefi opt hvíslað því að manninum mínum: betur væri að við gætum fengið stjórnmálaskörungana okkar, ráðgjafana, alla mannvini, alla skynsama kristna menn og kaupmenn vora til þess að líta á þennan óaldarsæg«. Samúel Morley sagði það, að þeir sem bæri gæfu til þess, að láta dreggjar lýðsins fá kynni af sönnum kristindómi, mundu vera hinir mestu velgjörðamenn Englands; og hann var ekki óðara búinn að segja það, en frú Booth var komin, og kvað hjálpræðisherinn vera boðinn og búinn til þessa. Í ræðu sinni, sem hún hélt um: How to exalt the mas-

ses» (hvernig á að hefja upp múgann), leitaðist hún við að sýna, að hjálpræðisherinn ynni það sem Samúel Morley hefði óskað eptir. Hún segir: »Það sýnist sitt hverjum um það, hver vegurinn sé beztur til þess að hefja þjóðina; sumir segja: »gefið þjóðinni betri lög»; eg segi við því já og amen; það er gott og blessað, að fá góð og réttlát lög; aðrir segja: sjáið landslýðnum fyrir betri uppeldisfræðslu«. Og gott er það; gott uppeldi er í sjálfu sér mikil blessun. Þá segja enn aðrir: Sjáið þeim fyrir góðum og rúmum hýbýlum. Eg segi sama til; það er gott og blessað; notaleg og rúmgóð hýbýli eru dyggðinni góður styrkur, þar sem annars nokkurri dyggð er fyrir að fara; en þeirri dyggð, sem engin er, verður ekki viðhjálpað». Það þarf því annað og meira, og því bætir hún við: »Vér höfum fundið, hvernig kristnir mannvinir geta bezt varið peningum sínum til þess að vekja múgann og bjarga honum við; vér prédikum honum Jesú Krists sanna evangelíum, og vér prédikum það með krapti andans».

Það ætti nú að sjást á því, sem eptir kemur, hvað mikið er hæft í þessum ummælum frú Booth. En eitt er vafalaust, og er það það, að frú Booth og maður hennar kunna vel að öllum undirróðri og æsingum. Í stjórnmáladeilum þeim, er einatt ganga í Englandi, er talið sjálfsagt að beita allskonar æsingum, svo að þar hafa menn fengið mikla reynslu fyrir því, hvað helzt muni hrífa, og þessa reynslu hefir höfuðforingi hjálpræðishersins fært sér í nyt. Ef æsingar og undirróður eiga að koma einhverjum flokki að haldi, þá verður í þeim flokki

að vera fast skipulag og fullkomin hlýðni; þetta hefir herra Booth getað séð á flokkadeilunum meðal landa sinna, og hefir hann látið reynslu þeirra sér að kenningu verða, og komið því fasta skipulagi á flokk sinn og þeirri skilyrðislausu hlýðni, að næst gengur aga þeim, er tíðkast í kristmunkareglunni; og er það eitthvað hálfskrítið, að hjálpræðisherinn, sá flokkur prótestanta, er lengst fer í því að losa um öll bönd, hann skuli semja skipulag sitt svo áþekkt því, sem lið það hafði, er bjarga átti rómversku kirkjunni á dögum siðbótarinnar, en það var, sem kunnugt er, kristmunkarnir. Í hjálpræðishernum hefir allsherjarfyrirliðinn (general) alvaldsráð; hann hækkar alla að virðingum, og hann skipar fyrir um það, hvar hver einn hafi stöðvar sínar; hann fær skýrslur um allt, sem fyrir herinn kemur, sigursældir hans og ófarir, allt, smátt og stórt. Hann hefir látið semja reglur fyrir aðbúð þeirri, sem fyrirliðar hjálpræðishersins ætti að hafa; í þeim er brýnt fyrir þeim að eta heldur of lítið en of mikið, að laugast köldu vatni, að vera þurr í fæturna, og vera í ullarfatnaði innst klæða; en reglurnar enda á þessu: »Sneiddu hjá öllum læknum, ef þú með nokkuru móti getur. Ef þú verður að marki veikur, þá gerðu allsherjarfyrirliðanum orð um það». Generalinn vill ávallt vita, hvernig heilsufarið er í hinni fjölmennu foringjasveit. Það er ekki svo sjaldgæft, að veikindin geta komið að góðu haldi, þegar vekja þarf eptirtekt á hjálpræðishernum. Þannig gerði það töluverð áhrif á suma þá, er hlýddu á ræðu frú Booth um: »How to exalt the masses», þegar hún benti á einn

af forgöngumönnum þessarar kirkjuhreyfingar; hann sat þar með glóðarauga, nefið barið til óbóta og hnéð lemstrað; þetta voru áverkar eptir orustu, er fyrir nokkrum dögum hafði orðið á strætunum í Gravesend.

II.

Að því er virðist, þá var það af hreinni tilviljun, að þessi nýi flokkur tók upp hermannabúnbúnað. William Booth og kona hans höfðu í mörg ár haldið úti innanlands kristniboði að hætti meþódista, án þess að starf þeirra bæri nokkur þau merki, er væri verulega frábrugðin þeim, er menn almennt geta búizt við, þar sem revivals (endurlífganir) meþódista fara fram. Með dugnaði sínum höfðu hjónin smámsaman sett á stofn æðimargar trúarboðsstöðvar, og höfðu gert út fjölda guðspjallara, og eptir 1875 gegndu þeirri sýslan einnig konur, er höfðu fengið tilsögn hjá þeim hjónum. En það vantaði enn, að þetta lið hefði á sér hermannssið og snið. Þeir sem Booth voru nákomnastir, kölluðu hann að vísu við og við í hálfgildingsgamni allsherjarfyrirliðann (general), en engum hafði hugkvæmzt að fara lengra út í það. Það var ekki fyr en í október árið 1877, að einum af guðspjöllurunum hafði hugkvæmzt að kalla sjálfan sig »flokksforingja», trúarboðsliðið »hallelúja-herinn», og verk það, er hann hafði fyrir stafni, »stríðið í Whitby». En þetta var ekki nema uppátæki eins einstaks manns, og hafði engin frekari eptirköst. En þegar farið var að gefa út skýrsluna um hina svonefndu East London Christian Mission, sem

Booth og frændlið hans hélt úti, þá sagði Georg Railton um hann: þessi kristilega trúboðun er her af verkmönnum, er apturhvarf hafa gjört og sjálfviljugir boðizt í herþjónustuna — en þessi Georg Railton hefir á hendi ritstörf fyrir herinn, að því er frú Booth segir. En þegar Booth sá þetta, sagði hann: »Nei, vér erum eigi sjálfviljugir; því vér finnum að vér eigum að gera það sem vér gerum; það er ekki nema skylda vor; og svo strykaði hann yfir orðið sjálfviljugir, og setti »hjálpræðis» í staðinn. »Þetta orðtak féll oss þegar í stað vel í geð, skrifar Georg Railton, og vér komumst brátt að raun um, að það var æðimikið áhrifameira en gamla nafnið». Það, sem áður var nefnt »trúarboðsfèlagið kristilega», varð brátt miklu sigursælla undir nafninu »hjálpræðisherinn».

Orðfæri heilagrar ritningar er svo auðugt af samlíkingum, að það hefir verið auðgjört með hana sem fyrirmynd, að setja fram samband guðs við heiminn og mannkynið í margháttuðum samlíkingum. Sum félög og flokkar hafa einkum haft augastað á þeirri samlíkingunni, þar sem sambandið milli guðs og Ísraelslýðs er sett fram sem hjúskapur, og út af þessari samlíkingu hafa þeir svo spunnið langt hugsanakerfi, mjög sérvizkulegt og fjarstætt orðum ritningarinnar. Páll postuli hefir skoðað kristinn söfnuð sem heilagt musteri byggt upp af undirstöðum spámanna og postula; af þessari samlíkingu dregur frímúrarafélagið umtal sitt um musteri mennskunnar, og það, að postulinn á einum stað nefnir guð »höfuðsmið» heimsins, hefir með því félagi gefið tilefni til þess fjölda af tákn-

um og orðtækjum, er dregin eru af byggingarlist og múrsmíði. Orð ritningarinnar um baráttu við hold og blóð og við andlegan her illskunnar undir himninum, og um trúna sem þá, er vinnur sigur yfir heiminum, hafa að fornu fari gert það að verkum, að kristnum mönnum fannst það nærri liggja, að skoða líf sitt og safnaðarins sem stríð og baráttu. Það var þegar á 2. öld orðið algengt, að kalla líf kristins manns »hersýslu» Krists. Og í N. T. vantar heldur ekki lýsingar á þessari hermennsku í einstökum greinum. Páll postuli hefir í fyrsta brjefinu, sem hann ritaði, gefið lýsingu á vopnabúnaði kristins manns (1. Þessal. 5.), og þegar vér berum saman orð hans þar við orðatiltæki, sem hann hefir í brjefi síðar rituðu (Efes. 6.), þá getum vér séð, hvernig þessi samlíking hefir vaxið hjá honum. Hann hefir sjálfsagt opt í kenningum sínum haft þessa samlíking, sem lá svo nærri. Í mörgum af klaustrum miðaldanna voru myndir gerðar eptir þessari samlíking, og þessi samlíking kom heldur en ekki vel heim, þegar kristin þjóð þurfti með herskildi að fara að berjast til þess að frelsa úr höndum ómildra manna landið helga með öllum þess helgu stöðum. Og seinna á öldum, þegar rammgjörvum veggjum Rómaborgar lá við hruni fyrir hörðum árásum siðbótarinnar, þá voru það þessar samlíkingar ritningarinnar um stríð og baráttu, er hrifu huga Inigo Loyla, svo að það er ekki um skör fram, að hvíldarstaður hans hefir verið skreyttur eintómum bardagamyndum.

Að vísu var það svo, að Booth lengi vel fyrst í gamni hafði verið kallaður general, og að það

virtist vera tilviljun ein, að hann hafði orðatiltækið »hjálpræðisher» um samverkamenn sína, en úr því að nafnið var komið á, þá hefir hann haldið fast við samlíkingu þá, er það á ætt sína til að rekja. Og hér hefir þá farið líkt og opt áður í kirkjusögunni; kenningar og guðsþjónusta, trúarsetningar og tíðagjörð hafa ávallt hlotið að verka til muna hvað á annað. Þetta atvik, að Booth lét leiðast til þess að kalla sig allsherjarfyrirliða hjálpræðishersins, dró margt fleira með sér. Þegar hann fór að skoða sig sem hershöfðingja, þá komu fram hjá honum ósköpin öll af samlíkingum, sem voru fjarstæðar öllu því, er sézt hefir í ritningunni, því í samlíkingum sínum fer hún aldrei svo langt, að þær hætti að eiga við. Honum var ekki nóg að tala um stríð og baráttu kristilegs lífs, eða herklæði kristins manns. Nú átti að gera »bænaskothríð» ; við stöku hátíðleg tækifæri áttu allir að rétta upp hendurnar, eptir skipun fyrirliðans: byssustingina — fasta. Það þurfti að fara njósnarferðir, halda herráð, og herforingjastefnur, og á safnaðafundunum voru þeir sýndir sem »herfang», er til iðrunar höfðu snúizt. Nú átti ekki framar að tala um prestadjákna eða safnaðaröldunga. Í stað safnaðarins kom nú her, undir forustu allsherjarfyrirliða, en undir honum stóðu fylkisstjórar, sveitarforingjar, hundraðshöfðingjar o. s. frv.

Hið fyrveranda meþódiska trúarboðsfélag fékk nú aðalherstöðvar sínar í London, og hvervetna þar sem hjálpræðisherinn lagði fram, hafði hann á lopti rauðan fánann, sem á var dregið blóð og eldur — blóð Jesú Krists og eldur heilags anda. —

Booth samdi »orders and regulations for the Salvation Army», eptir hermannakveri Sir Garnet Wolseleys; í því eru gefnar allar nauðsynlegar leiðbeiningar um það, hvernig haga skuli njósnarferðum, hvernig vinna eigi borgir og verja. Þessar reglur og fyrirskipanir urðu svo handbók allra liðsmanna í hjálpræðishernum. Þær eru í 6 kapítulum, og á að lesa sinn kapítulann hvern rúmhelgan dag til uppfræðingar og sjálfsprófunar. Til sunnudagalestra hafa liðsmenn biflíuna, og blað hersins, »Herópið» (the war cry), er nú sem stendur kemur út tvisvar í viku, og eru á Englandi 230,000 eintök prentuð af hverju tölublaði. Þetta aðalblað hersins kemur út í Lundúnaborg, en auk þess heldur hann úti eitthvað um 20 blöðum samnefndum út um landið; herinn heldur og úti mánaðarriti, er kallað er: All round the World, og eru prentuð af því 35,000 eintök.

III.

Á herforingjastefnunni, sem haldin var í ágústmánuði 1878, var slitið hinu kristilega trúarboðsfélagi, til þess að Hjálpræðisherinn mætti koma í þess stað; og þegar hann árið 1879 kom fram undir sínu rauða merki, vakti hann undir eins eptirtekt manna. »Þetta, að brúka merki, segir Railton, hefir annars meira en nokkur mundi ætlað hafa, stutt að því að halda saman liðsmönnum vorum, gera þá hugrakkari, framtakssamari og úrræðabetri». Sama ár stofnaði herinn hermannaskóla, þar sem foringjaefni gátu fengið reglubundna tilsögn; og þessari tilsögn er sí og æ haldið áfram,

nú sem stendur í aðalherstöðvunum Queen Victoria Street nr. 101. Árið 1880 fór Georg Railton með 7 »hallelújah-stúlkum» til Bandaríkjanna, til þess að reisa þar merki hersins. Þetta lið, sem sent var til Ameríku, bjóst fyrst hinum rauða og dökkbláa einkennisbúningi, með hinu þýðingarmikla S (salvation = hjálpræði) sem greiningarmerki. Einkennisbúningurinn er nauðsynlegur fyrir hvern her, svo að liðsmenn geti þekkzt, og því fóru liðsmenn sáluhjálparhersins því nær alstaðar að dæmum þessarar sveitar, er til Ameríku fór. Railton segir: »Það leið ekki á löngu áður en liðsmenn sáluhjálparhersins um allt England fyrir sjálfra sín fé útveguðu sèr þetta merki þess, að þeir æfilangt væri búnir að helga sig þjónustu við Krist. Síðar meir var sett upp stór sölubúð í Queen Victoria Street 101, þar sem einkennisbúningar og greiningarmerki voru seld, og eptir ársskýrslunum 1884 er verzlun þessi svo arðsöm, að ágóðinn af henni getur staðið straum af mestum þeim kostnaði, sem þarf til aðalherstöðvanna.

Þar sem þetta einkennisbúna lið karla og kvenna fór í flokkum með hljóðfæraslætti, þyrptist brátt saman múgur og margmenni af forvitni. Að vísu voru menn vanir því, að leikmenn prédikuðu og hjeldu samkomur á strætum úti, en annað eins og þetta höfðu menn fyr aldrei séð. Sumir urðu hrifnir, aðrir gerðu ekki nema háð og spott, svo varð gauragangur og róstur á strætunum. Árið 1882 höfðu 669 orðið sárir af hernum. Þeir voru allir nákvæmlega skráðir, er særðust, því svo sem síðar mun sagt verða, á píslarvættið að vera eitt

af órækustu vottum þess, að herinn hefir náðargjöf andans. Vínsölumennirnir, er hötuðu hermenn hjálpræðisins fyrir það, að þeir voru strangir bindindismenn, gerðu beinlínis út her á móti þeim, er þeir kölluðu Skeleton Army (beinagrindarherinn); hann hafði fyrir merki fána með beinagrind eða hauskúpu og tveimur leggjum. Það fór í harðar rimmur milli þessara hersveita, einkum í grennd við hermannabúðirnar. Sumir af liðsmönnum hjálpræðishersins og fyrirliðum hans voru settir í fangelsi fyrir róstur og friðarspjöll, og frú Booth var sjálf sett í varðhald. En nokkrir af biskupum ríkiskirkjunnar og margir þingmenn tóku málstað þessara hermanna, er létu lúðra sína gella einmitt þar sem aldrei heyrðist ómur af orgönum kirkjunnar, og í notum trúarbragðafrelsisins kröfðust þeir þess, að herinn tálmunarlaust mætti fara sínu fram. Brátt kom að því, að herskýrslurnar gátu frá því sagt, að erkibiskupinn í Kantarabyrgi hefði veitt hernum féstyrk. Annar enskur biskup varð svo bermáll, að hann taldi framkvæmdir hersins þakkarverðar, »þar sem sóknarprestarnir væri svo önnum kafnir», og þótt herinn ekki að öllu leyti væri samhljóða ríkiskirkjunni, taldi hann þó engan vafa á því, að hann hefði sitt umboð af hendi þess, er alls á ráð. Booth fékk sí og æ bréf frá ýmsum kirkjudeildum, er hvöttu hann og örvuðu fram, og þegar hann árið 1882 skoraði her sinn í Lundúnum, þá gat hann meðal annars lesið upp bréf frá Victoríu drottningu, er árnaði honum allra heilla.

Gengi hersins óx enn meira við það, að hon-

um auðnaðist að »taka herskildi» illa ræmt leikhús í einum útjaðri Lundúnaborgar; tókst það fyrir stórkostleg samskot, er herinn á örskömmum tíma gat haft saman ; það voru 17000 pd. sterling ; þetta leikhús gerði herinn svo að einni af sínum víggirtu borgum. Eptir þetta óx herinn dag frá degi. Skýrslan frá 1884 sýnir það, að þá voru að eins á Englandi og Skotlandi 1147 fyrirliðar með mannaforráði yfir 637 herdeildum ; en auk þeirra voru majórar og adjútantar ; en á foringjaskólanum voru þá 188 fyrirliðaefni. Og févant er hernum ekki. Í herskýrslunni 1883 segir Booth : »Guð þerrar af oss tárin með 5 punda seðlum». Árið 1884 hafði sú grein hersins, sem á Englandi var, umráð yfir 74,665 pd. sterl., en við sölubúð aðalherstöðvanna var um sama leyti selt fyrir hér um bil 60,000 pd. sterl. Í búðunum í Queen Victoria Street 101 gátu menn upphaflega ekki fengið annað en bækur, blöð og einkennisbúninga, en því hefir einlægt fjölgað, sem verzlað hefir verið með. Það var bráðum farið að selja hjálpræðishersþerrur með þessu letri á rituðu : Krists blóð þvær af oss alla synd ; seinna hjálpræðishers-te, með mismunanda verðlagi ; hjálpræðishersgreiður, hjálpræðisherssápu. Hjálpræðisherssápan er nokkurs konar glycerínsápa, og er í henni mynd af Booth eða skylduliði hans, og mælir blaðið War Cry mjög fram með henni, og lætur þess jafnframt við getið, að óhætt sé að brúka hana, myndirnar skemmist ekki við það.

Auk aðalherstöðvanna í Lundúnum geta skýrsl-

urnar einnig um aðalstöðvar í Parísarborg, Genf, Stokkhólmi, Nýju-Jórvík, San Francisko, Toronto í Kanada, Melbourne, Adelaide og Sidney í Ástralíu, á Nýja-Sjálandi, Höfðabæ, og Bombay. Árið 1881 fór ein sveit af hernum undir forustu kvennmarskálksins júngfrú Katrínar Booth, dóttur »generalsins», til Parísarborgar. Hún leigði sér þar þegar í stað hæfilegan bústað, og fór að hafa viðurbúnað til þess að vinna Parísarborg. Þegar Alphonse Daudet ritaði hina sárbeittu lýsingu á Hôtel d' Autheman í »L'evangeliste», hafði hann líka fyrir augum sér hjálpræðisherinn, er þá var nýkominn til borgarinnar, og búinn að festa upp feikna stórar auglýsingar á götuhornum í Parísarborg, en á Boulevörðunum stóðu í fylkingum ungar stúlkur í einkennisbúningi, sem áttu að fá Parísarbúa til þess að sinna nokkuð Kristi. Jungfrú Booth hóf sem sé herhlaupið á Parísarborg með því að senda hóp af hallelújah-stúlkum, sem á Boulevörðunum og Place de la Bourse áttu að selja »En avant», sem er frakknesk útgáfa af »The War Cry». Kvennmarskálkurinn skýrir sjálf svo frá, að blaðið hafi selzt vel, því einkennisbúningurinn hefði farið sölustúlkunum svo fyrirtaksvel. Fundir þeir, sem herinn hélt, voru þó um stund bannaðir, vegna þess að út úr þeim urðu ærsl og órói. Seinna hefir jungfrú Booth gjört aðra tilraun og varið meiru til þess, að ryðja þessari hreyfingu braut í Frakklandi; lætur hún að vísu vel yfir framgöngu hersins, en þó virðist mega á öllum lotum sjá, að þar er við talsverða erfiðleika að berjast.

Hvergi hafa hernum jafnmjög brugðizt vonir

sem þá er hann kom til Svisslands, þar sem þó menn þeir, er meþódistar í Ameríku og Englandi gera út þangað, eru vanir að fyrir hitta þar hinn frjóvasta jarðveg. Um jólaleitið 1882 kom jungfrú Booth til Genfar, eptir ófarir þær, er hún hafði beðið í Parísarborg; en hér tók þá ekki betra við. Að vísu fékk hjálpræðisherinn heldur hlýlegar viðtökur hjá »góðfýsismönnum» í Svisslandi, er voru orðnir vanir »endurvöknunum» fyrir kenningar enskra trúarboða; en meiri hlutinn af frjálslynda flokkinum í Genf reis andvígur við, er hann sá gífurmæli þau, er kvennmarskálkurinn hafði í auglýsingunum, þar sem hún segir borginni stríð á hendur. Stjórnin benti á það, að stjórnarskráin heimilaði öllum trúarbragðafrelsi, og taldi því sæmst, að taka öllu með spekt; en það kom fyrir ekki. Borgarskríllinn gjörði aðsúg að húsi því, er herinn hélt í fundi sína, og í 2 daga var allt í ærslum og uppnámi í Genf. Til þess að skirra vandræðum og friðspellum, urðu það þá úrræði stjórnanna í sumum nágrannafylkjunum, að banna það, að herinn hjeldi þar fundi, þótt það reyndar kæmi ekki sem bezt heim við ákvæðin í stjórnarskránni um trúarbragðafrelsi, og var jungfrú Booth rekin út úr Genf, eins og borgarmenn 10 árum áður höfðu farið með Mermillod, kaþólska biskupinn. Í borg þeirra Calvins og Rousseaus var mönnum ekkert betur um gefið þessa skrípamynd mótmælendatrúar, heldur en um römmustu kaþólsku. Til þess að storka Genfarbúum, fór Mermillod biskup til Ferney, en jungfrú Booth fór til Lausanne, og

þar bjóst hún í kyrrþey til sóknar. En meðan hún þar á laun var að halda fundi síns, lét önnur kona, ekkja Agenors greifa de Gasparin, koma út ritling, er á svipstundu firrti hjálpræðisherinn öllum hlýjum hug »góðfýsismanna». Frú Gasparin er ein fremst í flokki þeirra, og hún tók nú fyrir »Orders and regulations» hersins, og sýndi af þeim fram á, hve náskyldur hann væri kristmunkareglunni, og úr því var ekki við neinu góðu að búast fyrir herinn í Svisslandi. Þegar evangeliska sambandið hélt fund sinn í Kaupmannahöfn, þá kom á þann fund einn af fyrirliðum hjálpræðishersins, og skoraði á sambandið að fara þess á leit við stjórnina í Svisslandi, að hún hætti því að misbjóða trúarbragðafrelsinu, með því ólöglega að banna hjálpræðishernum að vinna þar verk sitt. En honum varð lítið ágengt, með því að flestir þeir, er í sambandinu voru, voru lítt hlynntir hernum. Samt hefir herinn síðan leitazt við að ná þar fótfestu, en hefir ekki tekizt. Í því farast þeir ekki hjá, þeir Svisslendingar, er mestir eru frelsismenn, og góðfýsismennirnir, að hvorirtveggja skoða frelsisherinn eins og skrípamynd kristins siðar, er sé öllum mönnum ósamboðin, og því heldur kristnum mönnum. Fyrir skemmstu leitaði herinn fyrir sér í Basel og Zürich, og á báðum stöðunum kviknuðu af því róstur.

En fyrir þessar hrakfarir, er herinn hefir farið á Frakklandi og Svisslandi, hefir hann fengið talsverða uppbót í annari heimsálfu, þar sem um miklu meira er að tefla. Allir kristnir trúarflokkar boða heiðingjunum á Indlandi kristna trú hvorir

í kapp við aðra. Þarna fór nú hjálpræðisherinn að reyna, hvað sér yrði ágengt með það, að boða ókristnum mönnum trú. Aðferðina hefir hann haft alla hina sömu sem í Európu. Hjálpræðisherinn gerir engan mun á mönnum, sem að eins að nafninu til eru kristnir (t. a. m. skírðir), og Hindúum eða Múhameðstrúarmönnum, . er aldrei hafa heyrt Krist nefndan á nafn. Trúarboðunin er hjá þeim hin sama, hvort sem hún er með kristnum eða ókristnum.

Dag einn árið 1882 kom maður einn, er Tucker heitir, að máli við Booth; þessi Tucker hafði haft einhverja sýslan á Indlandi, en hafði gert sér ferð til Englands, til þess að fá greinilegar sögur um hjálpræðisherinn, er hann hafði fengið einhverja vitneskju um í blaðinu »The war cry». Þegar Tucker hafði skamma stund verið við aðalherstöðvarnar hjá Booth, fékk hann »majórs»-tign, og var það ráðið, að senda hann með þeirri tign ásamt þremur öðrum fyrirliðum til Indlands til þess að vinna það mikla land. Áður en Tucker majór lagði upp í leiðangurinn, var svo mikið skrum gert um þessa fyrirhuguðu Indlandsför, að hjálpræðisherinn hefir aldrei gert það betur, og er þá mikið mælt. Booth hafði leigt handa sér og hernum hina geysistóru Alexöndruhöll sunnudaginn 3. júlí; og þremur vikum á undan voru smá og stór auglýsingablöð búin að birta það um allt England, hvað herinn þann dag ætlaði að hafast að í þessari feiknastóru höll, og í görðunum og smærri húsunum, þeim er undir hana lágu. Í boðsritinu sagði svo meðal annars: »Um

dagmál verða hliðin opnuð til þess að hleypa oss inn til þess að vegsama guð. Einni stundu fyrir hádegi stór almenn helgunaryfirlýsing. Frá því stundu fyrir nón fram mitt á milli nóns og miðaptans safnast herinn í stórflokkum hér og þar í garðinum undir forustu fyrirliða úr yfirliðasveitinni. Allir majórarnir verða viðstaddir. Hálfri stundu fyrir miðaptan safnast allt liðið saman, og fara svo allir á stað, hver á eptir öðrum. Liðið, sem til Indlands á að fara, mun láta sjá sig í einkennisbúningi þarlendra manna ríðandi á fíl».

Þetta hreif; 20—30,000 manna flykktust að úr öllum áttum á Englandi með aukajárnbrautarlestum, svo að þeir voru ekki neitt fáir, er Tucker majór gat sýnt sig þennan tiltekna dag, áður en hann lagði upp í Indlandsför sína, og þeir þrír félagar hans. 19. dag septemberm. náði »Indlandsherinn« landtöku í Bombay, og ætluðu þessir liðlausu fyrirliðar sér þegar í stað að fara að undirbúa það, að leggja undir sig landið. En nú hittist illa á. Stjórnin á Indlandi var hrædd um það, að þegar Múhameðstrúarmenn heyrðu og læsu þessar hermannlegu tölur fyrirliðanna, þá kynni þeim að koma það til hugar, að Englendingar, sem kristnir væri, ætluðu nú að fara að taka upp sama siðinn, sem Múhameðstrúarmenn höfðu haft, að kúga menn með vopnum til þess að taka trú. En af þeim misskilningi gátu staðið hin mestu vandræði, eins og þá stóð á, því þetta var rétt um sama leyti sem falsspámaðurinn hafði hafið uppreistina í Súdan. Þessum 4 fyrirliðum var því fagnað þannig, að þeim var harðbannað allt, sem gæti vakið flokka-

drátt á strætum úti. En Tucker varð ekki ráðafátt. Með því að taka upp búning Hindúa í stað einkennisbúnings hjálpræðishersins, hafði hann sýnt, að herinn, þegar til Asíu væri komið, hlyti nokkuð að semja sig eptir því, sem þar stóð á, og það var í fleiru en búningnum einum, sem þeir þurftu að breyta til. Tucker og þeir félagar sinntu ekkert banni lögreglustjórnarinnar, og héldu innreið sína í Bombay á kerru, dreginni af uxum, er þarlendir menn hafa. Einn fyrirliðanna þeytti indverskan lúður, annar hélt á merki hersins, og voru letruð á það hin vanalegu einkunnarorð, þýdd á þarlenda tungu. En er þarlendir menn sáu þessa Európubúa í þjóðbúningi Hindúa, flykktust þeir saman. Til þess að sporna við slíkum tiltækjum framvegis, var lúðurþeytarinn settur í varðhald. En Tucker hefði þá illa skilið í »Orders and regulations», þann kaflann, sem er um það, »hvernig vinna eigi borg», ef hann hefði nú látið hugfallast við það, að missa lúðurþeytara einn.

Daginn eptir fór hann og báðir hinir fyrirliðarnir syngjandi um göturnar í Bombay. Þegar um tvennt er að kjósa, sönglausa göngu, eða veikróma söng, þá kýs hermannakverið heldur sönglausa göngu; en hér voru ekki nema einir þrír menn í prósessíunni, svo að hér varð að syngja, ef nokkur átti að fást til að veita þeim eptirtekt. Þegar svo erfiðlega stendur á, þá segir hermannakverið svo fyrir, að syngja skuli svo hátt, að heyra megi í húsum þeim, er hafa opnar dyr og glugga. Þessir þrír garpar þrömmuðu því hægt og hægt eptir aðalstrætunum í Bombay og kyrjuðu hárri

röddu sálmana sína; því svo er fyrir mælt í hermannakverinu: »þar sem ekki eru nema fáir einir til þess að ganga í prósessíu, þar verður göngulagið að vera seinfærara, heldur en þar sem stór er flokkurinn. Þetta sönglag á strætum úti var nú, að því er lögreglustjórninni skildist, eitt af því, sem bannað var, og majórinn fór sömu leiðina og lúðurþeytarinn hans.

En við þetta var mikið unnið; nú var dýrðarljóma píslarvættisins orpið á Indlandsfara; allir tóku málstað þeirra og voru þeim sinnandi í orði. Blöð Hindúa víttu skorinort tiltæki lögreglustjórnarinnar; kölluðu það sýnt gjörræði af henni, og hana hafa gjörzt eggjanafífl stjórnarblaðanna. Trúarboðarnir og blöð þau, er þeir halda úti, tóku einnig málstað hjálpræðishersins, því þeir sáu, að gæti lögreglustjórninni haldizt uppi önnur eins aðferð og hún hafði við þessa fyrirliða hjálpræðishersins, þá gæti sama hætta vofað yfir sjálfum þeim og þeirra störfum, og spekingurinn indverski Keshub Shunder Sen, hinn hálfkristni, tók svari þeirra. Tucker var skamma stund í varðhaldi, en þessi stutta fangelsisvist hans kom honum að því að góðu haldi, að honum og aðgjörðum hans var fyrir bragðið veitt miklu meiri athygli, enda leið ekki á löngu, áður en hann fór að geta sent til aðalherstöðvanna sigurfréttir, og rak þá hver aðra, svo að skammt leið á milli. Brátt kom þar, að Booth gat í embættisnafni gefið skýrslu um það, að hinn frækni Indlandsher, er margir mundu kannast við frá prósessíunni í Alexöndruhöllinni, hefði aukizt svo að liði, að nú væri 35 fyrirliðar

við hann, og hefði auk sinna fyrstu stöðva í Bombay náð stöðvum í Madras, Kalkútta, Púna, Lahore og Kólomba á Ceylon. Booth var heimafyrir farinn að hafa beztu vonir um það, að sigursældir hersins á Indlandi mundu verða svo miklar, að liðsauki hans mundi bera af öllu því, er hin trúarboðsfélögin hefðu fengið afkastað, því á fárra mánaða fresti hafði hjálpræðisherinn fengið fyrirliða, er kunnu að mæla á 12 eða 13 tungur þarlendra manna, og bæði Hindúar og Múhameðstrúarmenn voru »handteknir» púsundum saman. Tucker majór var svo stórhuga og vongóður, að hann vændist þess, að áður en árið 1884 væri liðið, mundi sér hafa bætzt að minnsta kosti þúsund samvinnumanna. Þó virðist sú von hans hafa brugðizt. Aptur sýna skýrslur síðustu áranna, að herinn hefir »handtekið» marga úti í þorpum. Tucker hefir sjálfur æði-langan tíma látið fyrirberast undir tré í þorpi einu í Gujerat, berfættur, og ekkert bragðað annað en jurtafæðu, til þess að koma sér í mjúkinn hjá þorpsbúum; og þegar hann var búinn að »handsama» þá fyrstu af þorpsbúum, bættust ávallt nýir og nýir við, svo að hann á einum ársfundinum í Bombay gat sýnt sem sigurmerki 130 menn úr indverskum þorpum, er nýgengnir voru í liðið.

Og það er ekki neitt nærri Tucker, að láta sér nægja þá frægð og frama, er þegar er fenginn. Hann þreytist ekki, þótt hann fari um Indland landshornanna á milli; á 20 dögum hefir hann farið 2,986 (enskar) mílur, og kallar það ekki annað en að bregða sér til »njósna». Eptir því sem sjálf-

um honum segist frá, er honum tekið með svo mikilli vinsemd, bæði hjá Hindúum, Múhameðstrúarmönnum, Indverjum þeim, er kristna trú hafa tekið, og Európumönnum þeim, er til Indlands hafa farið, að hann veit ekki almennilega, hjá hverjum vinsemdin er mest. Þó er svo að sjá, sem Hindúar sýni honum mest vinahótin: »Því það er aðdáanlegt að sjá, hvað fljótir þeir hafa verið að skilja andann í hernum. Þeir hafa ofur gaman af trumbuslættinum, bjöllubumbunum, fánunum og prósessíunum, og þeim er óskiljanlegt, hvað til þess kemur, að Európumenn skuli hafa svo mikinn ama á þessu».

## IV.

Kirkjusagan á frá mörgum undarlegum prósessíum að segja, en aldrei hefir áður annað eins verið um að vera, eins og þessar hergöngur hjálpræðishersins. Prósessíur kaþólsku kirkjunnar, með dýrðlingamyndir og vígð merki, með ljósagangi og reykelsi, og með söng og hljóðfæraslætti, sem opt er nokkuð veraldlegur, eru næsta frábrugðnar þessum hermannlegu göngum með blaktandi fánum, bumbuslætti og lúðragangi. Djákninn var vanur að byrja prósessíur kirkjunnar með þeim formála: Procedamus in pace (göngum fram í friði); hjálpræðisherinn fer þannig af stað, að glymja við lúðrar og barðar eru bumbur.

Frú Booth kannast fúslega við það, að svo löguð kristileg guðsþjónusta er alveg ný; en hún heldur því fram, að hún sé bæði að réttu hæf og nauðsynleg: »Á ekki guð almáttugur heimting á stræt-

unum? Stendur ekki á kaupmannahöllinni í Lundúnum: »Jörðin og fylling hennar er drottins»?—Á öðrum stað segir hún: »Ef vér komumst að raun um það, að prósessíur og hergöngur fái fólk fremur til þess að hlýða á orð vor, því skyldum vér þá ekki neyta þeirra meðala? hver er jafnmaklegur þess, að merki sé borið fyrir honum, sem konungur konunganna, og hver annar á sönglist himins og jarðar en hann? Eg þori að fullyrða, að andskotinn á ekki heimtingu á einni stakri nótu, og hann skal verða að sleppa öllum þeim, sem hann hefir kastað eign sinni á. Vér höfum komizt að raun um það, að hersöngslögin ekki að eins geta fengið fólk til þess að flykkjast saman að oss; þau geta einnig vakið blíðari tilfinningar, og vakið og örvað athygli hjá verstu mönnum, er aldrei hafa gott orð heyrt. Nú sem stendur eru í voru liði margir menn, er hafa látið ginnast út úr veitingahúsunum af söng vorum og prósessíum. Má ekki á sama standa, með hverju móti vér náum í bófana, er ætla að hleypa upp höllum yðar með dynamit, ef vér að eins náum í þá?» Það er tæpast fortakandi, að frú Booth kunni að hafa nokkuð til síns máls, þar sem hún hefir þetta traust á töfranda afli söngsins; en hitt er sjálfsagt mjög efanegt, að forsprakkarnir að því, að sprengja upp hallir og hús með dynamiti, gangist eins upp við sönginn og höfrungurinn hans Amfions um árið.

Þegar borg á að taka herskildi, þá eru það þess háttar prósessíur með hljóðfæraslætti og glumragangi, sem hernum gefast bezt. Booth hefir í hermannakverinu ráðlagt það, að enda fyrstu fundina,

sem herinn heldur, með hergöngu, söng og hljóðfæraslætti, til þess að koma borgarbúum á kreik. Hann telur það ekkert saka, þótt bæði söngurinn og göngulagið í byrjuninni sé bágt; það vekur allt að einu athygli manna, og það er það sem þarf að vera. Það hefir komið fyrir, að borg hefir unnizt með einum saman hergöngum. Sumstaðar hefir lögregluliõ skorizt í leikinn og bannað að halda fjölmenna fundi, en þá hafa fyrirliðar hersins, heilum klukkustundum saman, gengið sama strætið fram og aptur, ýmist raulandi eitthvert sálmvers, eða þá sagt nokkur orð, er áttu að vekja eptirtekt manna. Eptir dómi Booths hafa prósessíurnar það til síns ágætis, sem honum þykir ekki smálítið í varið, að líkindi eru til, að í þeim megi ávallt koma við »nýju og nýju». Það má ganga hljóðlega, eða þá með harki og háreysti, sönglaust eða syngjandi, og með hljóðfæraslætti, með merkjum og einkunnarorðum, í halarófum, breiðfylkingum og svínfylkingum. Railton segir: »Vér höfum opt hlotið að við hafa prósessíur í stað guðsþjónustu, og vér höfum opt hlotið að láta oss vera meir um það hugað, að skarkalinn heyrðist sem víðast, en um orðin, sem töluð voru til þess að sannfæra syndaþrælana».

En til þess að vekja eptirtekt manna á hernum, þarf einnig að leita ýmsra annara ráða. Í hermannakverinu stendur kafli um það, »hvernig blöðin geti komið hernum að haldi», og væri hægt að ímynda sér, að þau væru samin af einhverjum ameríkönskum húmbúgmanni, er væri orðinn leikinn í því að vegsama eitthvert kynjalyf. I þess-

um kafla stendur meðal annars: »Það er ávallt mjög gagnlegt, að blöðin tali um herinn. Því mun hver sá fyrirliði, sem nokkurt gagn er í, svo fyrir sjá, að sem fyrst verði um hann getið í blöðunum. Það er vel til þess vinnanda, að verja dálitlu fé til auglýsinga, því þær vekja athygli bæði ritstjórans og lesendanna, og með því er herinn orðinn að umtalsefni. Það er bezt að hafa auglýsingarnar stuttar og laggóðar, og einkennilegar: »Hjálpræðisherinn er á leiðinni». »Fyllisvín stíga í stólinn». Þessar eða því um líkar stuttar auglýsingar eru prentaðar á fremstu blaðsíðuna af blöðunum, eða þær eru festar upp á gatnamótum til þess að láta menn vita af því, að bráðum megi eiga von hernum. Og þegar vinna á borg, þá þarf fyrir hvern mun að fá blöðin til þess að vinna í haginn fyrir herinn. Booth fræðir fyrirliða sína á því, að ritstjórarnir sé sjaldan vanir að vera ófúsir til þess með fám orðum að leiða athygli manna að efninu í auglýsingum þeim, sem opt koma í blað þeirra. Fyrirliði sá, sem er fyrir herdeild þeirri, er borg á að vinna, má því aldrei gleyma því, að fá blöðin sér til liðsinnis, en einkum þarf hann að hafa á sínu bandi fréttaritara blaðanna og nýjungasnakka. Hann þarf að bjóða þeim upp á te, og eiga fundi sérstaklega við þá, og »það getur verið hagnaður, að verja nokkru fé upp á þess konar fólk». Þótt ekki hafizt annað upp úr því, en það, að þeir riti hið ákafasta móti hernum, þá er það á við margar auglýsingar; »því það, sem stendur í einu blaðinu, er opt tekið upp í hitt, og svo koll af kolli, svo að eitt greinarkorn getur orðið hernum að liði

um land allt». Booth biður enn fremur liðsforingja sína að hafa það hugfast: »Blöðin lifa að miklu leyti á rifrildi; þess vegna eru útgefendur blaða vanalega fúsir á að taka greinar með eða móti hverju sem vera skal, og enn fremur, þegar fleiri blöð en eitt eru í sama bæ, þá er samkomulagið milli þeirra vant að vera svo bölvað, að það má ganga að því vísu, að sè grein í öðru blaðinu einhverju máli sinnandi, þá muni í hinu blaðinu koma grein þar á móti. Hernumm á vera um það hugað, að hann sé sem optast gerður að umtalsefni; hinu skiptir minna, hvað um hann er sagt». Lærdóminn, sem draga má af öllum þessum kafla í kverinu, er þessi hugvekja, sem kaflinn endar á: »Sá fyrirliði einhverrar herdeildar, er ekki fær leitt athygli blaðanna að aðförum hers vors, hann situr af sér tækifæri til þess að vinna hernum gagn, sem aldrei framar mun bjóðast».

Margir fylgismenn ensku kirkjunnar hafa upp á sína vísu lýst því, að þeir léti sér vel líka þessi ærsl og gauragangur og blaðaskrum. Því bæði hafa margir æðstu embættismenn kirkjunnar, og mikilhæfustu limir hennar af leikmannastètt, lýst því ótvíræðlega, að þeir bæri mjög hlýjan hug til hjálpræðishersins; en þar á ofan hafa og margir fylgismenn ensku kirkjunnar beinlínis aðhyllzt frumreglur þær, er hjálpræðisherinn breytir eptir, með því að mynda her af fylgismönnum ensku kirkjunnar, er beinlínis stælir eptir hjálpræðishernum. Í nóvembermánaði 1882 var stofnaður »kirkjuherinn» (The Church Army), til að vega á móti her Booths. Fyrirliðarnir og slèttir liðsmenn í þess-

um kirkjuher . hafa sérstök einkunnarmerki, í líkingu við hjálpræðisherliðið. Þeir hafa sömu siðina með hergöngur ; hjá þeim er það og eins, að leikmenn koma saman til þess að segja frá sinni andlegu reynslu ; á fundum þessa kirkjuhers hefir jafnvel að sið meþódista »iðrunarbekkurinn» fengið inngöngu ; þessi kirkjuher heldur einnig út blaði, sem heitir : »Rimmugýgur». Eptirtakanlegasti munurinn á herjum þessum er sá, að á fundum kirkjuhersins er konum að vísu leyft að tala, en þær geta ekki orðið fyrirliðar. Þó er annar munur enn þýðingarmeiri. Til þess að geta orðið liðsmaður í kirkjuhernum, og því heldur fyrirliði, er það talið sjálfsagt, að maðurinn sé bæði skírður og fermdur, og sé auk þess opt til altaris; en Booth telur skírn og kveldmáltíð með þeim smámunum, sem á sama má standa um. Biskupum og 3 prestum ensku kirkjunnar þótti það talsvert áhorfsmál, hvort þeir ættu að ljá liðsinni sitt til þess, að stofna þennan kirkjuher. Og það, að þeir studdu að stofnun hans, er svo til komið, að þeir þóttust vissir um, að, eins og nú er ástatt í kirkjunni, þarfnist kirkjan mjög svo fyrir vitnisburð leikmanna. Með þessari aðferð sinni hafa fylgismenn ensku kirkjunnar farið að dæmum rómversku kirkjunnar, sem opt hefir gert ósaknæmar kirkjuhreyfingar þær, er virtust ætla að verða andvígar kirkjunni, með því að taka þær í þjónustu kirkjunnar og undir aga hennar.

En það er meira en vafasamt, hvort þessi tilraun muni takast. Að því er sjá má, hefir »kirkjuherinn» ekki fengið nærri því eins mikinn viðgang

og hjálpræðisherinn, og margir fylgismenn kirkjunnar dæma þunglega þetta uppátæki, að fara að hafa hermannlegt fyrirkomulag á liðsafla sínum. En vinir kirkjuhersins hrinda þessari aðfinnslu með því að benda á þann mikla voða, er geti verið búinn kirkjunni af hjálpræðishernum; því til þess eru miklar líkur, að hjálpræðisherinn verði kirkjunni fremur til ófagnaðar en til liðsinnis. Það var ekki óalgengt á miðöldunum, að leiguliðsforingjar sneri vopnum sínum á hendur þeim höfðingja, er hafði heitið á þá til liðsinnis, og í kirkjusögunni má finna fleira en eitt dæmi þess, að trúarsveimsmenn, er byrjuðu sem alhugaðir fylgismenn kirkjunnar, yrði, er fram í sótti, grimmir óvinir hennar. Það var heitingum líkast, það sem Booth nú fyrir rúmum 3 árum sagði við erkibiskupinn í Kantarabyrgi: »Vér þykjumst eiga heimtingu á því, að þér séuð oss hlynntir fyrir það, að vér ekki réttlætum tilveru vora með því að benda á vömmin yðar»; og það er eins og farið sé að syrta að undir storm, þegar frú Booth segir, samsinnandi manni sínum: »Kirkjuhollu mennirnir hljóta þó að kannast við það, að vér höfum talsvert af þeim kærleika, er um ber allt; annars hefðu þeir mátt við því búast, að vér hefðum snúizt berlega til mótgangs við þá». Það fer og svo fjarri því, að hjálpræðisherinn stuðli að því, að vinna kirkjunni í hag, eða laða menn að henni, að hann barmar sér sáran, þegar hann minnist á það, að einhverjir af hermönnum hans yfirgefa hann til þess að ganga á hönd ríkiskirkjunni, eða fylla flokk einhvers hinna mörgu trúarflokka. Eptir

að kristnin er orðin að her, telja þeir, að kirkjunni sé ofaukið; guðsdýrkun hjálpræðishersins er ætlað að verða guðsdýrkun ókominna alda (the worship of the Salvation Army is destined to become the worship of the future).

Hjálpræðisherinn telur að engu nýtt neitt af því fyrirkomulagi, sem áður hefir verið á kirkjunni, ekki að eins hjá ríkiskirkjunum, heldur einnig, og engu miður, hjá fríkirkjum hinna fráhverfu trúarflokka. Booth tekur það fram hvað eptir annað, hvað mikið hann og sínir fyrstu fylgiliðar hafi þurft fyrir því að hafa, að losa sig við vanafestuþauf meþódista. Hann kannast við það, að ekkert kirkjufélag hafi haft betri aðferð við árásir sínar á djöfulinn og heiminn, og það einmitt, að þeirra aðferð var sú skársta, hefir gefið honum óskeikula vissu fyrir því, að allar hinar fornu aðferðir til sóknar eru nú orðnar alveg óhafandi. Einu sinni spurði prestur hann að því, hvernig hann einn síns liðs ætti að fá nokkru komið í verk, þar sem 35,000 manna væri í sókninni sinni; en Booth svaraði honum því: »Sendu þeim timburmenn og þvottakonur, er höndlað hafa hjálpræðið, og fullir eru af andagipt».

Það, hvað hjálpræðishernum verði mikið ágengt, telur Booth því að þakka, að guð hafi á ný úthellt anda sínum. Það kemur ekki að eins fram í sálmum hersins, að hann er sannfærður um þetta nýja hvítasunnustórmerki; það kemur einnig fram í öðrum ritum hans. Þannig segir svo í fræðakveri því, er allir hermennirnir eiga að læra:

»hvítasunnudagurinn var það sama fyrir postulana og hina fyrstu lærisveina, sem margar vökunætur og fundir haldnir í einhverju sérstöku skyni eru fyrir hjálpræðisherinn». Frú Booth segir afdráttarlaust, að frá því á dögum postulanna fari engar sögur af neinu því félagi, er fullkomlega hafi höndlað þá hugsun guðs, og kennt öllum limum sínum að láta allt annað hér í lífi sitja á hakanum fyrir því eina og háleita: »að prédika evangelíum allri skepnu»; að vísu kannast hún við, að á ýmsum öldum kirkjunnar hafi við og við verið einstöku menn, er hefðu haft þann krapt andans, að þeir gátu þröngvað stöku mönnum inn í kirkjuna. Hjá hjálpræðishernum er nú að sögn komið fram yfirnáttúrlegt guðlegt kraptalán; hann hefir orðið fyrstur til þess að sýna það og sanna, að kristindómurinn er líf, og ekki trúarregla, eða þá eintómar serimoníur; og það er ekki meira en við mátti búast eptir orðum þeim, er herinn hefir um sig, að hann nú er farinn að stæra sig af kraptaverkum sínum. Blaðið Guardian getur þess 18. febr. 1884, að Pearson majór þykist gæddur miklu kraptaláni. Aldirnar, sem liðnar eru, hefir kristileg kirkja látið sér mest umhugað um sannleikann; hér eptir á allt að vera komið undir krapti (power).

## V.

Hið nýja líf hjálpræðishersins og guðdómlegur kraptur hans á fyrst og fremst að markast á því, að hann ræðst á heiminn, gerir atsókn að honum. Frú Booth hefir kallað eitt safn af prédikunum

sínum Agressive Christianity, og í raun réttri má það vera einkunnarorð allrar þessarar trúarhreyfingar. Og margir af þeim, sem ekki munu verða frú Booth samdóma um það, *hvernig* leysa eigi af hendi ætlunarverk það, er kirkjan hefir nú á dögum, munu verða henni samdóma um það, hvert þetta ætlunarverk er. Hún segir: »Sýndu heiminum sanna, lifandi, sigursæla trú, er leggur allt sitt í sölurnar, og aldrei þreytist að vinna, og það mun ekki hjá því fara, að slík trú mun hafa áhrif á heiminn, en hann mun með viðbjóði snúa baki við þeirri trú, sem ekki hefir þessi einkenni». »Á dögum Nýja-Testamentisins var ávallt sókn af hendi kristindómsins; en djöfullinn hefir kennt kristnum mönnum að prédika lýðnum evangelíum með orðum án fjörs og anda, og eins og hafa vetlingatök á öllu. Það er nú viðkvæðið: Yður mun ekki langa til að lesa ritlinginn þann arna, eða bókina þá arna? eða þá: Þið munuð ekki vilja hlýða á þennan mælskuprédikara, er hefir getið sér svo miklar vinsældir meðal almennings? Eg er viss um, að yður mun falla hann vel í geð, hvað sem líður trúarbrögðunum.—Menn eins og feila sér við að segja sannleikann, og svo er hann á þennan hátt borinn á borð fyrir iðrunarlausa menn. Þetta þykir mér vera mjög svo gagnstaðlægt orðunum: »Farið út og prédikið evangelíum allri skepnu». Einn af hermönnunum hjálpræðishersins frá Svisslandi tekur hið sama fram. Í opinber. Jóh. 3, 15.—16., þar sem talað er um hinn hálfvolga söfnuð í Laódíkeu, þykist hann þekkja öll einkenni vorr-

ar aldar. Hann segir: »Menn hafa leitazt við að koma trúarbrögðum Jesú Krists í fagurt og göfuglegt snið, og það hefir tekizt með mestu list og prýði. Menn hafa gjört úr þeim siðalærdóm, og kristin trú og kristilegt líf þarf líka á siðalærdómi að halda . . .; en þessi trú hefir ekki krapt til að sannfæra menn um spillingu hjartna þeirra. Slík trú kveikir engan fjandskap. Hann vantar það sem mest á ríður, guðs anda, og um hann er þó líka talað í heilagri ritningu: það er andinn, sem lífgar; holdið stoðar ekkert, — og »orð þau, er eg tala, eru líf og andi».

Af því að kristnin nú ekki lengur heldur uppi sókn á hendur heiminum, hlýtur hún að fara á mis við píslarvættið; en það er allt öðru máli að gegna um hjálpræðisherinn. Yfir hann dynur ekki að eins háð og spott, heldur einnig fúlegg og eldiviðardrumbar, og fyrirliðar hans hafa mátt gista í fangelsum, eins og postularnir. Frú Booth hugkvæmist það aldrei að rannsaka það, hvort þetta píslarvætti stafi af hinum kristilega vitnisburði, er herinn hefir að flytja, eða að eins af þeim hætti, er herinn sjálfur hefir skapað sér til flutnings vitnisburðinum. Hún tekur píslarvættið sem staðhæfan vott þess, að hjálpræðisherinn hafi fengið staðfestingu andans fremur öllum öðrum trúarflokkum á Englandi, Skotlandi og Írlandi; og hún smánar þá, eins og blinda glópa, er ekki geti séð, að spádómurinn um hið síðasta mikla safn sálnanna í guðsríki hafi rætzt við það, er hjálpræðisherinn leggur svo mikið undir sig.

Hjálpræðisherinn telur það fortakslaust, að

hvorki Kristur né postular hans hafi neitt ákveðið um það, hvort skipulag skyldi vera á kirkjunni, og því megi hver öld kjósa sér það skipulag, sem í þann svipinn er hentast. Frú Booth segir: »Guð lætur sig engu skipta, hvort skipulag eða háttu vér höfum, ef vér að eins höfum lifanda anda; hvort eitt skipulag er eins og nár, þegar andinn er horfinn frá því». Hið einkennilega skipulag »the aggressive Christianitýs» (hinnar sóknbúnu kristni), stafar að hennar sögn að því, hvernig nú er ástatt í kristninni. Ungir menn, svo þúsundum skiptir, þarfnast á vorum dögum fyrir eitthvert siðferðislegt tangarhald. Hið innra með sér hafa þeir ekki neitt, er fang megi á festa, eða standa megi undir léttiveli þeim, er á að vega þá upp til siðmenningar. Það var öðruvísi til forna; þá var í hverjum manni eitthvað, sem prestur, mannvinur eða kennari gat fest sig við». Ef kirkjan skyldi ætla, að hún hefði köllun til þess að skapa þennan fangstað á mönnum, þá er henni vísað á bug með þeim ummælum, að þeir, sem orðnir eru fráhverfir trúnni, þeir vilji ekkert eiga saman við kirkjunnar þjóna að sælda, þar sem þeir fái kaup fyrir vinnu sína. Gömlu vegirnir eru nú ófærir. Hin nýja hvítasunna hefir skapað nýtt skipulag, bæði nýja guðsþjónustu, og nýtt fyrirkomulag á kirkjunni. Kristnin búin til sóknar verður að hafa á sér hermannlegt skipulag; hún hlýtur að heimta fullkomna hlýðni bæði við höfuð hersins á himnum, og við aðalfyrirliðann við höfuðstöðvar hersins í Lundúnum.

Guðsþjónusta hjálpræðishersins er fólgin í sálmasöng, bæn og prédikun. Það er mjög lítið af hinum eldra sálmakveðskap, er Booth hefir þótt nýtanda. Af sálmum lúthersku kirkjudeildarinnar ekki nema tveir: hinn frægi hersöngur Lúthers: Vor guð er borg á bjargi traust, og sálmur eptir J. A. Rothe, er Brorson hefir þýtt á dönsku — en sem kveðinn var á afmælisdag Zinzendorfs greifa 1728. En hjá hernum hefir komið upp mikið af kristilegum hermannaljóðum, sem eru náskyld sálmum Sankeys.

Allir sálmar hersins eru, eins og sálmar Sankeys, sungnir eptir fjörugum lögum, er vel ganga í eyrun. »Þessi tíði söngur, sem tíðkanlegur er hjá oss, segir Railton, styður mikið að því að vekja athygli manna á samfundum vorum og halda henni við, og hann hlýtur að koma fram sem vottur um hinn ótakmarkaða fögnuð, er allir þeir finna með sér, er taka þátt í guðsþjónustunni. Hinn auðsæi feginleikur, er skín á andlitum, er bera greinileg merki fyrri daga synda, hefir eptir vorri reynd opt gjört meiri áhrif, en orð þau, er töluð voru eða sungin. Það er algengt viðkvæði hjá þeim, er á horfa: »Þessir menn hafa eitthvað, sem vér eigi höfum», og þetta hrífur. Það er þá eptir þessu ekki annað en það, sem við má búast, að sá kaflinn í sálmabókinni, sem í eru sálmarnir um kristilegan fögnuð (joy), er mjög stór, enda eru og í honum sumir beztu sálmarnir í sálmasafninu.

Eptir sönginn kemur svo prédikunin, eða rétt-

ara orðað prédikanirnar; því það er alls ekki óalgengt, að tuttugu, þrjátíu, já allt að 60, karlar sem konur, komi fram og flytji vitnisburð sinn. Jafnskjótt og hver einn hefir höndlað hjálpræðið, er talið fara bezt á því, að hann stigi upp á ræðupallinn og »vitni». Booth ætlar, að það muni verða öðrum til gagns, að sjá þann, er var fyllisvín í gær, sem guðspjallara í dag, og fyrir þennan vitnisburð hefir »prédikarinn» bundið sjálfan sig við herinn, og gagngjört sagt sèr afhendis allt sitt fyrra líf. Það má á sama standa, hvort það er karl eða kona, gamalmenni eða barn[1], skírður kristinn maður, eða fyrverandi Múhameðstrúarmaður eða Hindúi, er hjálpræðið hafa höndlað; þeir þurfa allir að fara upp á pallinn. Hugmyndir þær, sem þessir nýliðar hjálpræðishersins hafa um kristindóminn, eru að öllum jafnaði mjög ófull-

---

1) Í hernum eru einnig „barna-herdeildir", og er haldið úti blaði fyrir þær, sem heitir „The little soldier". Börnum er boðið að vera í samvinnu við þetta blað, með svofelldri auglýsingu, er kemur út í hverju blaði:

„Vjer viljum fá!

fimm þúsund pilta og stúlkur, er skrifa skýrslur um fundi, apturhvörf og annað, sem gott væri að fá að vita um, upp á pappírsmiða, og afhenda það hinum stóra höfuðsmanni, er svo sendir það til aðalstöðvar litlu her mannanna.

Þegar þú hefir lesið þetta, þá skaltu setjast við og skrifa hið hraðasta".

Börn, sem gaman þykir að því að skrifa, verða við áskoruninni, og senda stöðugt skýrslur þær, sem beðið er um í auglýsingunni til „litla hermannsins".

komnar; því fyrirliðarnir halda ekki ræður til uppfræðingar, heldur til þess að vekja menn; og opt er lítið annað í þeim en lýsing á muninum á himnaríki og helvíti, nema hvað Kristur optast mun vera nefndur á nafn. Og það er því ekki nema eðlilegt, að ræður leikmannanna jafnast ekki eru nema fáein orð um fögnuð þeirra yfir hjálpræði því, er þeim hlotnaðist, t. a. m.: »Vinir mínir! eg er þvegiinn hreinn í blóði lambsins», eða þá: »Nú líður mér vel, og konunni minni líður líka vel. Eg elska Jesúm drottin vorn; hann lætur okkur líða vel. Eg átta góðan gamlan föður, og eg hefi lofað honum að finna hann á himnum; og nú er eg á leiðinni til hans». Eða þá: »Síðustu tíu vikurnar hafa verið sælustu dagar æfi minnar». Stundum eru í ræðum þessum átakanlegar lýsingar á því regindjúpi spillingarinnar í hinni nýju Babýlon (Lundúnaborg), er hinn nýorðni liðsmaður hjálpræðishersins þykist hafa kafað upp úr; er í þeim lýsingum við margt komið og það misjafnlegt. Svo sendir hjálpræðisherinn fréttaskeyti sín af fundinum sigrihrósandi, eins og vant er. Til dæmis skal hér setja eina fundarskýrslu: »Dýrðleg vígsla hjálpræðisskálans í Barnsley. Stórkostleg vottun kristins fagnaðar undir berum himni. Skálinn troðfullur allan síðara hluta dagsins og kveldið. Öll hjörtu sannfærð. Söngurinn stórkostlegur. Ræðurnar hrifu. Margir grétu. Tylftum saman fundu þeir frið fyrir fótum frelsarans. Stórar hjálpræðisskothríðir (amen, gloría, hallelúja) gjörðar. Allir saman fagnandi. Margir héldu ræður, er rómuðust framúrskarandi vel. Að lyktum stór

hjálpræðiskrýning (salvation coronation — veifað vasaklútum). Miklu fé skotið saman. Kapteinn Harrison».

Það sem mest hefir áhrifin í allri þessari trúarhreyfingu, er vitnisburður leikmannanna um það, sem sjálfir þeir hafa reynt. Prédikanir fyrirliðanna verða sem skuggi einn í samanburði við hann. Að vísu heldur Booth og kona hans alllangar ræður; einkum virðist frú Booth vera dável máli farin; en það er allopt, að hinir fyrirliðarnir gjöra ekki annað við guðsþjónustugjörðirnar en það, að skipa svo til um allt, að þær verði svo skemmtilegar sem fremst má verða.

Í fræðunum er svo fyrir mælt, að fyrirliðinn eigi ekki að eins að neyta hyggilegra og áhrifamikilla atferla fyrirrennara sinna; »hann á sí og æ að breyta til».

Svo er spurt: »Á hverju ríður mest við tilhögun guðsþjónustunnar?» og svarið er: fyrst attractiveness (það, að hún sé aðlaðandi), og þá relegiousness (að hún sé guðrækileg). »Guðsþjónustugjörðirnar verða að vera skemmtilegar — þær verða að vera aðlaðandi fyrir þess háttar fólk, sem herinn einkum vill ná í». Svo er enn fremur spurt »Hvað getur gjört þær aðlaðandi?» Svar: »Þær þurfa að vera fjörugar. Ekkert er á við fjörið. Lifandi hundur er betri en dautt ljón. Það er ekkert, sem alþýða á verra með að sætta sig við en leiðindin». Síðan er gjörð grein fyrir því, hvað skilið sé við fjör. Í fræðakverinu segir: »Það er fjörugt, sem er stutt og laggott, hnittið og mergjað, og fullt af sögum til skýringar umtalsefninu.

það verður að opna vel munninn og kveða skýrt að orðunum[1]. það þarf að vera mikill söngur, og lögin örvandi, en umfram allt: sí og æ eitthvað nýtt og ferskt (something perpetually new and fresh»). Og eru þessar reglur glöggur vottur þess, að hjálpræðisherinn þekkir glöggt á algengustu mein þessarar kynslóðar.

Vilji menn fá hugmynd um, hvað kostgóðar eru kenningar þær, er hjálpræðisherinn flytur, þá verður að fara í fræðakver hans: »The doctrines and discipline of the Salvation Army».

Af þessari fræðabók hersins má mjög víða sjá það, að trúarkenningar hans eru mjög náskyldar meþódista-kenningum, og eiga ætt sína að rekja til þeirra. það sem herinn hefir tekið upp af nýju, er einkanlega það, sem sagt er um skyldur fyrirliðanna, og svo kaflinn sá, er talar um »rétt kvennfólksins til að prédika». Í lærdómnum um biflíuna má sjá, að þeir, að hætti reformertra, halda fram innblástri hennar, en í öðrum atriðum eru þeir þeim þó nokkuð frábrugðnir. þannig er spurt: »Eru ekki sumir, sem ranglega meta biflíuna?» Svar: »Jú; sumir gjöra of lítið úr henni, og því vanrækja þeir það að lesa í henni og láta stjórnast af kenningum hennar; aptur eru aðrir, er gera allt of mikið úr henni, með því að þeir skoða hana sem þann eina hátt, á hvern guð talar til mannanna». »Getur guð birt mönnunum vilja sinn á annan hátt, en fyrir hið skrifaða orð?». »Já.

---

1) Lúther gaf þá reglu: „Tritt frisch auf, thu's Maul auf, hör' bald auf“.

Hann talar beinlínis við hjartað fyrir anda sinn, og fyrir þennan sinn anda lætur hann og vilja sinn birtast frá einum manni til annars». Síðan er það skýrt, hvernig það má með fullum rètti segja það, að á hjálpræðishernum hafi rætzt fyrirheitið um leiðsögn heilags anda. Sumir, er fylgt hafa strangri skoðun reformertra á heilagri ritningu, hafa nú komið með þá mótbáru, að herinn og allt skipulagið á honum ætti ekki við neitt að styðjast í ritningunni, en að það eitt mætti kristilegt kallast, er hefði skýlaus orð heilagrar ritningar fyrir sér; en þá menn hefir Booth viljað slá af laginu með þessum ummælum: »Þessi hyggja, að guð að eins geti talað fyrir hið skrifaða orð, er ein aðalundirrótin til þess, að sönn guðsþekking er svo hörmulega óalgeng, og að svo margt fer í ólestri af því, er á að miða til að útbreiða guðs ríki. Menn hafa komizt langt á leið með það, að þoka út úr heiminum guðs lifandi og verkandi framkvæmdum, og hafa þeir svo sett dauða bók í þess stað». Booth sér glöggt ágallana á hinum dauða biflíukristindómi, eða biflíuátrúnaði, sem er einn af annmörkum ensku kirkjunnar, og situr hann sig sjaldan úr færum um að andmæla honum. Að öðru leyti hefir herinn þá grundvallarskoðun, að allt það skuli teljast villukenning og gerast rækt, er sé gagnstæðilegt biflíunni.

Manni, öldum upp við lútherska eða kaþólska kenningu, sem læsi fræðakver hjálpræðishersins, mundi þykja það kynlegt, að í trúarbragðakennslubók, sem er mjög fjölorð um náðarkosninguna, skuli ekki vera neitt sérstaklegt um kvöldmáltíð-

ina; hún er rétt að eins nefnd á nafn, þar sem talað er um skírnina. Það lýsir sér hvergi glöggara, hvað náskyldur hjálpræðisherinn er reformeruðum, eða enda enn frekari trúarvinglsmönnum, heldur en í skilning hans á sakramentunum. Ein spurningin í fræðakverinu er þessi: »Skoðar herinn skírnina sem skyldu, er menn hljóti að uppfylla?» Svar: »Því fer fjarri! herinn heldur því fram, að það sé ekki nema ein skírn, er nauðsynleg sé til hjálpræðis, og það er skírnin af anda». »En var þá ekki vatnsskírnin æði-algengur siður hjá kristnum mönnum í fyrri daga?» »Jú; en það var umskurnin einnig, sömuleiðis sá siður að raka höfuðið, fótaþvotturinn, og margir aðrir gyðinglegir siðir; en það var aldrei til þess ætlað, að þeir ætti að vera bindandi fyrir breytni vora eða samvizku». Hjálpræðisherinn, er leggur svo mikla áherzlu á orð Krists um það, að prédika evangelíum allri skepnu (Mark. 16, 15.), gleymir alveg orðum þeim, er Jesús mælti að skilnaði við lærisveina sína, þar sem hann býður þeim að gera allar þjóðir að sínum lærisveinum fyrir skírn í nafni föður, sonar og heilags anda (Matth. 28, 19.). Og þá er kveldmáltíðinni ekki gert hærra undir höfði. Ein af spurningunum í fræðunum er: »Hvað kennir herinn um kveldmáltíð drottins?» Svar: »Ef slíkur siður getur styrkt hermennina í trúnni, þá viljum vèr ráða til að hafa hann». Og enn fremur er spurt: »Stendur kveldmáltíðin liðum hjálpræðishersins á miklu, eða er hún þeim hjálpræðismeðal?» Svar: »Nei, alls ekki. Það eina, sem er verulegt hjálpræðisskilyrði, er heilög breytni, og sú opin-

berun kærleikans til guðs og manna, sem vinnst og varðveitist af krapti heilags anda fyrir trúna á blóð Jesú Krists. Í stað skírnar og kveldmáltíðar reisir hjálpræðisherinn upp merki sitt, með orðunum: eldur og blóð; og hann hefir fundið upp nýja aðferð til þess að foreldrar »geti gefið drottni börn sín» án vatnsskírnar.

Þegar einhver hermaður í hjálpræðishernum vill opinberlega gefa drottni barn sitt, verður hann að tala sig saman við sveitarforingjann um það. Helzt á að láta barnið vera búið einkennisklæðum hersins, en þar sem eigi er hægt því við að koma, þá verður að minnsta kosti að dubba það upp með rauðum borða. Foreldrarnir staðnæmast á vinstri hönd sveitarforingjanum, flokksforinginn á hægri hlið honum, »til þess að skipa til um skothríðarnar». Yfir höfði sveitarforingjans blaktir merki hjálpræðishersins. Fyrst les sveitarforinginn upp það, sem nú skal greina: »Ef þú vilt, að drottinn skuli taka sér sál og líkama þessa barns á þann hátt til eignar, að það ávallt geri vilja hans og aldrei annað, þá verður þú með ljúfu geði að láta þér lynda, að það verji allri sinni æfi til hjálpræðishernaðarins, hvert svo sem guð vill senda það; þú verður að láta þér lynda að sjá það fyrirlitið, hatað, barið, fóttroðið, dregið í fangelsi eða drepið fyrir Kristi nafns sakir. Þú verður að láta það, þar sem sjálfur þú ert, sjá fyrirmynd þess, hvað hermaður í hjálpræðishernum eigi að vera, og af öllum mætti þínum áttu að uppfræða það og ala upp til þess að vera trúr liðsmaður, er gefi allan tíma sinn, allan sinn mátt, alla sína hæfilegleika,

og allar eigur sínar til þess að styrkja til stríðsins. Þú verður að halda öllum áfengum drykkjum, tóbaki, skarti, auðæfum, vondum bókum, veraldlegri umgengni, skjótt að segja, öllum þeim áhrifum, er geta gert sálu eða líkama mein, svo langt frá barni þínu sem fremst má verða. Þú átt einnig að öllu leyti að fara svo með barnið, sem guðs er vilji til og foringjar þeir bjóða, sem yfir þig eru skipaðir, eptir því sem þú hefir bezt föng á». Síðan á sveitarforinginn að spyrja foreldrana: »Viljið þið gefa þetta barn ykkar drottni og hernum með þeim skilyrðum, er nú hefi eg tjáð?» Þegar þau hafa samsinnt því, réttir sveitarforinginn hendurnar móti barninu og gefur skipunina: »Rétt», og þegar kyrrð er á komin, á hann að taka barnið í fang sér og segja: »Drottinn herja-guð! taktu þetta barn N. N. að þér sem þitt barn!». Síðan heldur hann bæn »eptir því sem andinn inngefur honum», og segir svo: »Í nafni drottins og N. N. sveitar af hjálpræðishernum hefi eg veitt móttöku þessu barni, sem af foreldrum þess er gefið út heiminum til hjálpræðis. Guð blessi og varðveiti þetta barn! amen. Eg býð ykkur, foreldrum þessa barns, í návist guðs og þessarar sveitar hjálpræðishersins, að halda trúlega heit þau, er þið í dag hafið gert um þetta barn». Síðan er skorað á alla þá, er viðstaddir eru, að biðja fyrir foreldrunum og barninu; síðan er gefin skipunin: »byssustingina — fasta!» Að því búnu skipar flokksforinginn til um bænaskothríðirnar: »Guð blessi foreldrana, guð blessi þetta barn, guð blessi hjálpræðisherinn», og er því svarað með þríteknu amen. Að lyktum er

gefin skipunin: »Hermenn! á knén!«, og svo gera menn bæn sína. Það er haldin skrá yfir hina litlu liðsmenn, er þannig eru teknir í herinn. Í athugasemd einni í kirkjusiðabókinni er það brýnt tekið fram, að þegar börn þannig sé gefin hernum, þá megi vatn hvergi koma þar nærri, og ekki má heldur þannig gefa barn, nema þar sem annaðhvort foreldranna er liðsmaður. Þessu áþekkir, en enn þá margbrotnari eru siðirnir, er tíðkast við hjónavígslur og jarðarfarir, og er gefin leiðbeining um þá.

Svo sem auðráðið er, þá er hjálpræðishernum ekki einna lagnast það, að veita uppfræðingu í trúarbragðalærdómum. Allar trúarjátningar eru í hans augum hégómlegur orðaleikur, og þeir láta sér á sama standa um allt það, er snertir það, að skýra fyrir mönnum trúna. Hjálpræðisherinn vill, að andinn komi einnig í stað trúarjátninganna; hjá Englendingum er mergð til af ágætustu guðsorðabókum, en ekki þykir hernum neitt af þeim nýtanda. Í fræðakverinu stendur: »Sneiddu hjá öllum þessum vanalegu guðsorðabókum, þessari kerlingavellu og samsulli, öllum þessum sætindum og vatnsblandi«. Og að því er snertir aðrar bækur og rit, segir fræðakverið: »Bezt er að lesa engin dagblöð, en ef þú þarft að líta í þau, þá verður það að vera rétt sem snöggvast. Auðvitað er, að þú mátt alls ekki lesa skáldsögur«.

En þótt herinn þannig láti sér á sama standa um trúargreinar liða sinna, þá er honum ekki sama um stjórnarfyrirkomulagið. Eins og styrkur kristmunkareglunnar er fólginn í því, að einn vilji er

í henni alráður frá hinum efsta allt til hins neðsta, eins er styrkur hjálpræðishersins í því fólginn, að hann hefir fast skipulag, svo að vilji allsherjarfyrirliðans er framkvæmdur með blindri hlýðni í öllum greinum. Svo sem Kristur tók á sig þjónsmyndina, svo eiga og liðar hjálpræðishersins að íklæðast fullkominni hlýðni. Manni verður einhvern veginn undarlega við, þegar maður sér, að lífsreglurnar, sem gefnar eru þessum flokki, sem allt af ber vitnisburð andans fyrir sig, eru byrjaðar með því að leiða úr öllum áttum rök að því, að fullkomin hlýðni sé brýn nauðsyn, og að hið hermannlega skipulag sé skýlaust skilyrði fyrir því, að nokkuru verði áorkað guðsríki til eflingar. Það er með hálfgerðum ama, að Booth rennir augunum aptur til þeirra daganna, þegar hann enn ekki var búinn að segja skilið við hið einkarfrjálslega fyrirkomulag, er var á »The new connexion«. Hann segir: »Vér byrjuðum á því að reyna til að taka að nokkru leyti tillit til atkvæðis hvers einstaks manns, og því er verr, að enn eimir þó eptir af þessu meþódistafyrirkomulagi. Það eru enn til stöku menn, sem ekkert hefði á móti því, að halda fundi, til þess að ræða um það, hvað gera skuli, og láta svo afl ráða úrslitum«. En nú er búið að losa sig við þetta gamla súrdeig. Að hætti kristmunka hefir hjálpræðisherinn loksins sætt sig við það, að gefa einum manni alvaldsráð, og láta alla sína liða vera hans viljalausa þræla.

Allsherjarfyrirliði hjálpræðishersins hefir ein réttindi, sem kristmunkafyrirliðann vantar; honum er frjálst að kjósa eptirmann sinn. Með því ætlar

Booth, að hann muni fá svo um sjeð, að herinn haldi horfinu í sömu stefnu, og hann talar sí og æ svo, sem það sé eins og sjálfsagt, að allir kristnir menn, þegar fram líða stundir, verði liðsmenn hans. Í hermannakverinu er svo að orði komizt: »Þegar hver sveit hefir fengið það fyrirkomulag, sem hér hefir verið lýst, þá skiptir það minna, hver aðalforustuna hefir, nú sem stendur. Þeir, sem síðar verða foringjar hersins, þurfa ekki annað en halda áfram í því horfi, sem farið hefir verið, og mega að svo búnu eiga víst, að þeim ávinnst ákaflega mikið, og það er varla nein ofdirfð að vænast þess, að fullkomið skipulag verði komið á allt, áður en Booth og synir hans eru dánir». Frú Booth segir: »Á dögum hins forna sáttmála fyrirskipaði drottinn öll tól og tæki; en Jesús Kristur og postular hans hafa látið kristna menn sjálfráða um það, hvert skipulag þeir settu sér til framkvæmda. Nú hefir aðalfyrirliði hjálpræðishersins verið sá lánsmaður, að finna þau tól og tæki, fyrir hver andi Krists gæti verkað», og þegar þeim er laglega beitt, þá er ekki hætt við því, að ekki verði vel ágengt.

Ef menn hugsa sér það, að herinn haldi áfram störfum sínum og útbreiðist til muna, svo að herdeildir margra þjóða verði fullkomlega háðar vilja eins einstaks manns, þá er það auðskilið, að þar er það ríki risið, er verða má fullt eins skætt friði allra ríkja, eins og kristmunkareglan. Það hefir því komið fram úr ýmsum áttum, að slíkur nýr alþjóðaher, undir forustu trúarvinglsmanns, væri meiri en viðsjárverður. Þýzkur rithöfundur,

er hefir kynnt sér allt fyrirkomulag hjálpræðishersins mjög gaumgæfilega, segir: »Hver getur tekið það í ábyrgð, að þeim hugkvæmist það ekki einhvern tíma, hjálpræðishermönnunum, að fara nú að eins og púrítanarnir gömlu? Þeir standa nú það betur að vígi en gömlu púrítanarnir, að þeir þurfa ekki fyrst að koma sér upp her; herinn hafa þeir».

En það þarf varla að bera kvíðboga fyrir þessu eða öðru eins. Fyrst er nú það, að enn sem komið er, hefir herinn náð litlum vexti eða viðgangi með öðrum þjóðum en Englendingum, nema að eins á Indlandi. Til þess að hann nái að festa rætur og vaxa og dafna, er ekki síður þörf á því, að ástandinu í trúarefnum sé eitthvað sérstaklega háttað, en hinu, að skipulag mannlegs félags sé frábrugðið. Það er víst, að það finnst ekki víða annar eins jarðvegur fyrir herinn, eins og í annari eins höfuðborg og þeirri, er hýsir fulla miljón manna, er aldrei hafa í kirkju komið síðan þeir voru fermdir, og aðra miljón þeirra manna, er aldrei hafa stigið fæti sínum inn fyrir kirkjudyr; og England allt, sem meþódistar hafa rótskotað í fulla fjóra mannsaldra, hefir flest það til, er greitt getur fyrir því, að önnur eins trúarstefna og hjálpræðisherinn hefir, nái að fá áhrif. Reynslan hefir sýnt, að annarstaðar eru það bæði þjóðarhættir og ástand hinna ýmislegu trúarbragðaflokka í trúarefnum, er mjög svo hafa tálmað framkvæmdum hersins. Og það er sjálfsagt opt mjög ýkt, það sem sagt er um framkvæmdir hans á Englandi. Þótt herinn sé ekki nema fárra ára gamall, þykir

mega á ýmsu sjá, að hann sé nú búinn að lifa sitt hið fegursta. Hvað hugvitssamir, sem fyrirliðarnir eru, þá verður það sífellt erfiðara, að hafa sí og æ nýtt á boðstólum; en það er mikið til búið að vera með áhrif hersins, þegar hann hættir að geta látið mönnum finnast mikið til um atferli sitt.

Annað eins nýtt happaráð og það, að útvega fé með því að halda almenna föstu í viku eða hálfsmánaðartíma, getur þó aldrei hrifið nema svo sem einu sinni. Þeir, sem eingöngu hafa gengizt fyrir nýnæmunum, verða ekki lengi fastir í flokki, og hinir, sem hafa látið leiðast til hersins af sannri trúarþörf, leita brátt annara staða, þar sem það að vísu kann að vera minna, sem gert er til að laða að, en hitt er aptur sterkara, er heldur föstum. Þó er það ekki fortakanda, að svo kunni undir að bera, að herinn nái að fá meiri áhrif á líf mannlegs félags, en enn er orðið; hitt er og ekki ósennilegt, að eina sannþarfa verkið, er trúarhreyfing þessi láti eptir sig liggja, áður en hún hjaðnar niður, verði hin harðsnúnu samtök til verndar ungu kvennfólki á Englandi. Eins og títt er með »góðfýsismönnum» (pietistum), hefir hjálpræðisherinn lagt ríkt á um bindindi alls þess, er annars er talið að liggja megi milli hluta (αδιαφορα); en barátta hans fyrir bindindinu hefir haft þann ágalla, sem opt vill við brenna hjá »góðfýsismönnum». Þeim hættir við að gera bindindissetningar sínar að aðalatriði kristindómsins. Þannig telur t. a. m. hjálpræðisherinn tóbaksbindindi sem einn hinn mikilsverðasta ávöxt helgunarinnar.

4*

Á einum stað í ræðum sínum óskar frú Booth þess, að hjálpræðishernum mætti auðnast að fara með kyndla, ríkt og refir Samsonar, gegnum kirkjurnar, og kveikja í öllum kristnum mönnum. Þessi ósk hefir að sumu leyti rætzt. Hjálpræðisherinn hefir gefið og getur enn gefið ýmsum kirkjufélögum heilsusamlega ráðleggingu. Þótt Booth skjátli í því, er hann heldur fram, að kirkjan eigi að þoka fyrir kristnum hjálpræðisher, þá hefir hann vafalaust rétt fyrir sér í því, að kirkjan á ávallt að vera stríðskirkja. Og þótt það fyrir sjónum kristins manns sé tilhæfulaust og á engum rökum byggt, að halda því fram, að kirkjan, hve nær sem vera skal, megi eptir geðþekkni breyta um skipulag sitt, án þess að taka neitt tillit til þess, hvernig það að undanförnu hefir sniðizt og samizt, þá má þó það, að slíku er farið á flot — þótt gífurmæli þyki —, vera hugvekja fyrir þá, er helzt vilja mega móka við það skipulag á kirkjustjórn og kirkjusiðum, er á komst á á 16. öld.

Í Lúkasarguðspjalli er frá því sagt, að Jóhannes postuli sagði einu sinni við Jesúm: »Meistari! vér höfum fundið einn, sem í þínu nafni rak út djöfla, og vér höfum bannað honum það, af því að hann ekki fylgir oss». En Jesús svaraði honum: »Bannið það ekki, því að sá sem eigi er á móti yður, er með yður». Eptir þessu svari þyrfti kirkjan opt að muna, og einnig gagnvart hjálpræðishernum.

(*Þorv. Bjarnarson*).

# Camillo Cavour.

Eptir

Johan Ottosen.



## Italía sundruð.

Í fornöldinni og á miðöldunum var Italía miðpunkturinn í veraldarsögunni. Þar hófst í fornöld Rómaveldi, er að lokum tók yfir flestallar þjóðir, sem þá voru kunnar. Á miðöldunum sat páfinn í Róm, merkustu borg landsins; þaðan stjórnaði »jarl Krists» hinum kristnu þjóðum, sem lutu boði hans og banni engu síður en þegnar hinna einvöldu rómversku keisara höfðu þeim lotið.

Land þetta var um full 2000 ár leiðtogi þjóðanna á framfaraveginum. En smátt og smátt skiptist það í fleiri ríki en nokkurt annað land í norðurálfu. Konungar og furstar voru þar mýmargir, sumir ítalskir, sumir útlendir; hver þeirra drottnaði yfir sínum blettinum af hinu fagra landi. Þrátt fyrir alla þessa sundrungu, sem hjelzt í margar aldir, gleymdu Ítalir því þó aldrei gjörsamlega, hvað sem á bjátaði, að þeir voru allir af sama bergi brotnir. Reyndar hafði Neapel ekkert við Feneyjar saman að sælda, og svo var alþýðumál Suður-Ítala frábrugðið máli Norður-Ítala, að sænsk og dönsk tunga eru hvor annari miklu líkari. En ritmál höfðu allir Ítalir eitt, og bókmenntir einar;

þetta andlega einingarband bilaði aldrei, hvernig sem landið var limað í sundur að stjórn og stjórnháttum, og því var það að þakka, að hinir aðgreindu landshlutar gátu aptur orðið að einni heild, þegar þar að kom.

Á öndverðri þessari öld lagði Napóleon hinn mikli mikinn hluta Norðurálfu undir sig. Fóru þá margir Ítalir að vona, að brátt mundi sundrungu landsins lokið. Meðan Napóleon sat að völdum, var Ítalíu að sönnu skipt í 3 ríki, er hvert hafði sína stjórn út af fyrir sig; en það var þó þegar mikið á unnið, er eigi voru nema þrjú ríki, þar sem áður höfðu verið tíu eða tuttugu; en mest var þó í það varið, að Napóleon vakti aptur upp sjálft nafnið »Ítalía», með því að hann nefndi landnorðurhluta landsins »konungsríkið Ítalía». Þó yfirráð Frakka yrðu ekki langgæð, komu þau þó Ítölum að góðu haldi. Nú voru horfnir smáfurstarnir, sem beitt höfðu lagalausri harðstjórn og sogið blóð og merg úr þjóðinni; og þótt Napóleon væri einvaldur drottnari, varð það þó aldrei útskafið, að stjórn hans var afspringur stjórnarbyltingarinnar frakknesku og frelsishugmynda hennar; meðan herveldi keisarans stóð, uxu Ítölum drjúgum vonir um frelsi og einingu.

Nú kom þar, að öll hin stórveldin lögðust á eitt og kollvörpuðu keisaraveldinu frakkneska. Voru þá höfðingjaættirnar gömlu aptur til valda settar hvervetna í Norðurálfunni, og öllu komið aptur í gamla horfið. Svo fór og að mestu leyti á Ítalíu. Smáhöfðingjarnir komu aptur, og skyldi Austurríki »vernda» þá. Landinu var nú aptur

sundrað og harðstjórnin gamla til hásætis leidd; en því var ekki gaumur gefinn, að þjóðin, sem áður hafði tekið hvers kyns kúgun og áþján með þögn og þolinmæði, nú var orðin öll önnur. Á fundi þeim, sem keisarar og konungar áttu með sjer í Vínarborg 1815, var svo fyrirskipað um hagi Ítalíu, er nú skal greina.

Norðan til og lengst til landnorðurs á meginlandi Ítalíu eru tvö fylki, mikil og auðug, Langbarðaland og Feneyjar; þau voru limuð inn í keisaraveldið Austurríki. Tók keisari sjer vald til að veita þar öll embætti, leggja á skatta eptir geðþótta og bjóða út mönnum til herþjónustu, svo mörgum sem honum leizt; en ekki máttu Italir vera í herdeildum sjer, heldur var þeim potað á strjálingi inn í herdeildir Austurríkismanna. Í fylkjum þessum hafði enginn neitt að segja nema lögreglulið keisarans.

Hin önnur ríki höfðu drottna hvert út af fyrir sig, en þeir voru einvaldir, og áttu ekki við annað að styðjast en her Austurríkismanna; toll-takmörk voru sett milli ríkjanna, og hamlaði það stórum verzlunarviðskiptum; skattar voru geysiháir, ekki nokkur snefill af hugsunarfrelsi eða málfrelsi. Sunnan til var konungsríkið Neapel og Sikiley; það var mest ríkjanna. Um miðbik Ítalíu var Kirkjuríkið; þar sat páfinn að völdum; þar var og Toscana og nokkur önnur smáríki. Í útnorðurhorninu var konungsríkið Sardinía.

Þetta skipulag gat ekki haldizt nema með hinni mestu kúgun; af henni leiddi megna óánægju, og tóku menn nú að ganga í leynifjelög.

Hinum beztu mönnum landsins gramdist mjög niðurlæging ættjarðarinnar og yfirráð Austurríkismanna, er veittu þeim þungar búsifjar; höfðu þeir á þeim illan hug. Leynifjelögin gerðu nokkkrum sinnum tilraunir til að frelsa landið; en af því allt var illa undirbúið, gerði þetta einungis illt verra. Hvar sem uppreist var hafin, var hún í blóði kæfð; frelsisvinirnir voru þúsundum saman hnepptir í dýflissur Austurríkiskeisara eða höfðingja þeirra, er skjólstæðingar hans voru. En þrátt fyrir alla þrælkun komu þó út ýms rit, sem glæddu vonina um viðreisn landsins. Að vísu leit svo út í mörg ár, að það væri óðs manns æði fyrir Ítali, að hugsa til þess að reka rjettar síns á vopnaþingi, en spökustu menn þjóðarinnar leiðbeindu henni til þess að hugsa vandlega um mark það og mið, er til skyldi keppa, þegar stundir líða. Þannig urðu hinar óljósu vonir manna smátt og smátt skýrari; alþýðunni fór að skiljast, hvort stefna skyldi og hvernig að skyldi fara. Var í því efni um eitt af þrennu að velja.

Fyrst er að nefna fjelag eitt mikið, er Mazzini hafði stofnað; var það fjelag fjölmennt, ekki einungis á Ítalíu; það var líka í því fjöldi Ítala út um allan heim. Skoðanir fjelagsmanna voru hinar djarflegustu, og vildu þeir breyta öllu frá rótum. Þeir vildu stofna lýðveldi eitt mikið; öllum yfirráðum útlendra skyldi hrundið, og klerkavaldinu sömuleiðis; hið skaðvænlega höfðingjaveldi skyldi af numið; frelsi og alþýðumenntun skyldi útrýma heimsku og vanþekkingu, er verið höfðu meginstoðir Austurríkismanna og kaþólsku prestanna.

Hugmyndir þessar voru göfugar og djarflegar, en fjelagsmenn urðu sjálfir til þess að hnekkja þessu, er þeir kunnu ekki önnur betri ráð til þess að koma þeim fram, en samsæri og launvíg. Með því gjörðu þeir fjölda frjálslyndra manna sjer fráhverfa, og hefði þó ekki veitt af, að allir frelsisvinir væri á eitt sáttir, ef nokkur von átti að geta verið um að sigrast á óvinunum: Austurríkismönnum, klerkavaldi, smádrottnum landsins og lendum mönnum.

Í annan stað var fjöldi manna, sem hafði beig af flokk byltingamannanna, en undu þó engu betur en þeir hinni útlendu harðstjórn. Lituðust þeirum eptir því veldi, er nægilegt álit hefði áunnið sjer til þess að vera forsprakki í frelsisbaráttu þjóðarinnar, og jafnframt væri nógu einbeitt til þess að halda byltingamönnunum í skefjum. Þótti þeim páfaveldið bezt til þessa kjörið. Það leit svo út um hríð, að skoðun þeirra væri á rökum byggð. Árið 1846 varð Píus hinn 9. páfi í Róm. Hann hóf stjórn sína á því, að gefa öllum upp pólitiskar sakir; hann leyfði heimkomu meira en 1000 landflótta mönnum, og loks veitti hann þegnum sínum ráðgefandi þing. Ekki þurfti meira en þetta til þess að gera hann að átrúnaðargoði allra Itala. Það gekk ekki á öðru en sífeldum fagnaðarhátíðum honum til dýrðar, og á hverju byggðu bóli var til mynd af honum. En vonir þær, sem menn þá gerðu sjer um hann, brugðust illa, sem síðar mun sagt verða.

Í þriðja lagi litu menn vonaraugum til Sardiníuríkis. Þar var Karl Albert konungur; hann hafði

á yngri árum sínum gengið í leynifjelögin; reyndar var stjórn hans ófrjálsleg, en hún var lítt háð Austurríki, og það reið baggamuninn. Sardinía var líka eina ríkið á Ítalíu, sem hafði vígbúinn her; vonuðu menn þá, að þetta ríki mundi ganga í broddi fylkingar gegn Austurríkismönnum, þegar til kæmi, og verða „sverð Ítalíu“.

---

## Byltinga-árin.

Á Ítalíu hófust frelsishreyfingar þær hinar miklu, sem árið 1848 fóru eins og logi yfir akur um alla Norðurálfu; hinar kúguðu þjóðir væntu sjer fulls frelsis, en harðstjórunum skaut skelk í bringu. Uppreistin hófst á Sikiley þegar í janúarmánuði; þaðan gekk frelsisaldan norður eptir, og hrukku Ítalir upp við, sem af svefni; aldan reis hátt; hún steyptist norður yfir Alpafjöll, norður til Parísar; þar var konungur burtu rekinn í febrúarmánuði og lýðveldi stofnað. Óðara en frjettirnar frá París bárust til Berlínar og Vínarborgar, stóð Þjóðverjaland allt í björtu báli. Í Austurríki leit ekki út fyrir annað en að hið mikla keisaraveldi mundi allt sundur liðast. Allir þeir þjóðflokkar, sem í löndum keisarans bjuggu, hófu herskjöld gegn honum, og hafði hann þá ekki fylgi nema af her sínum einum.

Þegnar hans á Ítalíu fundu líka, að nú var stundin komin. Höfuðborg á Langbarðalandi er Milano, mikil borg og hin skrautlegasta; þaðan var setulið Austurríkismanna hrakið. Öllum Ítölum þótti skylt að veita bræðrum sínum. Sjálf-

boðar skunduðu hópum saman norður eptir til þess að berjast hinni helgu baráttu. Karl Albert sagði Austurríkismönnum stríð á hendur, enda voru þegnar hans á eitt sáttir um það við hann. Nú var að því komið, að Sardinía skyldi reyna sig sem „sverð Ítalíu". En brátt varð það ljóst, að Austurríki var fastara, en Ítalía veikari fyrir, en menn höfðu ætlað. Stjórninni tókst að bæla niður uppreistina í Vínarborg, grimmilega og vægðarlaust, en var þó svo hyggin að slaka til í sumu. Á meðan á því stóð, veittu Austurríkismenn Ítölum viðnám; sá hjet Radetzky, er stýrði her Austurríkismanna á Ítalíu; hann var öruggur foringi; komu honum og að góðu haldi hinir rammgjörvu kastalar á Langbarðalandi. Samtökin meðal Ítala urðu ekki langgæð. Á meðan allt gekk að óskum, voru þeir samhuga; en þegar er þeir höfðu í fyrsta sinn borið lægri hlut, fór að brydda á sundurlyndi milli þeirra, er konungsstjórn fylgdu, og lýðveldismanna. Varð þeim það hið mesta óhapp. Vorið 1849 skreið til skarar í orustunni hjá Novara. Þar unnu Austurríkismenn mikinn sigur. Karl Albert bað um vopnahlje. Þá gerðu Austurríkismenn honum þá smán, er honum þótti sárust allra. Konungsættin í Sardiníu hafði það sjer til ágætis haft, að aldrei hafði neinn höfðingi af þeim ættlegg gengið bak orða sinna. En nú kvaðst Radetzky ekki þora að trúa loforðum Karls Alberts, og því gæti hann ekki við hann um neitt samið. Þetta fjell Karl Albert mjög þungt; ljet hann af konungdómi og fjekk hann í hendur Viktor Emanúel konungsefni; hann tók grátandi við

kórónunni af föður sínum. Þegar er Karl Albert hafði þetta í sölurnar lagt, fengu Ítalir á honum hinar mestu mætur. Þeir gleymdu því, að hann á sínum yngri árum hafði verið í liði samsærismanna, að hann á fullorðinsárunum hafði látið klerkastjettina hafa sig til hvers er vera skyldi; þeir fyrirgáfu honum allt. Var hann upp frá þessu talinn einn af þeim mörgu píslarvottum, sem öllu höfðu orðið á bak að sjá ættjarðarinnar vegna.

Viktor Emanúel varð þegar, er hann var að völdum seztur, að semja frið við Austurríkismenn, og fara ofan af öllu því, er Ítalir höfðu fyrir barizt. Eptir málavöxtum máttu þó friðarkostirnir fremur vægir kallast, fjárútlát nokkur, en lönd þurfti engin að láta. Reyndar kom það ekki til af góðu, heldur einungis af því, að Austurríkismenn þorðu ekki að þröngva frekara kosti jafnhraustrar þjóðar.

Apturkastið kæfði allar frelsishreyfingar um endilanga Ítalíu. Meðan á ófriðnum stóð, hafði Píus páfi reynt að sigla milli skers og báru; tók nú að draga úr alþýðuhylli hans; menn fóru að sjá, að þeir höfðu orðið of fljótir á sjer að vegsama hann fyrir frjálslyndið. Hann snerist smámsaman öndverður þegnum sínum. Í annan stað flykktust ítalskir lýðveldissinnar til Rómaborgar. Svo fór að lokum, að páfa þótti þar ekki við vært og flýði í kastala þann, er Gaëta heitir. Var þá lýðveldisstjórn í Rómaborg um nokkra mánuði, þangað til ófrelsis-apturkastið barst líka þangað. Það var forseti lýðveldisins frakkneska, Loðvík Napóleon, sem hljóp undir bagga með klerkunum, og

ljet frakkneska hermenn flytja „hinn heilaga föður“ aptur inn í hina „eilífu borg“.

Uppreistin ítalska var nú brotin á bak aptur; Austurríki hafði lagt Ítalíu að velli og ljet knje fylgja kviði; það hefndi sín greypilega, og ætlaði með því að tryggja yfirráð sín. *Á Langbarðalandi voru líflátnir um 1000 manna á einu ári, eptir að friðurinn komst á.* Algeng refsing var að *lemja* menn, jafnt konur sem karla. Á einum þremur árum tóku Austurríkismenn nálægt 400 miljónum króna af Norður-Ítalíubúum. Hinu sama fóru þeir og fram í ríkjum þeim, er voru þeim óháð í orði kveðnu. Í Toscana var dauðahegning fyrir löngu úr lögum numin; en herforingjar Austurríkismanna settust þar í dómarasæti og dæmdu þarlenda menn til dauða.

Konungsríkið Sardinía eitt var að öllu óháð Austurríki. Fjárhagur þess var mjög bágborinn; flokkadrættir voru svo miklir, að uggvænt þótti, að ríkið mætti saman loða.

Svona var nú ástatt, þegar Viktor Emanúel settist að völdum. Það verður honum til æfinlegrar frægðar, að hann ljet ekki bugast af ófrelsisapturkastinu. Hann var sá eini af öllum stjórnendum Ítalíu, er hjelt stjórnarskrá þá, er þegnar hans höfðu öðlazt uppreistarárið. Allir stjórnendur aðrir tröðkuðu grundvallarlögum þeim, sem þeir höfðu undir ritað, er þeir þorðu eigi annað uppreistarinnar vegna. Lögbundið frelsi átti hvergi hæli á Ítalíu, nema í Sardiníuríki.

Það var Ítölum að nokkru leyti sjálfum að kenna, að ekki tókst betur til með frelsisbaráttu

þeirra. Allir höfðu flokkarnir til þessa stuðlað. Byltingamennirnir voru of svæsnir; þeir fóru að orðum Mazzinis: »Af konungmenni má einskis góðs vænta»; apturhaldsmennirnir voru um of hræddir um, að þjóðin væri ekki frelsinu vaxin, er útlend harðstjórn hefði kúgað úr henni alla dáð, og klerkarnir haldið henni í því vanþekkingarmyrkri, að hún vissi hvorki upp nje niður. Í þriðja lagi voru þeir, er reiddu sig á, að »Ítalía mundi hjálpa sjer sjálf», eins og Karl Albert hafði sagt, og þótti læging í að þiggja lið að öðrum; þetta allt saman dró sigurinn úr höndum þeim. Ítalíu vantaði ekki menn, er fúsir væru að leggja allt í sölurnar fyrir frelsið; það var búið að sýna sig; ekki þurfti heldur á skáldum nje mælskumönnum að halda til þess að vekja þjóðina; hún var vöknuð; það sem vantaði, var stjórnvitringur, er heimt gæti saman alla hina sundruðu krapta undir eina stjórn. Þessi maður var *Cavour*.

---

## Námsár Cavours.

*Camillo Benso di Cavour* greifi var fæddur 1810 í Turin, höfuðborginni í konungsríkinu Sardiníu; hann var kominn af gamalli höfðingjaætt. Um þær mundir mæltu þar allir heldri menn mestmegnis á frakkneska tungu, og varð frakkneska því móðurmál þess manns, er Ítalía átti síðar viðreisn sína að þakka; ítalska tungu lærði hann eigi fyr en síðar. Ekki voru honum innrættar frjálslegar hugmyndir. Faðir hans fylgdi

fornum sið; hann hafði þá, er að völdum sátu, í mesta heiðri, en hataði allar frelsishreyfingar. Allt var gert sem unnt var til þess að drengurinn skyldi verða auðmjúkur þjónn drottnendanna. Þrátt fyrir það bar snemma hjá honum á næmri tilfinningu fyrir rjettlæti og frelsi, enda var þetta einkenni hans til dauðadags. Þegar hann var sex vetra gamall, bar svo við, að hann var á ferð með foreldrum sínum í Sviss. Á póststöð nokkurri skyldi skipt um hesta fyrir vagni þeirra, og fjekk póstmeistarinn þeim ljelegar drógar. Af þessu varð Camillo litli fokvondur, hljóp til æðsta embættismanns í bænum, og heimtaði af póstmeistaranum væri vikið frá embætti. Naumast mun hann hafa fengið þessu framgengt; en eptirtektavert er atvik þetta, og ber vott um, hversu sjálfstæður sveinninn var, og að hann fann talsvert til sín.

Hann átti að verða hermannaforingi, eins og flestum tiginbornum mönnum var títt; því var hann settur í hermannaskóla; faðir hans, sem var í miklum metum við hirðina, fjekk komið honum í hirðsveinaflokk hjá konungsefninu, Karli Albert, þeim er fyr er nefndur; þetta þótti ættingjum hans hið mesta happ, og töldu nú sjálfsagt, að hann mundi fljótt framast í hernum. Pilturinn var nú 14 vetra. Honum fannst lítið til þess koma, að eiga hirðhyllinni einni stöðu sína að þakka; tók hann að stunda fræði sína af mesta kappi og búa sig undir foringjaprófið; vildi hann ekki eiga frama sinn að konungsefni, heldur afla sjer hans sjálfur. Þegar hann var 16 vetra gamall, gekk hann undir foringjapróf, og fjekk ágætiseinkunn; var það 4

árum fyr en reglugjörðin til tók. Varð hann þá þegar „lieutenant“.

Í fimm ár var hann við herþjónustu. Á þessu tímabili var það, að hann fór fyrst að gefa stjórnmálum gaum. Tók hann þá eptir mörgu misjöfnu í stjórnarfarinu, og fjekk sumt af því honum svo mikils, að honum gekk það ekki úr minni, og lagði hann 30 árum síðar, allt sitt fram til þess að kippa þessu í lag. Þá mátti eigi refsa klerkum að lögum, þótt brotlegir hefðu gjörzt, og ekki mátti þá höndum taka, ef þeir höfðu hælis leitað í kirkjum eða klaustrum. Í bæ einum litlum hafði munkur sekur orðið; leitaði hann hælis í klaustri nokkru; hermenn áttu að taka hann; þeir settust umhverfis klaustrið og sátu þar heilan mánuð; en inn í klaustrið dirfðust þeir ekki að fara. Sagði Cavour svo síðar, að við atburð þennan hefði hvorki sjer nje hjeraðsbúum aukizt virðing fyrir trúarbrögðunum eða klerkunum.

Júlí-uppreistin í Frakklandi 1830 gerði drottnendur á Ítalíu smeika; tóku þeir þá enn fastar í taumana. Þá var Karl Albert orðinn konungur í Sardiníuríki, og fór hann að hinna dæmum. Um það hafa Cavour svo orð farizt: „Sjerhver frjálsleg og drenglynd hugmynd var niður bæld, sem helgidagsbrot væri eða landráð“. Konungur mundi hinum unga „lieutenant“ það, að hann hafði eigi viljað þekkjast það að vera hirðsveinn hans, og skipaði honum setu í kastala nokkrum litlum og afskekktum, er lá til fjalla. Ekki undi Cavour þar nema missiri; honum leiddist þar, og var auk þess ófús á að þjóna harðstjórninni. Tók hann þá það

til bragðs, að biðja um lausn frá herþjónustu, og var honum veitt hún — í ónáð konungs. Þá var hann 21 árs. Bróður átti hann, sjer eldri; gat hann því ekki búizt við að erfa fasteignir foreldra sinna. Horfðist þó ekki glæsilega á fyrir honum, er hann hafði sleppt stöðu þeirri, er hann hafði búið sig undir.

En það varð honum til hins mesta þroska, að hann ljet af hermennsku, og sneri sjer að verklegum störfum. Hann stundaði nú um nokkur ár jarðarrækt og hagfræði; varð hann ágætur búmaður og jarðyrkjumaður. Hann ferðaðist um Frakkland og England og kynnti sjer nákvæmlega stjórnarháttu og skipulag allt hjá þeim þjóðum; varð það honum að hinu mesta gagni, einkum Englandsförin. Þar sá hann þess lifandi vott, að þjóðfrelsi og lögum bundið skipulag getur saman farið; við það sannfærðist hann enn betur en áður um yfirburði þingbundinnar konungsstjórnar; þar sá hann, að tollvarnir voru á förum, en óbundin verzlun að ryðja sjer til rúms; sannfærðist hann um, að frjáls verzlun mundi einnig happadrjúg verða ættjörðu sinni. Getandi er þess, hvernig honum eitt sinn fórust orð um þetta efni; hann var þá staddur í París, og var að ræða um óbundna verzlun. Sá, sem hann átti orðaskipti við, sagði við hann: »Þessar skoðanir láta menn í veðri vaka, þegar þeir eru að berja á dyrnar að musteri valdanna, en óðara en þeir eru þar inn komnir, fleygja þeir þeim út um gluggann». — »Segið þjer fyrir sjálfan yður», anzaði Cavour; »en hvað

mig snertir, þá legg jeg þar við drengskap minn, að verði jeg nokkurn tíma ráðgjafi, þá skal jeg fá skoðunum mínum framgengt, eða úr sessi þoka að öðrum kosti».

Þrátt fyrir það, sem að framan er ritað, mega menn ekki ætla, að Cavour hafi sí og æ verið alvörugefinn og þungur í skapi; hann tók vel þátt í gleði og glaðværð. Þegar hann heimsótti vini sína, var enginn gestur jafn-kærkominn börnum þeirra, sem hann; þau þekktu ekki annan eins æringja; hann gat fundið upp á svo mörgu til gamans. Ekkert málefni var svo lítilfjörlegt, að hann vildi því ekki sinna, enginn maður svo lítilmótlegur, að hann synjaði honum viðtals. Hann sagði: »Jeg hefi aldrei lært, hvernig á að fara að því, að láta sjer leiðast». Á búgarði sínum »Leri» fjekk hann miklu til leiðar komið. Hann fór á fætur um sólaruppkomu, leit eptir öllu, jafnvel mestu smámunum; sjálfur sagði hann hverjum og einum fyrir verkum, og var lífið og sálin í öllu því, sem framkvæmt var. Hann fjekk líka góða umbun erfiðismuna sinna; fen og foræði þornuðu, loptið, sem áður var sóttarefni meingað, varð heilnæmara, ágóðinn af jörðinni varð helmingi meiri en áður. Öll sveitin, sem haan bjó í, átti honum mikið upp að inna; aðrir fóru að dæmi hans og ráðum, og tóku stórkostlegum framförum í jarðarrækt. Það er því mjög vel til fallið, að sveitarmenn hafa reist Cavour þar minnisvarða, ekki sem stjórnvitring, heldur sem búfork og mesta framfaramanni þeirra tíma í jarðabótum.

Árið 1848 þótti honum sjer ekki lengur til

setu boðið; það ár fjekk Sardiníuríki stjórnfrelsi; Cavour vildi þingmaður verða, en náði ekki kosningu að sinni; hann hafði þá ekki þjóðhylli; hvorugur flokkurinn trúði honum; hinn svæsnari flokkurinn taldi hann vera hættulegasta apturhaldsmann, en apturhaldsmennirnir hjeldu hann vera versta byltingasegg. Síðar náði hann þó þingmennsku. Í upphafi var þingmennska hans alls ekki glæsileg; ræður hans þóttu fremur óáheyrilegar; hann talaði ekki vel ítölsku, og optast nær veitti hann minni hlutanum, sem óþjóðlegur þótti, að málum. Svo var og þá er ræða skyldi um friðarsamning við Austurríki. Cavour sagði, sem satt var, að ekki væri annars kostur en að semja frið; en þingmenn vildu ekki við kannast, að í jafn óvænt efni væri komið, eins og í raun og veru var; samþykktu þeir því, að friðarsamningum skyldi frestað. En nú var hver stundin dýrmæt. Stjórnin ráðgaðist um við Cavour. Lagði hann það til, að þingið væri þá þegar rofið. Það var reyndar búið að gera það tvisvar áður það hið sama ár; en ekki varð í það horft, því ekki var annað ráð fyrir höndum. Raun bar þess skjótt vitni, að Cavour hafði haft rjett að mæla. Þingmennirnir hinir nýkosnu samþykktu, að friður skyldi saminn.

Nú, er um hægðist, fengu menn næði til þess að snúa sjer að endurbótum innanlands. Stjórnarráðið var mestmegnis úr flokki hinna gætnari manna; forseti þess var d' Azeglio. Hann byrjaði á því, að leggja fyrir þingið frumvarp um afnám

kennimannlegra dómstóla og griðhelgi klaustra. Menn höfðu lengi unað því illa, að klerkar skyldu eigi af öðrum en klerkum dæmdir verða, og að klaustrin skyldu vera griðastaður bófanna. Aldrei hafði klerkur svo illt verk unnið, að ekki ætti hann sjer vísan vægan dóm. Frumvarp þetta sætti mótmælum miklum. Alla þá, sem með frumvarpinu mæltu, setti erkibiskupinn í Turin út af sakramentinu. Cavour var forvígismaður þess. Þegar í æsku hafði hann tekið eptir því, hve ill og skaðvænleg griðhelgi klaustranna var. Hann rjeð nú stjórninni til þess að hirða eigi um, þó henni væri borið á brýn, að hún byrjaði sjálf á byltingum. Ef konungsveldið snerist á braut framfara og endurbóta, þá mundi svo vel gróa um rætur þess þar í landi, að það ekki einungis fengi staðizt bylji uppreistanna, heldur mundi einnig geta dregið að sjer »alla hina lifandi krapta Ítalíu». Máli sínu til sönnunar benti hann til Englands.

Skömmu síðar dó einn af ráðgjöfum konungs; var það þá almannarómur, að Cavour ætti að koma í hans stað. Ekki er lengi að breytast veður í lopti. Skömmu áður var hann lítils metinn og lítt að alþýðuskapi. En nú var eigi nokkur sá maður uppi, er alþýða treysti betur en honum. Það var hinn 11. október 1850, er Cavour gekk í ráðaneyti það, er d' Azeglio stýrði. Upp frá því rjeð hann mestu um stjórnarfar ríkisins, meðan hann lifði.

---

## Undirbúningur.

Nú var að því komið, að Cavour mátti því fram koma, er hann hugði að bæta mundi hag landsins. Ríkisskuldir höfðu mjög vaxið, meðan ófriðurinn stóð; útgjöld fóru langt fram úr tekjum í fjárlögunum. Þenna halla mátti jafna með tvennu móti. Það mátti draga úr gjöldunum, einkum til hers og flota; en væri það gert, mundi Sardiníuríki ekki verða fært um að takast í fang það sem allir ætluðust til, sem sje að verða »sverð Ítalíu». Tók Cavour því heldur hinn kostinn, að auka tekjur ríkissjóðs, en gerði sjer jafnframt sem allra mest far um að efla velmegun landsins með ýmsum framfaranýmælum. Hjer er ekki rúm til þess, að rekja aðgjörðir hans í þessa átt út í æsar; það er nóg að drepa á, hver stefna hans var. Hann komst að verzlunarsamningum, hagfeldari en áður höfðu verið, við Frakkland, England og önnur hin merkustu ríki í Norðurálfunni, og jafnvel við Austurríki líka. Mjög ljet hann sjer annt um að koma á járnbrautum; merkasta fyrirtækið í þá átt voru göngin í gegnum Mont Cenis; að vísu var ekki á því byrjað fyr en nokkru síðar en það fór fram, sem um er getið í þessum kafla. Undir eins og upp á því var stungið, að leggja járnbraut gegnum Alpafjöll til þess að tengja hina frakknesku og ítölsku þjóð hvora við aðra—en þær mega að frændsemi systur heita — var hann því máli mjög hlynntur. Honum skildist, hve öruggt band þetta mundi verða milli þjóðanna, og að af miljónum þeim, sem til þessa þyrfti að kosta, mundu margfalt fleiri miljónir aptur drjúpa. Hann hik-

aði sjer því ekki við að verja stórfje til þessa, þó að ríkissjóður hefði í ærið mörg horn að líta um þær mundir, sem byrjað var á þessu stórkostlega fyrirtæki. Sömu meginreglum fylgdi hann einnig í öðrum málum. Hann barðist fyrir frjálsri kennslu, en í því efni voru bæði hægrimenn og vinstrimenn honum andvígir; aldrei neytti hann vopna harðstjórnarinnar; hann vildi ekki einu sinni nýta þau til þess að vega með þeim fyrir frelsið; kvað svo rammt að því, að honum þótti stjórnin jafnvel ekki mega afskipti hafa af kennslunni í klerkaskólunum kaþólsku. Brátt kom þar, að hann var sá af ráðgjöfunum, er mest ljet til sín taka; fór þá að draga sundur með þeim og honum. Þegar frelsismóðurinn frá 1848 var af mönnum runninn, snerust þeir meira og meira í hægri átt; fjelögum hans þótti hann fara of geyst á braut endurbótanna. Það sem hingað til hafði gert Cavour mestan óskunda, var ákafi vinstrimanna, en nú varð hann að leita fylgis í flokki þeirra. Naut hann varkárni sinnar. Hann ljet sig það aldrei henda, jafnvel ekki í hinum snörpustu rimmum, að við hafa persónulega móðgunaryrði, er aukið gætu ágreininginn; hann hafði það jafnan hugfast, að koma sínu fram, og því gat það opt að borið, að hann einhvern góðan veðurdag leitaði samkomulags við þann, er hann hafði átt í höggi við fám dögum áður. Frá því 1849 hafði apturhaldsstefnan orðið æ ríkari þar í landi, og tók nú höndum saman við klerkavaldið; hjer þurfti eitthvað í móti að koma, og því gerði Cavour traust samband við

miðflokk vinstrimanna. Urðu þá hinir ráðgjafarnir og allur þorri hægrimanna honum fráhverfir.

Þetta bragð Caours mæltist all-illa fyrir fyrst um sinn; þótti honum ekki svinnlega farið hafa, að gera þetta að hinum ráðgjöfunum fornspurðum. En eptir á hafa menn á það fallizt. Þegar er samband þetta var gert, tók að skapast mikill og frjálslyndur framfaraflokkur; varð hann svo traustur, að hann gat fylgt málefni Ítalíu, svo hvergi sveif, þar til sigurs varð auðið.

Svo varð ágreiningurinn mikill í ráðaneytinu, að Cavour varð að leggja niður völdin um. hríð. Tóm þetta notaði hann til utanfarar. Sótti hann heim ýmsa höfðingja, og meðal þeirra Loðvík Napóleon keisara í París; tjáði hann honum vandræði Ítalíu. Á meðan þessu fór fram, stýrði d' Azeglio landstjórnarmálum heima fyrir; en honum varð sí og æ örðugra fyrir. Kom þar brátt, að hann baðst lausnar. Þá var Cavour svo sem sjálfsagður í hans stað. Gekk hann nú í annað sinn í ráðaneyti konungs, en nú varð hann *forseti* þess.

---

## Krímstríðið. Höfðingjafundur í París.

Árið 1853 hófst ófriður mikill út af tyrkneska málinu, er svo var nefnt í þá daga. Veittu Englendingar og Frakkar Tyrkjum gegn Rússum. Er það Krímstríð kallað, því það var háð á skaga, er frá Rússlandi gengur suður í Svartahaf norðanvert, og Krím heitir. Svo mátti í fljótu bragði virðast, sem ófriður þessi kæmi Ítalíu alls ekki

við, sízt konungsríkinu Sardiníu sjerstaklega. En Cavour var svo glöggskyggn stjórnvitringur, að honum leizt annað. Skildist honum, að hjer gafst færi á að ná hinum frjálslyndu höfuðþjóðum álfunnar, Frökkum og Englendingum, á mál Ítalíu; rjeð hann þegar til þess, að Sardiníuríki skyldi senda her austur á Krím, og veita liði vesturríkjanna fylgi. Þessu var mjög illa tekið af öllum þorra manna; kváðu menn það fásinnu eina, að láta strádrepa Ítali fyrir erlendra manna sakir. Það er ekki nema fyrir afburðamenn, að halda til streitu gegn jafn-almennum mótþróa. En smátt og smátt fóru menn að hugsa þetta mál betur, og fór þeim að skiljast, að það mundi þó ekki með öllu í lausu lopti byggt; það var þó að minnsta kosti auðsætt, að nauðsyn bar til þess að hamla því, að Austurríki, hinn forni og voðalegi óvinur, gengi í bandaleg með vesturríkjunum.

Í janúarmánuði 1854 var alþýða manna komin svo í skilninginu um þetta efni, að stjórnin gat samið við vesturríkin um bandalag. Þeir, sem enn þá voru í efa um, hvort þetta mundi hyggilega ráðið, fengu færðan heim sanninn um það, er þeir frjettu, hve gramir stjórnvitringarnir í Austurríki urðu. Kölluðu þeir bandalag þetta sama sem að »hleypt væri úr skammbyssu við hlustirnar á Austurríki».

Ítalskur liðsauki frá Sardiníu fór nú leiðar sinnar austur á Krím; en þá gjörðust þau tíðindi heima fyrir, er Cavour var við falli af búið, og þá einnig þeirri stjórnarstefnu, er fylgt hafði verið þar um nokkurra ára skeið. Það mál var þannig vaxið,

að Cavour lagði fyrir þingið frumvarp um afnám 300 klaustra, þeirra, er klausturbræður ekki hjúkruðu sjúkum, ekki fengist við fræðslu ungmenna, nje störfuðu að nokkru því, er til gagns mætti verða. Það er svo sem sjálfsagt, að klerkarnir urðu hamslausir. Þá bar svo við, að á einum og sama mánuði andaðist móðir konungs, kona hans og bróðir. Úr þessu varð klerkunum matur; þeir vissu, hvernig á þessum mannalátum stóð; sögðu þeir, að reiðieldur guðs væri yfir konung kominn, fyrir það að hann fyllti flokk kirkjuránsmanna, og þeirra, er helga hluti hefðu að háði. Hinn sorgmæddi konungur var utan við sig og á báðum áttum. Cavour vildi ekki taka frumvarpið aptur, og bað um lausn.

Í 6 daga var ríkið án ráðaneytis; þá áttaði konungur sig, og kvaddi Cavour aptur til stjórnar. Nú varð frumvarpinu framgengt. Þegar konungur ritaði nafn sitt undir lög þessi, varð honum að orði: »Þá vil jeg heldur fara til Ameríku en hleypa mjer aptur í annað eins og þetta».

Her Sardiníumanna gafst ekki færi á að vinna nein afreksverk á Krím; en í smáorustu einni sýndu þeir mikinn vaskleik. Cavour þótti sem Sardiningar hefðu þegar sýnt Norðurálfuþjóðunum það, að Ítalir kynnu með frjálsa stjórn að fara; en það sem honum nú þótti mest undir komið, var, að sýna mönnum fram á, að þeir gæti á vígvelli staðið jafnfætis hinum beztu hermönnum í heimi. Afleiðingarnar urðu í þessu tilliti eins og hann hafði gert sjer vonir um. Hin litla hugprúða þjóð hafði áunnið sjer hylli Frakka, og þá ekki síður

Englendinga; það var um alla Norðurálfu farið að ræða og rita um Ítalíu. Það var einmitt þetta, sem Cavour hafði til ætlazt. En að öðru leyti varð minna úr, heldur en hann hafði við búizt. Honum hafði til hugar komið, að svo gæti farið, að Austurríki gengi í lið með Rússum, og yrðu þá Frakkar og Englendingar að berjast fyrir frelsi Ítalíu, hvort sem þeir vildu eða ekki. En Austurríki ljet ekki handa hefjast, en var Rússum öllu heldur til ónota. Höfðingjafundur var haldinn í París til þess að semja um frið; bjóst Cavour við, að þá mundi eitthvað til batnaðar breytast um hagi Ítalíu. Svo leið hver dagurinn eptir annan; aldrei kom ítalska málið á dagskrá. Að lokum, þegar búið var að gera um friðinn, fjekk hann áheyrn hjá fundinum og flutti þar erindi sitt. Englendingar og Frakkar voru honum sinnandi. Meiru fjekk hann ekki til vegar komið. En þó var miklu áleiðis snúið. Þegar hann kom heim til Turin, skýrði hann þinginu þannig frá árangrinum af herförinni; »Það, sem vjer höfum fengið áorkað fyrir hönd Ítalíu, er raunar meira í orði en á borði. En þó er tvennt unnið. Fyrst er það, að nú hefir öllum vandræðum Ítalíu verið nákvæmlega lýst fyrir Európu; hafa það ekki gert þjóðmálaskúmar, frekir byltingamenn, eða ákafir blaðamenn, heldur fulltrúar hinna voldugustu ríkja í Európu, stjórnvitringar, sem stýra hinum mestu þjóðum, ágætismenn, sem sjer hafa tamið að fara miklu meira að ráðum skynseminnar en tilfinninganna. Það annað, að ríki þessi hafa lýst yfir því, að brýna nauðsyn beri til, að vandræðum Ítalíu ljetti, og

það ekki fyrir sakir Ítalíu einnar, heldur allrar Európu. Jeg er þess fullöruggur, þegar önnur eins ríki og England og Frakkland gefa slíkar ráðleggingar, að þá muni þess eigi langt að bíða, að einhver árangur verði af þeim».

Þingmenn stóðu upp úr sætum sínum til að samsinna þessum ummælum, og samþykktu í einu hljóði, að tjá stjórninni þakkir fyrir frammistöðu hennar í máli þessu. Nú var svo komið, að allur þorri manna skildi, hvort Cavour stefndi, og fylgdu honum því ótrauðir, þótt ekki hefði ríkið aukizt fyrir herförina um svo mikið sem einn kotbæ.

---

## Sígur að sennu.

Upp frá þessu var Cavour leiðtogi alls frelsisflokksins á Ítalíu. Fjöldi manna, er allt til þessa höfðu fylgt Mazzini, og eigi um annað hugsað en samsæri og leynifjelög, gerðust honum nú fráhverfir, og gengu undir merki Cavours. Þessir svæsnu lýðveldismenn gengu nú í fjelag með eindregnum konungssinnum. Má af því marka, hversu vel Cavour hafði tekizt að sameina »alla lifandi krapta Ítalíu», til þess að vinna að einu og sama marki og miði. Einn af hinum svæsnu frelsisforkólfum, *Farina* að nafni, hafði þegar áður komið leynilega á fund Cavours. Hafði Cavour enn sem komið var ekki gert það uppskátt, að Ítalía skyldi eitt ríki verða, heldur einungis að Austurríkismenn skyldu á burtu reknir og smádrottnar þeir allir, er þeim lutu. En við *Farina* sagði hann: »Jeg ætla, að Ítalía muni eitt ríki verða, og Róm höfuðborg

þess; en mjer er ókunnugt um hina aðra landshluta Ítalíu, og veit ekki hvort menn eru þar við þessu stórræði búnir. En gætið vel að því, að enginn af mínum pólitisku vinum heldur, að slíkt megi verða. Þið megið ekki láta hið minnsta á því bera, er okkur fer á milli; það mundi verða mjer til hins mesta tjóns, og málefni því er við berjumst fyrir. Komið til mín svo opt sem yður sýnist, en á náttarþeli; enginn má sjá það, og enginn af því vita. Ef erindrekar hinna annara ríkja spyrja mig, eða ef það verður gert á þinginu, þá afneita jeg ykkur, eins og Pjetur afneitaði Kristi, og segi: Jeg þekki yður ekki».

Eptir þetta kom Farina á fund Cavours nálega á hverri nóttu í 4 ár samfleytt, án þess að nánustu vinir hans vissu hið minnsta af. Af þessu má ráða, hversu vandfarið Cavour var, og staða hans óhæg. Hann ráðgaðist um við leiðtoga byltingamannanna, en taldi jafnframt stjórnarmönnum Európu trú um, að á byltingum öllum hefði hann hina mestu óbeit. Hann áleit það hina mestu ófæru, að ætla sjer að reka Austurríkismenn burt af Ítalíu án liðveizlu Frakka; því samdi hann við Napóleon keisara um að miðla af landi við hann tveimur fylkjum af ríki Sardiníukonungs. En örðugast varð honum þó að eiga við þingið, það er að segja: að fá veitt afarmikið fje ár eptir ár. En þótt Cavour væri jafnan í vanda staddur, og yrði að gæta sín jafnt fyrir hættulegum vinum og leynilegum fjandmönnum, óstýrilátum byltingamönnum og heiptúðugum og innviða svörtum klerkalýð, þá ljet hann þó aldrei hugfallast.

Cavour ætlaði Napóleoni keisara III. svo mikið hlutverk í frelsisstríði Ítala, að hann varð að kosta alls kapps um að laða hann að sjer, og að bægja öllu því frá, er gert gæti keisarann fráhverfan Ítölum. Þá varð það, í janúarmánuði 1858, að keisara var veitt banatilræði; var sprengikúlum varpað að vagni hans; særðust 150 manna af þeim, er nærstaddir voru, en keisarann sakaði alls ekki, og þótti furðu gegna. Frumhlaupi þessu stýrði *Orsini*, ítalskur maður. »Þarna eru afleiðingarnar af ráðabreytni Cavours», æptu apturhaldsmennirnir; í hinn sama streng tóku og vildarmenn keisarans, er litlir voru vinir Ítalíu. Mátti Cavour búast við, að tilræði þetta mundi hið versta af sjer leiða um hans mál. En fjandmönnum Ítalíu varð ekki kápan úr því klæðinu; það fór allt á annan veg, og bar til þess drenglyndi Orsinis, er ljóst varð, meðan hann sat í fangelsi, og hugrekki hans, er hann var til höggs leiddur. Honum hafði farið, sem svo mörgum Ítölum öðrum, er hörmungar Ítalíu höfðu til launvíganna leitt. Hann hafði ímyndað sjer, að þegar er keisarinn væri frá, þá mundu Frakkar lýðveldi stofna og rjúka á stað til þess að veita Ítölum lið. Því hafði hann í óhæfu þessa ráðizt. Á meðan hann sat í fangelsi, ritaði hann Napóleoni keisara brjef og sendi honum; af því brjefi varð það ljóst, að tilræðið var ekki af vígahug stofnað, heldur því, að hann hafði ætlað, að það mundi ættjörðu sinni að gagni verða. Hann særir keisarann um að veita Ítölum fulltingi sitt til frelsis, biður hann að minnsta kosti að gerast ekki andvígur þeim. »Gleymið því ekki», segir

hann að lokum, »að hvorki þjer nje Európa megið um frjálst höfuð strjúka, fyr en Ítalía er frjáls orðin».

Brjef þetta ljet Napóleon prenta í stjórnarblaði sínu. Það þótti undrum sæta. En því ljet hann það gera, að hann hafði í raun og veru komizt við. Honum var kunnugt, að á Ítalíu var fjöldi frelsismanna, þeirra er ekki mundu þess svífast, að fara að dæmi Orsinis; hann minntist þess, að hann á yngri árum sínum hafði tekið þátt í frelsishreyfingum Ítala og verið í leynifjelögum þeirra; hann gerði sjer von um að auka veldi sitt og ættmanna sinna, og svo munu honum einnig hafa til rifja runnið raunir Ítala. Það er því naumast efamál, að tilræði Orsinis hefir fremur hvatt en latt Napóleon til þess að framkvæma það, er hann hafði af ráðið um liðveizlu við Ítali.

Sumarið 1858 fundust þeir Cavour og Napóleon keisari í bæ einum litlum og afskekktum á Frakklandi sunnanverðu. Fór þetta svo dult, að enginn af mönnum keisarans vissi hið minnsta af, ekki einu sinni sá af ráðgjöfum hans, er með utanríkismálefni fór. Koma þeir sjer þar saman um, að reka skyldi Austurríkismenn burt af Ítalíu, en norðurhluti Ítalíu skyldi verða eitt konungsríki; að öðru leyti skyldu Ítalir sjálfir skipa um hagi sína. Sardinía skyldi láta fylkin Savoyen og Nizza af hendi við Frakkakeisara. Það var tilætlun Napóleons, þó eigi gerði hann það uppskátt við Cavour, að upp úr því, sem þá væri eptir af landinu (Ítalíu), skyldi skapa tvö ný ríki, og setja þar höfðingja yfir tvo af sínum ættmönnum. Skyldi

öll Italía vera eitt ríkjasamband og páfinn forseti þess — að nafninu til; sjálfur ætlaði keisarinn sjer að hafa tögl og hagldir. Bandamaður Cavours var þannig viðsjárverður; þó að Cavour vissi ekki út í æsar um fyriræltanir hans, þá var honum það samt fyllilega ljóst, að keisari mundi þess fús, að veita honum að því að reka Austurríkismenn burtu, en alls ekki að því að gera Ítalíu alla að einu ríki. Reyndi hann á allar lundir að efla Ítalíu sem mest til þess að geta einnig spornað við ráðum Napóleons. Farina og hann voru mestu mátar, og því gat Cavour ráðið aðförum byltingamanna. Farina kom einnig þeim Cavour og Garibaldi saman. Veturinn 1858 var það einn morgun, að Cavour var sagt, að maður nokkur, kynlegur útlits, með staf mikinn í hendi, væri fyrir dyrum úti, og vildi við hann mæla; ekki vildi komumaður segja til nafns síns; Cavour ljet hann leyfa honum inngöngu. Þetta var Garibaldi. Sat Cavour lengi á tali við hann. Í þetta sinn gat Cavour sannfært Garibaldi um, að ekki væri til neins að byrja á smá-uppreistum hingað og þangað. Cavour vildi ekki, að sjálfboðar þeir, er þúsundum saman hlypu undir merki hinnar þjóðfrægu hetju, skyldi láta lífið í vanhugsuðum uppreistartilraunum; þótti honum ráði nær, að þeir skipuðu fylkingu sjer og berðist með her Sardiníukonungs, þegar frelsistríðið yrði hafið. Garibaldi var hinn eptirlátasti við Cavour, og lofaði honum öllu fögru. Ættjarðarástin mátti sín nú meira hjá hinum gamla lausaliða-foringja en tortryggni hans við konunga og stjórnvitringa. Til Farina skrifaði hann: »Með grát-

andi tárum vil jeg kyssa á hönd þeim, sem hefir oss upp úr læginguuni».

---

## Ófriðurinn.

Á nýársdag 1859 gengu sendiherrar útlendra þjóða fyrir Napóleon keisara og fluttu honum heillaóskir. Þá vjek hann sjer að sendiherranum frá Austurríki, brýndi raustina og mælti til hans allreiðulega: »Því er verr og miður, að svo er fátt okkar í milli; segið samt herra yðar, að jeg hafi sama þel til hans persónulega, eins og að undanförnu». Það er haft fyrir satt, að ekki kæmu orð þessi eins flatt upp á nokkra stjórn í heimi og stjórnina í Austurríki.

Þessi orð hljóta að hafa ómað í eyrum Cavours sem hinn sætasti unaðshljómur. Hann hafði nú í 8 ár lagt Sardiningum hinar þyngstu byrðar á herðar, í von um, að það mundi Ítalíu að haldi koma. Honum var þá kærast, að ófriðurinn byrjaði sem fyrst. Nú var auðsætt, að Napóleon vildi láta skríða til skarar. Það liðu samt nærri því 4 mánuðir frá nýári til þess er ófriðurinn hófst. Á því tímabili lá opt við sjálft, að allt ráðabrugg Cavours yrði að engu. Það var einkum stjórnin á Englandi, sem mest amstraðist í því að koma á höfðingjafundi til þess að tryggja friðinn. Það var ekki hugsandi, að slíkur fundur mundi fá meiru afrekað en því, að gefa Austurríki nokkrar áminningar; allt hefði setið við sama og áður. Ítalir voru orðnir svo hrifnir, að líkast var sem hulinn eldur væri, og varð Cavour að gæta þess,

að hvorki gysi hann upp í ljósum loga nje slokknaði út af. Menn hlupu þúsundum saman, ótilkvaddir, undir merki Sardininga. Var þrem þúsundum þeirra skipað í herdeild sjer, »Alpaskytturnar»; var Garibaldi fengin í hendur forusta þeirra, og gerði Viktor Emanúel hann að allsherjarfyrirliða (»general»). Við það styggðist Napóleon, er svo var berlega samband gert við byltingaseggina, og veitti þá heldur áheyrn friðarfortölum vildarmanna sinna og stórveldanna. Það var komið fram í aprílmánuð. Englendingar stungu upp á, að vopn skyldu niður lögð og *friðarfundur* haldinn. Cavour treysti því, að Austurríki mundi neita því að leggja niður vopnin, og yrði þá ekkert úr friðarfundinum. Þá kom honum allt í einu það hraðboð frá Napóleon, að Sardiningar skyldu tafarlaust samþykkja fundarhaldið, og senda heim aptur »lausaliðasveitirnar». Cavour varð við þetta sem þrumu lostinn, og mælti: »Nú er mjer sá einn kostur, að skjóta mig». Hann læsti sig inni í sólarhring, rótaði í skjölum sínum og brenndi fjölda þeirra. Loks brauzt einn af nánustu vinum hans inn til hans. Þá mælti Cavour: »Jeg hef nú í 8 ár þjakað þessari göfuglyndu þjóð með svo hörðum álögum, að mjer hefir sjálfum nærri því ofboðið, í þeirri von, að það yrði Ítalíu til lausnar. En nú erum vjer takmarkinu sýnu fjær en í upphafi; við þessi málalok get jeg ekki lifað». Vinur hans svaraði: »Fyrir alla muni, láttu ekki hugfallast. Vjer skulum heldur berjast af eigin rammleik, og þó að á sömu leið fari og við Novara fyrir nokkrum árum, þá tökum vjer

aptur til óspilltra málanna. Með þeim hætti fá Ítalir traust á oss». Á svipstundu snerist Cavour hugur; skyldi heldur til stáls sverfa, þó engin væri von um sigur, en hætta við svo búið.

En Austurríki varð til þess, að hjálpa Ítalíu úr þessum kröggum. Það neitaði því þverlega að leggja niður vopnin, og sendi stjórninni í Túrin »sitt síðasta orð» (ultimatum): »Gjörið annaðhvort, að leggja niður vopnin áður en 3 dagar eru liðnir, ella þolið hernað af oss». Þegar svo var gífurlega að farið, ljet Napóleon ekki lengur letja sig, en sendi hersveitir sínar áleiðis suður til Sardiníu. Þingið í Túrin veitti Viktor Emanúel einræðisvald, meðan styrjöldin stæði yfir. Þegar Cavour gekk út úr þinghúsinu, sagði hann við einn vina sinna: »Nú er lokið ríkisþingi Sardininga; næsta þing verður ríkisþing fyrir konungsríkið Ítalíu».

*Ófriðurinn var hafinn.* Það var öldungis jafnsnemma — hinn 29. dag aprílmánaðar — að 10,000 Austurríkismenn rjeðust inn yfir landamæri Sardiníu, og að fylkingabroddar Frakka komu til Genúa og Turin. Herstjórn Austurríkismanna var ekki nógu örugg og hvatleg, og var þeim því við falli búið. Nærri borginni Magenta biðu þeir ósigur, og ráku Frakkar og Sardiningar þá alla leið burt af Langbarðalandi. Var bandamönnum þar tveim höndum tekið. Austurríkismenn efldust að nýju að liði, og hugðu að vinna aptur það er þeir höfðu látið. Hinn 24. júnímánaðar varð orusta nálægt bænum Solferino, mikil og mannskæð; unnu bandamenn þar mikinn sigur. Nú voru að eins Feneyjalönd eptir óunnin; bjóst her Frakka og Ítala til

þess að ráðast á kastala þá hina miklu, sem þar eru til varnar að vestanverðu, en floti þeirra skyldi að leggja sjávarmegin. Ítalir rjeðu sjer ekki fyrir fagnaðar sakir. Napóleon hafði svo sagt: »Til þess skal barizt, að Ítalía verði frjáls austur að Adríahafi». Hver gat nú um sigurinn efast eða sigurlaunin?

En þá snerist Napóleoni hugur allt í einu. Í þorpi einu litlu, Villafranca, fundust þeir, hann og Austurríkiskeisari; gerðu þeir þar vopnahlje og komu sjer saman um friðarskilmála. Austurríki skyldi láta Langbarðaland af hendi við Napóleon, en hann aptur fá það Viktor Emanúel. Þegar her Austurríkismanna varð undan að hörfa, höfðu smádrottnarnir á Mið-Ítalíu stokkið á burt frá ríkjum sínum; þeir skyldu aptur fá lönd sín.

En hvað bar til þess, að Napólen breytti svo skyndilega ráði sínu?

Það fyrst og fremst, að Prússar stóðu vígbúnir og ætluðu að ráðast á Frakkland; í fyrstunni var þeim það reyndar mesta gleðiefni, að horfa á ófarir þær, er keppinautur þeirra í Vínarborg fór; en bráðlega fjekk hin gamla tortryggð Þjóðverja og hatur þeirra á Frökkum yfirhönd; en að halda úti í einu tveim herum svo miklum, sem við þurfti, öðrum á Ítalíu, en hinum við Rín, það sá Napóleon sjer ekki fært. Í annan stað hafði það fengið honum mikils, er hann litaðist um á vígvellinum við Solferino, þegar orustunni ljetti. Honum gat ekki völlur þessi úr minni liðið, þar sem þrjátíu þúsundir dauðra manna búka og lemstraðra lágu

í val fallnir. Gerði sú voðasjón hann einnig fúsari til friðar.

Cavour brá heldur en ekki í brún við þessa fregn. Allar hans miklu vonir urðu nú að engu. Það var ekki um annað að gera fyrir hann en að segja af sjer. Hann gat ekki hamlað friðargerðinni, en vildi með engu móti rita nafn sitt undir samningana. Hann veik því úr sessi, og fór burtu úr höfuðborginni.

Allur þorri manna á Ítalíu tók friðarfregninni engu betur en Cavour hafði gert. Þótti þeim það nú rætast, sem Mazzini hafði áður sagt, að herferðir þjóðhöfðingja væri leikur einn; þeir væru ánægðir, þegar er þeir hefðu náð undir sig eða ætt sína landskika nokkrum, en ljetu sig engu skipta um hörmungar Ítalíu. Þegar Napóleon kom til Ítalíu, var honum tekið með frábærum fögnuði, dýrð og vegsemd, en nú voru Ítalir honum stórreiðir, og báðu honum bölbæna.

Drengskapur hinnar ítölsku þjóðar varð því til fyrirstöðu, að það næði fram að ganga, er keisararnir höfðu af ráðið um hagi Ítalíu; þeir höfðu ætlað sjer að stöðva frelsisölduna, en það varð einungis til þess að greiða götu hennar. Það leið ekki á löngu, áður en Cavour settist aptur í sæti það, er hann einn var fær um að skipa, svo vel væri.

---

## Mið-Italía losnar.

Svo var ákveðið í friðnum í Villafranca, að höfðingjar þeir, er reknir hefðu verið frá ríkjum,

skyldu fá aptur lönd sín. Það voru Toscana og nokkur önnur fylki, sem nú voru drottinlaus, því höfðingjar þar höfðu flúið með liði Austurríkismanna. Íbúar landa þessara höfðu sjálfir skipað sjer stjórn til bráðabirgða, en vildu ólmir sameinast ríki Viktors konungs Emanúels. Nú átti að ofurselja þá aptur höfðingjum þeirra, er þeir hötuðust við. En það varð enginn til að veita höfðingjum þessum liðskost. Napóleon gat hvorki nje vildi breyta svo freklega ráði sínu, að hann neytti herafla síns til þessa; Austurríkismenn fengu því ekki við komið, hvað fegnir sem þeir vildu, því Napóleon hjelt her sínum enn um hríð á Langbarðalandi. Meiri vandkvæði urðu á um Romagna; fylki þetta hafði einnig gert uppreist, en það var einn hluti af Kirkjuríkinu og eign páfa að lögum. Um þetta var Napóleoni óhægt. Heima á Frakklandi var hann mjög svo háður klerkaflokknum, sem rjeð öllu við drottningu hans, Eugeníu; var hætt við, að hinn afarvoldugi klerkaflokkur mundi virða honum það til fulls fjandskapar, ef hann leyfði að Romagna yrði tekin frá páfa. En á hinn bóginn vildi Viktor Emanúel ekki láta fylki þetta ganga úr greipum sjer. Í engum hluta Ítalíu höfðu stjórnendur leikið þegna sína svo grátt sem páfastjórn hafði gert; var svo að orði kveðið, að páfaveldið »kjökrandi sýndi Európu aðra hönd sína, sjúka, máttvana og ellihruma, en hinni hendinni hýddi það þegna sína með járnvendi». Þau af stórveldunum, sem ekki eru kaþólskrar trúar, hjeldu taum Viktors Emanúels, og vildu ekki að Romagna væri seld aptur í hendur páfa. Napóle-

on varð nú að kveða upp úr. Hann ljet á sjer skilja, að páfinn gæti vel sleppt nokkru af hinu veraldlega veldi sínu; »því minna sem Kirkjuríkið er, því meiri er páfinn», sagði hann.

Cavour var aptur orðinn ráðaneytisforseti Sardiníukonungs, og hljóp hann þegar á lagið. Hann ljet ganga til allsherjar-atkvæða í fylkjum þessum öllum, og var sameining við Sardiníuríki samþykkt í einu hljóði, að heita mátti. Napóleon hafði sjálfur byggt á rjetti almennra atkvæða; það var allsherjarkosning, sem hafði gert hann að keisara á Frakklandi; honum var því ekki annað hægt en að fallast á það, sem nú fór fram á Ítalíu.

En það varð líka að leggja nokkuð í sölurnar. Svo hafði verið um samið, að Sardiníukonungur skyldi fá bæði Langbarðaland og Feneyjar, en Frakkar aptur Savoyen og Nizza; nú er ekki varð af hinu fyrra, þá var sá kaupmáli úr gildi genginn. En er Viktor Emanúel hafði eignast lönd miklu meiri en áskilið var, þá var aptur hafizt máls á þessu. Fylkin í Mið-Ítalíu höfðu fyrir almenna atkvæðagreiðslu gengið undir Sardiníukonung. Í Savoyen var frakkneska töluð, og að nokkru leyti líka í Nizza. Hvað var þá sennilegra en að spyrja einnig þessi fylki, hvoru ríkinu þau helzt vildu fylgja? Það var gert, og kusu menn með miklum atkvæðafjölda, að heyra undir Frakkland. Á þinginu varði Cavour gjörðir sínar í ræðu einni, sem, ef til vill, bezt af ræðum hans lýsir því, hve lagið honum var að sannfæra menn. Hann sýndi fram á, að þjóðernisrjettindum væri ekki með þessu haggað; þvert á móti, eptir þeim hefði einmitt

farið verið. Hann leiddi rök að því, að stjórnin hefði ekki lógað löndum þessum af eigin geðþótta, heldur væri það óumflýjanleg afleiðing af því, er gjörzt hefði, og allt hafði orðið fyrir sambandið við Frakka. Hann bað menn gæta þess, að hversu voldugur sem Napóleon væri, þá væri þó allt veldi grundvallað á þjóðvilja Frakka, og nú heimtaði þjóðvilji þeirra fylki þessi, af því að þau væru frakknesk. Þingið sýndi, að það var stöðu sinni vaxið, og samþykkti með miklum atkvæðafjölda, að láta af hendi Savoyen og Nizza. Af þessu urðu nokkrir menn stækustu óvinir Cavours. Einn þeirra var Garibaldi, uppáhaldsgoð þjóðarinnar; hann var fæddur í Nizza, og gramdist það mjög, að fæðingarborg hans skyldi undan Ítalíu ganga.

---

## Suður-Italía losnar.

Í Neapel sat ættleggur Bourbona að völdum; þeir voru hinir mestu harðstjórar og lævísir mjög. Höfðu konungar þar lengi verið fljótir til að lofa þegnum sínum frelsi, þegar þeir voru til þess neyddir, en enn þá fljótari voru þeir þó til þess að rjúfa aptur heit sín undir eins og gafst færi á. Þar höfðu margir ágætir menn og göfugir orðið að sitja í dýflissum, jafnvel þúsundum saman, og það við svo illa húsavist, að ekki mundi bjóðandi þykja nokkurri skepnu; stundum var einhver ágætismaðurinn tekinn og hlekkjaður saman við hroðalegasta glæpamann af úrþvætti skrílsins. Suður-Ítalir eru manna ljettúðugastir, og láta hverjum degi nægja sína þjáning; en þó voru þeir orðnir fullir haturs

og gremju við harðstjórana. Hjer mátti finna þess ljósust dæmi, hversu þrautir og torsótt barátta fyrir góðu málefni geta göfgað hugarfar manna. Maður er nefndur Poerio, borinn og barnfæddur í Neapel; hann hafði orðið ráðgjafi þar um hríð árið 1848, því þá neyddist konungur til þess að gefa þegnum sínum frjálsa stjórnarskipun; árið eptir varð annað ofan á; Poerio varð fyrir ofsóknum stjórnar þeirrar, er þá sat að völdum, og var dæmdur í þrældóm á galeiðum; þar varð hann að vera árum saman, hlekkjaður saman við mannskræfu eina, er líkari var dýri en manni. Loksins var hann þó, ásamt öðrum stjórnmála-»glæpamönnum», fluttur í fangelsi, er nokkurn veginn var viðunandi. Í byrjun árs 1859 tók stjórnin það ráð, að flytja menn þessa af landi burt til Ameríku. Í hegningarlögum Neapelsmanna var útlegð ekki nefnd; þess vegna var það, að allir hinir dæmdu menn mótmæltu þessari aðferð, er þeir voru komnir út á Atlanzhaf, og hótuðu skipstjóra að draga hann fyrir lög og dóm, þegar til Ameríku kæmi; kröfðust þeir, að hann færi með þá til Englands. Skipstjóri varð hræddur, og gerði sem þeir kröfðust. Þegar þeir voru komnir undir vernd Englandsstjórnar, var þeim óhætt. Poerio fór þegar suður til Sardiníu og á fund Cavours. Hann hafði jafnan kennt í brjósti um píslarvott þennan, er svo lítið barst á, en eptir það að hann hafði við hann rætt, fjekk hann mestu virðingu fyrir honum. »Jeg hafði búizt við», sagði Cavour, »að hitta heiðursmann; en að hitta mann, er verið hefir 10 ár í þrældómi á galeiðum, og ekki talar nokkurt

orð um sjálfan sig, og ekki lætur í ljósi minnsta vott um reiði gegn þeim, sem hann hafa ofsótt, við því hafði jeg ekki búizt, og er forviða á því». Þjóð, sem gat aðra eins sonu og Poerio, átti skilið að fá frelsi. Frelsishreyfingin komst ekki svo langt suður eptir 1859, en árið eptir komst hún þangað.

Víðsvegar um Sikiley hafði uppreist verið hafin og staðið í nokkra mánuði; var her konungs vel á veg kominn með að bæla hana niður. En í maímánuði 1860 gekk Garibaldi þar á land og með honum 1000 sjálfboðaliðar. Urðu Sikileyingar komu hans fegnari en frá megi segja, og risu aptur öndverðir gegn konungsmönnum; óx þeim ásmegin, er Garibaldi var til þeirra kominn, svo að ekki stóðst við þeim. Mánuði síðar höfðu þeir rekið her konungs af eynni. Eyjabúar voru svo þakklátir Garibaldi og dáðust svo að honum, að þeir vissu ekki hvaða látum þeir áttu að láta, og verður öllum þeim fögnuði ekki lýst. Þegar hann gekk um stræti Palermóborgar, fleygðu sjúkir menn sjer fyrir fætur honum, til þess að hann læknaði þá, eins og nýr Messías, með því að snerta þá. Frá Sikiley hjelt Garibaldi til Neapel; níu tíundu hlutar landsins gengu honum á hönd orustulaust að heita mátti; hann hjelt innreið sína í höfuðborgina Neapel, sem öll kvað við af fagnaðarópi lýðsins.

En hvað sagði Cavour um allt þetta?

Upp hátt ljezt hann vera öldungis hissa, eins og öll Európa var; en í raun og veru átti Garibaldi engan jafntraustan bandamann sem hann.

þetta vissu Ítalir vel. Hvernig hefðu sjálfboðarnir annars getað »stolið» 48 fallbyssum, með öllum búnaði, úr hertygjabúrinu í Genúa, eins og altalað var? En ekki ljet Cavour neitt til sín taka um liðveizlu við Garibaldi, svo á bæri, fyr en Neapelskonungur loksins bjóst til að verja kappsamlega þann litla landskika, sem honum var enn eptir skilinn. Þá sendi hann her suður á land. Var þá Kirkjuríkinu ekki lengur hlíft. Austurfylki þess voru tekin á nokkrum dögum. Einungis fylkið Róm, arfleifð Pjeturs postula, ljet Cavour ósnert. Hjelt nú herinn áfram suður í Neapel. Með því að skerast þannig í leikinn, hafði Cavour tvennt áunnið; það fyrst, að bæta tveim landshlutum við ríki Viktors Emanúels; það annað, að hafa her þar syðra til varnar páfa og Rómaborg fyrir Garibaldi. Því það var áform þessarar óstýrilátu frelsishetju, að ráðast þá þegar á Rómaborg, er Neapelsland væri unnið. En Cavour vildi umfram allt, að það yrði ekki, því í Rómaborg var franskt setulið, og hefði það verið að ganga í beran fjandskap við Napóleon, ef ráð Garibaldi hefðu náð fram að ganga; mundi þá og Austurríki hafa sætt lagi, og kollvarpað öllu því, er afrekað var. Garibaldi vann sigur mikinn á liði Neapelskonungs við Capúa; hafði Garibaldi 20,000 sjálfboðaliða, en her konungs var 40,000 manna; varð þar hörð orusta og löng; þegar orustan stóð sem hæst, komu þar að herdeildir tvær af liði Viktors Emanúels og gengu þegar í lið með Garibaldi. Var nú hvorutveggja herinn kominn saman á einn stað.

Þó að Garibaldi væri, eins og öllum er kunn-

ugt, lýðveldismaður, hafði það þó jafnan verið ætlun hans, að landshlutar þeir, er síðast voru unnir, skyldu sameinast konungsríki Viktors Emanúels. En hann vildi láta konung taka við þeim að gjöf frá suðurhernum; vildi hann ekki, að almenn atkvæðagreiðsla færi þar fram; með þeim hætti fjekk sameiningin allan annan blæ. Honum gleymdist í þetta sinn að gæta þess, hver var vilji þjóðarinnar, en hann var eindreginn sá, að ganga þá þegar til allsherjaratkvæða. Fundu menn fljótt ráð til þess að lýsa yfir þessum vilja sínum. Einn morgun leit svo út, sem snjóað hefði um nóttina í Neapel eintómu orðinu *»já»;* hurðir, gluggar, hús, menn—allt var þakið með þessu einu litla orði. Þá ljet Garibaldi undan svo einbeittum vilja, og leyfði, að til atkvæða væri gengið. Var Viktor Emanúel til konungs kosinn nær í einu hljóði.

Þannig var þá Ítalía orðin eitt ríki. Um endilanga Ítalíu, norðan frá Alpafjöllum suður á syðstu skagatá á Sikiley, gengu nú ein lög yfir og eitt þjóðarmerki. Enn vantaði að vísu Róm og Feneyjar; en einingin var fengin; það sem vantaði, gat hæglega fengist, þegar vel stæði á; og það fjekkst, þó að Covour auðnaðist ekki að lifa það. —Metnaður sá og öfund, er lengi hafði verið milli Prússa og Austurríkismanna, ágerðist svo, að ófriður varð úr, 1866. Ítalía sætti þessu lagi, og gerði samband við Prússa. Reyndar biðu Ítalir ósigur bæði á sjó og landi, en þó fengu þeir það, sem þeir höfðu til ætlazt. Austurríkismenn fóru svo miklar ófarir fyrir Prússum við Königgrätz, að þeir urðu fegnir að láta af hendi fylkið og

borgina Feneyjar, til þess að kaupa á sig frið að sunnanverðu. Eptir að almenn atkvæðsgreiðsla var um garð gengin, voru Feneyjar sameinaðar við konungsríki Viktors Emanúels.

Nú var Rómaborg ein eptir. Ítalíu vantaði allt af nokkuð, meðan fáni hennar blakti ekki yfir í »hinni eilífu borg». Engin borg önnur gat orðið höfuðstaður hins nýja konungsríkis; aðrar stórborgir Ítalíu mundu engri lúta, nema Rómaborg einni. En þar höfðu Frakkar setulið. Napóleon III. mátti ekki svipta páfann þessari vernd; þá hefði hinn voldugi klerkaflokkur á Frakklandi orðið óður og uppvægur. Eptir ófarirnar fyrir Þjóðverjum í ágústmánuði 1870, neyddist Frakkastjórn til þess að kveðja setulið sitt heim frá Rómaborg. Biðu Ítalir þá ekki boðanna, en hjeldu þegar með her manns inn yfir landamæri Kirkjuríkis, og til Rómaborgar. Hermenn þeir, er á mála höfðu gengið hjá páfa, vörðust að eins fáar stundir, áður en þeir yrðu undan að hörfa. Stræti það, er hermenn Ítalíu fóru um inn í Rómaborg, hefir nafn fengið af atburði þessum, og heitir »tuttugasta-septembers-gata». Rómaborg er orðin höfuðstaður ríkisins. Eining Ítalíu var algjör. Sú von, sem öldum saman hafði lifað í brjósti hinna beztu manna á Ítalíu, hafði nú ræzt.

---

## Andlát Cavours.

Þegar búið var, 1860, að leggja Neapel við hið nýja ríki, var stefnt til allsherjarþings fyrir »konungsríkið Ítalíu». Átti Cavour þá mikinn starfa

fyrir höndum. Fyrst og fremst var það, að fá lýðinn, í öllum hlutum landsins, gjörðan að einni þjóð; það var enginn hægðarleikur, þar sem allt hafði verið á sundrungu í þúsund ár; þeir voru og nokkrir, er af alefli spyrntu móti einingunni; var klerkaflokkurinn þar langfremstur í röð. Alþýða öll var ramm-kaþólsk, og full hjátrúar. Að sönnu var hún hlynnt einingunni; en þó mat hún páfann enn meira, því hann hafði lykla himnaríkis í höndum sjer. En nú bar brýna nauðsyn til fyrir Ítalíu, að ná Rómaborg, því að sú borg hafði í meira en tvö þúsund ár verið samvaxin einingu, frægð og veldi þjóðarinnar. Þessu þurfti að fá til vegar komið; það þurfti að telja þeim hughvarf, sem þessu voru andstæðir eða æðruðust. Mátti Cavour taka á allri sinni miklu snilld, ef þetta skyldi takast.

En hann var nú búinn að slíta sjer út. Það hafði legið svo mikið erfiði honum á herðum, að það gegnir hinni mestu furðu, að hann fjekk undir því risið; en það gat hann því að eins, að hann var heilsugóður, og síkátur og glaður. Vinir hans, þeir er honum voru handgengnastir, kunna margar sögur um glaðlyndi hans. Um hríð gegndi hann 4 ráðherraembættum í senn; ef nokkurt hlje varð á önnum hans, var það opt, að hann hljóp og hoppaði um herbergið, eins og krakki, sem fengið hefir leyfi; stundum hljóp hann þá inn í næsta herbergi til skrifara síns, og leysti þar þá algjörlega frá skjóðunni með fyndni og meinlegum orðum gegn mótstöðumönnum sínum; hann hermdi eptir þeim kæki þeirra, mjög skringilega. Það var

rjett eins og hann með þessu væri að hefna sín á þessum mönnum fyrir þær mörgu leiðindastundir, sem hann hafði orðið að sitja og hlýða á hinar löngu þingræður þeirra. Það var hinn sami maður, er gaf að líta á þingi. Þótt hann væri lítill vexti, breiðleitur og ekki fríður, þá voru andlegir yfirburðir hans svo miklir, að tilheyrendum virtist hann vera þar sem risi meðal dverga.

Nú var þessi dæmafái vinnuþróttur þrotinn. Eptir þingfund einn langan og erfiðan, komst hann nauðulega heim til sín, sjúkur og máttfarinn. Skömmu síðar andaðist hann, 6. dag júnímánaðar 1861. Á banasænginni talaði hann um hið mikla verk, sem þegar var unnið, og um það, sem eptir var óunnið. Hann var áhyggjufullur um sundrungu þá, sem enn var á þjóðinni: »Norður-Ítalir eru búnir; þar eru engir Langbarðar eða Toscanar framar til, vjer erum allir Ítalir; en Neapelsmenn eru til enn þá. Það er margt seyrið enn þá í Neapel; það er ekki þeim að kenna; aumingjarnir, þeim var svo illa stjórnað. Engar hervörzlur! engar einveldis-aðfarir! Með hervörzlum getur hver klaufinn stjórnað. Jeg vil að þeim sje frjálslega stjórnað, og þá mun Neapel að 20 árum liðnum verða orðið hinn auðugasti hluti Italíu». Að lokum hugsaði hann um ástand kirkjunnar; þau síðustu orð, sem hann talaði, voru þessi: »frjáls kirkja í frjálsu ríki»; og eru þau næsta þýðingarmikil.

Hann varð allri þjóðinni mjög harmdauði. Smiðurinn hvarf óðara en hann hafði smíðinni lokið. Hver gat fyllt sæti hans? Hver gat haldið áfram starfi hans í sama anda og með sömu snilld?

Liðin eru nú 28 ár frá andláti Cavours, en ekki hefir Ítalía enn eignast stjórnvitring honum jafn snjallan, og Európa tæpast heldur.

Cavour hefir ekki *búið til* þjóðernishreyfingu Ítala; það hafa undanfarnar aldir gert; en hann hefir *stýrt henni til sigurs.* Áður en hann kom til sögunnar, var hreyfingin mjög á stangli og þróttlaus; hver tortrygði annan; Cavour dró alla saman í eitt, frá hinum römmustu apturhalds- og aðalsmönnum til lýðveldismanna og lausaliðaforingja. Áður eyddu Ítalir afla sínum til ónýtis móti ofurefli Austurríkismanna; Cavour útvegaði þeim öflugan bandamann, og bjó svo um, að sigurvinningar hans komu Ítölum að gagni, en brögð hans urðu þeim ekki að ógagni. Áður var Ítalía óvinsæl, og tortryggðu hana jafnvel frjálslyndar þjóðir í Európu. Við komu Cavours breyttist það svo, að jafnvel drottnar þjóðanna árnuðu henni heilla í frelsisbaráttunni. Áður var Ítalía einungis »nafn eitt í landaskipunarfræðinni». Þegar Cavour fjell frá, var hún orðin að voldugu ríki; hún var orðin sjötta stórveldið í Európu.

Braut hans lá um blóðuga vígvelli. En ef ófrið skal heyja á annað borð, þá er enginn málstaður mætari til þess, en að leysa kúgaðan lýð undan útlendri áþján. Blóðsúthellingarnar koma ekki yfir höfuð þeim manni, sem á vann Ítalíu frelsi, heldur þeim, sem hjeldu henni í versta þræidómi.

Verkfæri hans var *frelsið.* Cavour fylgdi jafnan frjálsum grundvallarlögum lands síns; aldrei fór hann gagnstætt því, sem þingið vildi. Þetta gerði hann ekki af því, að þess ráð væru jafnan bezt

ráðin, heldur vegna þess, að hann er sannfærður um, að frjáls stjórnarskipun væri hin bezta. »Jeg segi ykkur það satt», sagði hann einu sinni, »að ekki er svo ljeleg þingbundin stjórn til, að ekki sje betri en nokkur einvaldsstjórn».

Á dögum Cavours voru »þjóðfrelsismenn» fremstir um alla Európu, og hann aptur þeirra fremstur; það sem á þeim dögum þótti mest um vert, var þjóðernisrjettindi og frjálsleg stjórn með þingbundnu konungsveldi. Þjóðfrelsismenn hafa í sumum öðrum löndum fengið misjafnt orð, þótt vera hálfvolgir og sjerplægnir. Svo þótti þeim fara á Þýzkalandi. Þeir kröfðust frelsis fyrir sitt land, en vildu kúga þjóðirnar umhverfis; þeir vildu láta hina æðri borgarastjett njóta fullkomnunar og frelsis, en verkmannalýðurinn skyldi öðrum lögum háður. En Cavour var enginn hálfvelgjumaður; hann varði lífi sínu til þess, að afla Ítalíu sjálfsforræðis; vegna þess að Savoyen var í raun rjettri franskt fylki, leyfði hann því sjálfu að ráða örlögum sínum. Hann mat frelsi innanríkis svo mikils, að hann vildi ekki einu sinni neyta vopna einveldisins gegn hinum örgustu fjandmönnum sínum, en það var klerkaflokkurinn; til dauðadags brá hann aldrei út af því, er hann hafði sagt snemma: »Annaðhvort skal jeg fá skoðunum mínum framgengt, eða úr sessi víkja að öðrum kosti».

*(Ó. S. þýddi).*

# Dáleiðsla og svefngöngur.

Eptir

J. Christmas-Dirckinck-Holmfeld,

*lækni í Khöfn.*



I.

Inngangur. Menn svæfðir með því að láta þá stara á eitthvað gljáanda, með því að blása þeim því í brjóst, að þeir hljóti að sofna. Mismunandi stig móks eða dás. Áhrifin á taugakerfið. Furðulegur skarpleiki skilningarvitanna. Æðisbrigði.

---

Fyrir 2 árum kom út í Frakklandi saga eptir skáldsagnahöfundinn Jules Claretie. Í sögunni er sagt frá læknis-varmenni, sem kallaður er Jean Mornas, er lét svefndá falla á unga saklausa stúlku; með því móti fékk hann hana fullkomlega á sitt vald, og lét hann hana svo í leiðslu þeirri vinna ýms illvirki. Vesalings stúlkan var ósjálfrátt verkfæri læknisins, sem sjálfur var illræðismaðurinn; en þó lá við sjálft, að hún yrði

látin sæta hegningu fyrir glæpi þá, er hún hafði framið sér óafvitandi; en henni lagðist það til, áður en allt var orðið um seinan, að hið sanna komst fyrir á þann hátt, að annar læknir lét svefndá falla á hana enn á ný, og lét hana í þeirri leiðslu meðganga, hvernig Jean Mornas í fyrri leiðslunni hafði þröngvað henni til að gera allt það, er hann lagði fyrir, og kúgað hana til þess að segja aldrei frá því.

Það liggur við því að fari um mann, þegar maður les sögu þessa, sem annars er vel samin, og flestir munu þeir vera, er hafi þótt sagan miður sennileg, og jafnframt því að þeir fögnuðu því, að sagan »fór vel«, munu flestir hafa þótzt mega ganga að því vísu, að skáldið hafi látið ímyndunarafl sitt fara með sig helzt til mikil gönuskeið, þegar hann er að segja frá óhæfum þeim, er fá má »dáleidda« menn til að fremja. En í fyrsta tölublaði frakknesks tímarits, er heitir Revue de l'hypnotisme, er eingöngu gefur sig við »hypnotisme«: svefni eða móki eða dái af mannavöldum, og leiðslu, sem því fylgir, er skýrt frá tilraunum, er ljóslega sanna það, að Jules Claretie hefir í sögu sinni sagt alveg rétt frá, þegar hann lýsir glæpum þeim, er stúlkan framdi, að það með öðrum orðum er alhægt, fái maður hentugan mann, að láta hann í leiðslu fremja alveg sams konar glæpi. Höfundur greinarinnar er Dr. Ladame, og hann er sá, sem tilraunirnar gerði, ásamt lyfsala frá Charmes sur Moselle, er Focachon heitir, sem er alkunnur svæfingamaður eða dávaldur, er í mörg ár mjög kappsamlega og með bezta lagi hefir gert slíkar tilraunir, og á

þann hátt margvíslega aukið þekkingu vora á þessum efnum, sem mega vera svo mikilsvarðandi bæði fyrir lækna og lögfræðinga.

Tilraunir sínar gerðu þeir á ungri stúlku, jungfrú, er virtist einkar vel fallin til þess að reyna á henni áhrif »svæfinganna». Þannig tókst Focachon að hleypa upp þrota á handlegg hennar, að öllu leyti líkum þrota undan spanskflugnaplástri, með því að leggja pjötlu af frímerkjapappír á handlegg henni, meðan hún var í svæfingarmóki, og með því jafnframt að koma þeirri ímyndun inn hjá henni, að pappírspjatlan væri dragplástur. Þessi tilraun var gerð í Nancy, í einni af kennslustofum læknisfræðinganna, í viðurvist margra lækna og annara votta, svo að það er ekki hægt að rengja það, að sagan er sönn.

Dr. Ladame segir frá mörgum tilraunum, er gerðar voru á þessari ungu stúlku; en bætir svo við: Okkur fór að langa til að reyna það, hvað satt kynni að vera í síðustu sögunni hans Jules Clareties, sögunni um Jean Mornas, og komast fyrir það, hvort takast mætti að koma inn hjá svæfðum manni hvötum til þess að gera það, sem frá er sagt í bókinni. En svo hefir farið um þessar tilraunir, að eg tel það nú vafalaust, að höfundur Jean Mornas hafi hlotið að gera áþekkar tilraunir, áður en hann samdi bókina,, svo samkvæm eru sannri reynd öll þau atvik, er frá segir í bókinni, og sem hvað fjarstæðust þykja, og eg get fullyrt það, að eg hefi séð þessa sögu fara fram fyrir augum mér.

Eg svæfði jungfrú X. vel, svo að hún var sem í dái, og bauð henni að koma aptur daginn eptir á tiltekinni stundu, að laumast svo að sem minnst bæri á inn hjá herra Focachon, og gæta þess, að engi yrði við það var, stela þar úr skáp, sem eg vísaði henni á, armbandi, og færa mér það, svo að enginn vissi; eg brýndi fyrir henni margt, er hún þyrfti að athuga, til þess að hún yrði ekki staðinn að verkinu, og tók það jafnframt fram við hana, að hún með engu móti mætti kenna mér um eða koma upp um mig.

Ekki er hægt því orðum að lýsa, hve nákvæmlega hún hlýðnaðist boðum mínum, og hve kænlega hún framdi þjófnaðinn —, og það að mér ásjáanda, því eg hafði falið mig að hurðarbaki, og sá allt hvað fram fór. Að ákveðinni stundu kom hún til mín, og fór þá að öllu eins varlega og eg hafði fyrir mælt, og fékk mér í laumi hinn stolna grip.

Sama kveldið svæfði Focachon hana, og áttu þau, meðan hún var í því dái, þetta tal saman: F.: Í dag hefir verið stolið frá mér armbandi. Vitið þér hver stolið hefir? X.: Hvernig ætti eg að vita það? F.: Það er engi vafi á því, að þér vitið það. X.: Hvers vegna? F.: Af því að eg hefi vissu fyrir, að þér þekkið þjófinn. Nefnið hann fyrir mér. X.: Eg get það ekki. F.: Eg vil fá að vita það. X.: En eg hefi sagt yður að eg gæti það ekki., F.: Þér megið vita það, að nú sem stendur getið þér ekkert viljað. Þér hljótið að hlýðnast mínum vilja. Svarið þér mér! X. þegir um stund, en segir svo, og er sem hún taki það

mjög nærri sér: Jæja, það er eg. F.: Þér hafið aldrei fengið yður til að hafast annað eins að. Einhver hlýtur að hafa þröngvað yður til þess. X.: Nei. F.: Þèr hafið fráleitt verið ein í ráðum. X.: Jú. F.: Eg trúi yður ekki. X.: Satt segið þér. F.: Hverir eru í vitorði með yður? X.: Það segi eg yður ekki. F.: En nú heimta eg það. X.: Það er ekki til neins. F.: Eg skipa yður að svara mér. X.: Mér stendur það á sama, en fyr munda eg deyja; og þyki mér mikið fyrir að styggja yður, þar sem þér ávallt hafið sýnt mér vinahót; en allt um það segi eg yður það aldrei.

Hvað fast sem Focachon gekk á hana, lét hún engan bilbug á sér finna, og þversynjaði um að segja frá neinu. Samt ætlar Focachon, að sér mundi hafa tekizt að fá hana til að meðganga seint og síðar meir, með því að hann opt hafi fengið aðra svæfða menn til þess að segja allt af létta, þótt þeir lengi fastlega hefði færzt undan að meðganga neitt.

Með þessu eru þannig fullar sönnur færðar á sögu Jules Clareties, og styrktist saga hans enn fremur við enn eina tilraun, er Focachon gerði á junfrú X. svæfðri.

F.: Eg þarf að hefna mín á manni einum. Viljið þér vera mér hjálplegar til þess? X.: Guðvelkomið. F.: Þér vitið, að herra Z. er óvinur minn. X.: Og rétt er það. F.: Þér skuluð bera sakir á hann; jafnskjótt og þér vaknið, skuluð þér skrifa bréf til dómarans í Charmes, og segja honum að því hafi verið dróttað að yður, að hafa stolið armbandi, en að þér séuð saklaus; aptur sé

Z. hinn seki, og að þér hafið staðið hann af þjófnaðinum. X.: En þetta væri ekki satt, þar sem það er eg, er hefi tekið armbandið. F.: Það má einu gilda; þér skuluð skrifa þetta. X.: Jæja, eg skal skrifa það, en það er ekki satt. F.: Víst er það satt. Þér eruð langt um of ráðvönd til þess, að hafa farið að stela; það er ekki þér sem stáluð. Þér skiljið það, það er ekki þér, eg segi yður það satt, það er ekki þér, sem stáluð. X. (eins og með fullri sannfæringu): Og nei, ekki var það eg. F.: Hann Z. er þjófurinn; þér sáuð það sjálf. X. (með ákefð): Víst sá eg það; hann er þjófurinn. F.: Þér verðið þá að skrifa dómaranum um það. X.: Það er sjálfsagt, að eg hlýt að ljósta upp um hann.

Og óðara en búið var að vekja hana, tók hún sig til ótilkvödd, og skrifaði, innsiglaði og frímerkti bréf til dómarans, fulltrúa um það, að hvert orð væri satt í því, er hún sagði frá. Hún ætlaði að fara með bréfið á pósthúsið, en því var aptrað með því, að hún var svæfð á nýjan leik. Bréf hennar til dómarans var þannig:

Charmes 5. október.

Herra dómari!

Eg þarf að inna af hendi skyldu. Í morgun var stolið armbandi frá herra Focachon. Mér var fyrst kennt um þjófnaðinn, en þar var eg höfð fyrir rangri sök; það get eg sagt yður með sanni.

En eg get nefnt þjófinn, því eg horfði á allt, sem fram fór. Það er hann Z. (nafnið skrifað fullum stöfum). Og svona fór hann að því. Í morgun fór hann inn í hús herra Focachons inn um litlu

dyrnar út að Torggötunni, og hann stal armbandi, er frú Focachon á. Það lá í skáp, er stendur rétt við gluggann. Eg horfði á hann. Hann stakk armbandinu í vasa sinn, og fór svo leiðar sinnar. Eg kann ekki sannara orð að tala, en að allt fór fram svo sem nú segi eg frá. Hann er þjófurinn, og er eg fús til að bera það fyrir dómi.

*(Nafnið).*

Bréf þetta skrifaði hún að öllu leyti sjálf, og þetta, sem hún seinast býðst til, að koma fram sem vitni fyrir dómi, tók hún alveg upp hjá sjálfri sér. Nú sem stendur er hún alveg búin að gleyma öllu þessu, og varla mundi neinn fremur en hún verða hissa, ef menn segðu henni frá, til hvers hún lét hafa sig. En þó má ætla upp á það, að hefði henni svæfðri verið skipað að koma hálfsmánaðar eða mánaðartíma seinna fram fyrir einhvern dóm, til þess að bera fram þessar sakir, er hún hafði látið telja sér trú um, þá mundi hún hafa gert það, og óhvikandi unnið eið að framburði sínum.

Þessi tilraun gefur sýnishorn af því, að þannig má háskalega koma við ljúgvitnum, og eru slíkir ljúgvottar því háskalegri, sem þeir sjálfir eru sannfærðir um, að framburður þeirra sé sannur, og það þarf ekki við því að búast, hvernig svo sem dómarinn fer að þeim, að þeir iðrist framburðar síns, eða verði tvísaga.

Fjarska margar tilraunir slíkar og því um líkar hafa verið gerðar nú upp á síðkastið á Frakklandi, bæði af læknum og lögfræðingum, og gefur að skilja, að mönnum muni hafa mikið um fundizt, og er það ekki fyrir það eitt, að það varðar mjög

miklu, bæði fyrir lækna, lögfræðinga og sálarfræðinga, að hafa glögga þekkingu á högum og ástandi svæfðra manna, en það var einnig fyrir það, að menn þóttust mega vænast þess, að nokkuð mundu skýrast fyrir manni þessir merkilegu andlegu fyrirburðir, ef vel til færir menn eptir réttum reglum gerði tilraunir um þá og rannsóknir á þeim, og að með því mundi létta dularblæju þeirri, er þeir menn, sem gerðu sér atvinnu af því, að »svæfa» menn eða »segulmagna», höfðu hjúpað sig og afreksverk sín fyrir kyngikrapt þann, er þeir kölluðu »dýrasegulmögnun». Nafnið sjálft var vel kjörið til þess að leiða menn á glapstigu, þar sem það gaf ímyndunaraflinu vel undir fótinn, en skýrði ekki neitt af neinu. Allt fram á síðustu ár hafa læknar, að fám einum undanskildum, sneitt sig hjá því að rýna eptir neinu því, er vitað hefir í þessa átt; en þegar annar eins merkislæknir og Charcot í París fór að gefa sig við slíkum rannsóknum, þá þótti fleirum sér mega það vel sama. Ályktanir þær, er læknar þessir hafa getað dregið af rannsóknum sínum, eru þegar orðnar gagnmerkilegar, og það er engi vafi á því, að því betur sem tekst að kynna sér ástand manna í þessari svefnleiðslu (dáleiðslu), því betur muni og skýrast fyrir manni margt hvað í andlegu lífi manna, er áður var sem óráðin gáta. Það má nú telja það víst, að læknar geti notað »svæfingar» og dáleiðslu, eins og hvert annað afbragðsmeðal, og það við marga kvilla, er áður létu ekki undan neinu; lagamönnum verður úr þessu skylt að taka tillit til þess, að ekki er ómögulegt, að glæpir þeir, er á saka-

manninn eru bornir, sé af honum framdir að hvötum einhvers, er hefir svæft hann, og þannig fengið vald á vilja hans; og ef þær fáu tilraunir, sem enn eru gjörðar af uppeldisfræðingum, styrkjast af fleiri manna reynslu, þá mun það sannast, að svæfingarnar geta orðið þeim, er eiga að ala upp unglinga, að hinu bezta meðali til þess að hafa stjórn á þeim unglingum, sem erfiðir eru viðfangs fyrir skapsmuna sakir, og til þess að bæta skapbresti þeirra.

Svo sem fyr hefir verið á vikið, þá hafa það verið Frakkar, er fyrstir hafa orðið til þess, að rannsaka ástand »svæfðra» manna eptir vísindalegum reglum. Af hinum stórþjóðunum hafa Englendingar og Þjóðverjar heldur dregizt aptur úr, og hvar sem leitað er, þá eru læknar þeir að tiltölu fáir, er hafa gefið sig við slíkum rannsóknum.

Það, sem þessu veldur, mun einkanlega vera það, að menn almennt hyggja, þótt fjarri sé öllum sanni, að það þurfi einhverja sérstaka hæfilegleika til þess, að geta verið »dávaldur» (hypnotiseur). Menn hugðu, að »dávaldurinn» þyrfti að hafa eitthvert »segulafl» í sér, »segulmagnað» augnatillit, og þar fram eptir götunum, til þess að hann gæti haft þessi undrunarverðu áhrif á aðra menn; og þótt menn nú ekki vildu fallast á það, að hann þyrfti sjálfur að vera »segulmagnaður», þá mátti það ekki minna vera, en að hann þyrfti að vera mjög einbeittur, og hafa svo öflugan vilja, að þeir, sem væri eins og fólk er flest, fengi eigi veitt honum mótstöðu. Tvenn rök liggja til þess, að menn gæti

orðið til þess að leggja trúnað á þenna hégóma, það annað, að þeir voru næsta fáir, er gáfu sig við þessum »svæfingatilraunum», hitt það, að þeim fáu mönnum, sem lögðu stund á þær, þótti það miklu máli skipta, að þeir væri haldnir menn gæddir einhverjum frábærum hæfilegleikum, er lèti þá skara fram úr öllum öðrum. En nú er það sannast að segja, að hver maður getur orðið »dávaldur»; það sem til þess þarf, er að þekkja aðferðir þær, sem við það eru hafðar, og að geta borið sig svo örugglega, að sá, sem svæfa á, hafi nógu mikið traust á mætti »dávaldsins».

Þetta, að hver og einn getur gerzt »dávaldur», er mjög mikilsvert atriði, þegar um það ræðir, að komast í skilning um ástand »svæfðra» manna, og það hefir fremur öllu öðru stutt að því, að þekking manna í þessu tilliti ykist.

Menn hafa haft ýmsar aðferðir til þess, að koma mönnum í þenna svefn eða mók eða dá. Sú aðferðin, er fyrst tíðkaðist, var það, að »dávaldurinn» skipaði þeim, er svæfa átti, að horfast í augu við sig. Dávaldurinn leitaðist nú við að hvessa augun sem mest mátti hann á þann, er svæfa átti, til þess að hann því heldur gæfi sig honum á vald, og á þann hátt vildi hann þröngva honum til að láta mókið færast á sig. Þessi aðferð var mikil þolraun fyrir báða, jafnt »dávaldinn» og þann, sem svæfa átti, og mistókst opt, sem skiljanlegt mun verða af því, er síðar skal segja. Dupotet við hafði þessa aðferð; en nú eru flestir frá henni horfnir, og hafa tekið upp í hennar stað aðferð þá, er Englendingurinn Braid kenndi mönn-

um. Aðferð Braids er í því fólgin, að hann lét þá, er svæfa átti, einblína á einhvern hlut, sem helzt átti að vera gljáandi, er annaðhvort hann eða þeir héldu á í hendinni. þessi aðferð er mjög eptirtektaverð, því hún sannar það glögglega, að það er ekki neinn óþekktur kyngimagnaður vökvi, er veldur svefninum, eða mókinu eða dáinu, heldur svæfast menn eða falla í dá eingöngu við það, að blína á þennan eina hlut, sem haldið er nærri augum þess, er svæfa á. En þessi aðferð er ekki heldur annmarkalaus; því bæði er hún ákaflega þreytandi fyrir þann, er svæfa skal, og auk þess ekki alveg hættulaus, einkanlega ef þessum gljáanda hlut, sem á skal blína, er haldið mjög nærri augunum. Menn hafa opt séð þessa allónotaleg eptirköst, t. a. m. ákafa sinadrætti og sinakippi, og því um líkt, sem að vísu ekki er beinlínis hættulegt lífi sjúklingsins, en þó mjög ónotalegt bæði fyrir dávaldinn og hann.

þessari aðferð er því ekki heldur meira en svo hælanda, enda hefir hún orðið að rýma sessinn fyrir þriðju aðferðinni, sem hefir mikla kosti fram yfir báðar hinar. Sú aðferð er alveg hættulaus; hún hrífur á velflesta, og kemur vel heim við þann skilning á ástandi svæfðra manna, sem nú er um það leyti að verða algengastur. Sú aðferð er í því fólgin, að menn smeygja inn hjá þeim, er svæfa á, þeirri trú, að hann hljóti að sofna eða falla í dá. Hann er settur á hægan stól í herbergi, þar sem kyrð er á öllu, og þegar »dávaldurinn» er búinn að hughreysta hann með því, að hann skuli ekkert eiga á hættu, þótt hann sé svæfður, segir

hann við hann: »Horfið þér nú í augu mér, og hugsið að eins um það, að þér munið sofna. Bráðum finnið þér, að augnalokin fara að gerast þung, og augun þreytt». Skömmu á eptir segir svo dávaldurinn: »Nú eruð þér farinn að sofa; þér eruð að láta aptur augun; þér getið nú ekki framar opnað þau». Við þessa aðferð falla sumir menn í mók þegar í stað. Við aðra þarf að endurtaka það hvað eptir annað, að þeir skuli fara að sofa. Stundum flýtir það fyrir svefninum, að pata á ýmsan hátt höndunum frammi fyrir þeim, er svæfa á. T. a. m. »dávaldurinn» strýkur hendinni léttilega yfir augnalok á þeim, er svæfa á, og fer báðum höndum nokkrum sinnum ofan að og niður á við fram hjá augum honum, og leitast sí og æ við að festa athygli þess, er svæfa skal, við ímyndunina um svefninn. Dávaldurinn segir aptur við hann ofurblíðlega: »Nú eruð þér að láta aptur augun; nú getið þér eigi opnað þau; handleggirnir og fæturnir eru að verða þungir; tilfinningin fer að sljófgast; þér getið ekki hreyft handlegginn; nú er sjónin farin að daprast; þér eruð farinn að sofna». Og svo bætir hann við dálítið hastari: »Farið þér nú að sofa». Og þetta er opt nóg. Augnalokin hníga aptur. Maðurinn sofnar.

Sumir fást ekki þegar í stað til þess að láta aptur augun, heldur halda þeir áfram að blína á »dávaldinn». Hann lofar þeim að stara á sig í næði nokkrar mínútur, og fer svo hægt og hægt að láta aptur augu þeirra með því smámsaman að þoka augnalokunum fyrir augun. Hann heldur nú

aptur augnalokunum og reynir sí og æ til þess að að smeygja svefnhugsuninni inn hjá þeim, er svæfa á, og segir: »Nú eru augun aptur; þér getið eigi opnað þau; þér smáfarið nú að sofna, þér getið eigi varizt því»; svo lækkar dávaldurinn smámsaman róminn, og segir enn á ný: »Sofið þér nú»; og það er sjaldan að lengra líði en svo sem 4 eða 5 mínútur áður en sá er sofnaður, er svæfa átti.

Með þessari aðferð má það takast, að svæfa *per suggestionem*, með því að dávaldurinn smeygir eða laumar inn í huga þess, er svæfa á, hugsuninni um svefn. Það hefir þótt hæfilegt, að vera nokkuð fjölorðari um þessa aðferð, sem Dr. Liebéault í Nancy fremstur manna hefir tíðkað, enda hefir hann verið einn meðal þeirra, er bezt hafa gengið fram í þessum rannsóknum; þessi aðferð má takast vel við velflesta. Þótt ekki sofni allir við fyrstu tilraunina, þá er þó vant að fara svo fyrir flestum, að þeir verða daufari, og þessi deyfð getur smámsaman, sé fleiri tilraunir gerðar, t. a. m. þrjár eða fjórar, snúizt upp í reglulegt mók eða dá. Það er vant að vera ofboð hægt að svæfa börn, jafnskjótt og þau eru orðin nógu gömul til þess að skilja það sem maður segir þeim. Opt þarf ekki annað en láta aptur á þeim augun og segja þeim, að þau eigi að sofa, til þess að þau sofni. Svo sem fyr var á vikið, má þetta einnig takast við marga fullorðna, en til þess þarf þá það, að þeir vilji láta svæfa sig. Það er mjög torvelt að fá menn svæfða, sem ekkert gengur að, og sem kosta kapps um að halda sér vakandi.

Dávaldurinn verður að haga öllu atferli sínu eptir mismunandi skilningareðli þeirra, er hann á við. Á suma hrífur bezt blíðskapur; við aðra þarf dávaldurinn að gera sig nokkuð hastan, til þess með því að þagga niður hjá þeim, er svæfa á, alla ílöngun í það, að hlægja að tilburðum hans, eða til þess að lengja hjá þeim, er svæfa á, mótspyrnu þá, er hann ósjálfrátt kann að gera móti því, að selja sig svefninum á vald.

Svo sem fyrr var sagt, getur það komið fyrir með marga, að þeir verða ekki svæfðir fyr en eptir nokkrar árangurslausar tilraunir; en hafi það tekizt að svæfa þá nokkrum sinnum, þá verða þeir brátt háðir dávaldinum. Hann þarf þá opt ekki annað en hvessa sem snöggvast á þá augun, og segja við þá: »Sofið þér nú», og að fáum sekúndum liðnum láta þeir aptur augun og sofna. Það er ekki vert að vera meira en fáeinar mínútur í senn að reyna at svæfa; takist það ekki í fyrsta sinni, tekst það vanalega í annað eða þriðja sinni.

Sumir menn, sem eru mjög viðurtækilegir »svæfingarinnblástri», falla í mók óðara en búið er að smeygja inn hjá þeim hugsuninni um svefninn. Þessa menn má svæfa bréflega, t. d. ef menn skrifa þeim það, að þeir skuli sofna jafnskjótt og þeir hafa lesið bréfið; það má svæfa þá með hljóðberaorðsendingu, eins og Liégeois háskólakennari margsinnis hefir sýnt og sannað; skjótt að segja, hugsunin um svefn er nóg til þess að svæfa þá.

Sumir menn falla í mókið óviljandi, t. a. m.

þegar þeir eru að reyna að svæfa aðra. Um það segir Braid þessa sögu:

Dag einn kom maður til hans og bað hann um að svæfa sig. Braid var ekki viðlátinn þá í svipinn, og bað því kunningja sinn, sem Walker hét, um að svæfa manninn. Skömmu síðar kom Braid inn í herbergið; sá hann þá þann, er svæfa skyldi, sitja fyrir, blínanda á Walker, en Walker stóð frammi fyrir honum með uppréttan handlegginn, og starði hann einnig á manninn; en það sem Braid þótti kynlegt, var það, að Walker var steinsofnaður, handleggurinn á honum og fingurnir stjarfir, en maðurinn, sem svæfa átti, glaðvakandi.

Á sjúklingadeild sinni hafði Dumontpalier móðursjúkan kvennmann, er varð stjörf, þegar hún sat frammi fyrir skuggsjá og greiddi hár sitt. Hún sat hreyfingarlaus, og starði á skuggsjána hálfopnum augum, en handleggir hennar hèldust kyrrir í sömu stellingunum, sem þeir höfðu verið í, þegar hún sofnaði, lyptir upp fyrir höfuð henni, eins og hjá kvennmanni, sem er að greiða sér. Ekki þurfti annað til þess að vekja hana, en rétt í svip að horfa í augun á mynd hennar í skuggsjánni. Dr. Azam hefir einnig veitt eptirtekt ungri stúlku, er varð stjörf, þegar hún horfðist í augu við sig í skuggsjá, og hann getur einnig um unga 6 vetra gamla stúlku, er féll í svefnmók, hve nær sem hún saumaði hnappagöt, sem er vinna, er heimtar mikla eptirtekt og er augnaraun mikil.

Enginn má ætla það, að það sé ekki aðrir en ístöðulausir og þreklausir menn og móðursjúkt

kvennfólk og aðrir því um líkir, er hægt sé að fá svæfða. Því fer svo fjarri, að bæði Liébeault og Bernheim, sem hafa fengið mikla reynslu í þessum efnum, segja fortakslaust, að á flesta menn hrífi nokkuð svæfingarnar. Það er auðvitað, að það er talsverður munur á því, hvað viðurtækilegir menn eru. Ómenntaðir menn, menn, sem eru vanir því að hlýða í blindni, t. a.m. hermenn, eru, ef til vill, fljótari til að taka á móti áhrifum af dávaldinum, heldur en þeir, sem hafa sjálfstæðara heilabú, sem opt sér hálfóafvitandi leitast við að veita mótspyrnu áhrifum dávaldsins. En þeir eru fæstir, er tekst það að öllu leyti. Það er opt mjög torvelt, og stundum alveg ómögulegt, að svæfa geðveika menn og punglynda, því að — svo sem áður er sagt — þarf þess ávallt, að sá, sem svæfa á, vilji sjálfur án allrar mótspyrnu gefa sig á vald dávaldinum, og þar sem þetta á sér stað, þar tekst þvínær ávallt að svæfa.

Höfgastig svefns þess, er þeir falla í, sem svæfðir eru, er mismunandi, og fer það eptir því, hversu viðurtækilegur hver einn er þeirra, er svæfa skal. Nú sem stendur kemur læknum þeim, sem kunnugastir eru þessum efnum, ekki alls kostar saman um það, hvernig flokka eigi ástand svæfðra manna. Salpêtrièreskólinn,—þ. e. Charcot og lærisveinar hans—halda því fram, að réttast sé að skipta þessum svefni »svæfðra« manna í þrjú stig, sem þó að nokkru leyti geta runnið saman. Fyrsta stigið er stjarfastigið; á það má koma sjúklingnum með því að láta hann stara á einhvern punkt, er beri mikla birtu (allar þessar tilraunir eru gerðar á

móðursjúkum manneskjum). Þegar svo ljósið er látið snögglega hverfa, kemst sjúklingurinn á annað stigið, dáið; og loksins má koma honum á þriðja stigið, svefgöngu- eða leiðslustigið, með því stundarkorn að styðja þétt á hvirfil honum. Nú á síðustu árum hefir skólinn í Nancy, þar sem þeir Dr. Liébeault og Bernheim eru öndvegishöldar, andmælt þessari flokkun, og að því er virðist með góðum rökum. Þeir telja sex mismunandi stig, sem þó ekki hafa skýr takmörk, heldur geta runnið saman hvað í annað.

Þeir hafa gert allar tilraunir sínar á alheilbrigðum mönnum, og lýsa þeir þannig hinum ýmsu stigum svæfingarinnar:

Á fyrsta stiginu finnur sá, sem svæfður er, til deyfðar, til höfga í augnalokunum; hann syfjar. Það eru fáeinir menn, sem ekki er hægt að koma lengra á leið en þetta.

Á öðru stiginu hefir sá, sem svæfður er, aptur augun; limir hans eru lémagna. Hann heyrir allt, sem sagt er í kring um hann og við hann. En hann er háður vilja dávaldsins. Heili hans er töfraður, eins og þeir komast að orði, sem gefa sig við því, að svæfa menn. Þegar svona er komið með þann, sem svæfður er, þá má gera hann stjarfan, það er að skilja, það má láta limu hins svæfða manns haldast kyrra í sömu stellingunum, sem maður setur þá í; ef maður réttir upp á honum handlegginn, þá heldur hann honum uppréttum; ef maður glennir út á honum greiparnar, eða beygir fingurna, þá haldast þeir eins og við þá er skilið.

Stundum er stjarfinn ekki vel magnaður: t. a. m. hinn upprétti handleggur hnígur niður, ef þrýst er á hann; aptur getur stundum verið mjög erfitt að ná niður handleggnum. Aptur er það stundum svo, að hreyfa má limuna á ýmsa vegu, eins og þeir væri úr vaxi; þeir veita enga mótstöðu og haldast kyrrir í sömu stöðunni, sem þeir voru settir í. Þannig má beygja og teygja handleggi og fætur á ýmsa vegu; það má beygja höfuðið út á öxl, skjótt að segja, það má setja líkamann í hverjar stellingar, sem vera skal, og limir hans haldast í þeim kyrrir, stirðnaðir, eins og það væri brúðulimir. Þegar mikið kveður að stjarfanum, þá er það opt alveg ómögulegt, að ná limunum úr stöðu þeirri, sem þeir voru í, eða þá, þótt manni með miklum erfiðismunum takist að breyta stöðu þeirra, þá sækja þeir óðara en maður sleppir þeim aptur í sama horfið. Opt er það, að meira ber á þessum stirðleik í handleggjunum en í fótunum. Á sumum getur á þennan hátt allur líkaminn stirðnað svo upp, að hann liggi teinrjettur, þótt ekkert sé undir honum, nema sinn stóllinn undir hvoru, höfði og fótum, og það þótt þrýst sé æðifast á hann, þar sem hann þannig er allur á huldu. Ekki þarf annað til þess að láta þennan stirðleika hætta, en að segja þeim, sem svæfður er, að hann skuli hætta. Þá hverfur óðara stirðleikinn, og stjarfinn verður þá ekki á hærra stigi en svo, að fara má með líkamann eins og hann væri úr vaxi.

Á þriðja stiginu ber enn meira á deyfðinni; tilfinningin er þá mjög sljó, eða alveg horfin. Nú

má, auk þess að gera hinn svæfða stjarfan, einnig fá hann til þess að hreyfa sig ósjálfrátt. Dávaldurinn t. a. m. snýr handleggjum hans í hring, og segir svo við hann: »Nú getið þér ekki hætt«; og handleggirnir halda áfram að snúast í hring, þangað til maður stöðvar þá með því að skjóta hinum svæfða einhverju nýju í hug. Á þessu stigi heyrir sá, sem svæfður er, allt, sem við hann er sagt.

Það, sem einkennir fjórða stigið, er, auk þess sem fyr hefir verið talið, einnig það, að nú stendur hann, hinn svæfði, ekki í neinu sambandi við neitt það, er umhverfis hann er, nema að eins dávaldinn; hann heyrir, hvað dávaldurinn segir; en þótt aðrir tali við hann, þá heyrir hann það ekki, og ekki heldur það sem talað er í kring um hann. Skilningarvit hans standa ekki í sambandi við neitt, nema dávaldinn; þó má fyrir innblástur láta hann hafa kynni af öðrum út í frá.

Á fimmta og sjötta stiginu kemur svefngangan — leiðslan. Fimmta stigið er leiðsla á lágu stigi. Þeir, sem svæfðir eru, muna óglöggt eptir því, sem fram hefir farið. Sumt muna þeir sjálfkrafa. Það, sem einkennir þetta stig, er það, að nú er tilfinningin alveg dofnuð; þeir verða stjarfir og það má láta þá ósjálfrátt hreyfa sig eins og á hinum fyrri stigum, en það má einnig láta þá sjá alls konar ofsjónir; skjótt að segja: á þessu stiginu ber allt það fyrir, er mest hefir gert að því, að vekja áhuga manna á því, að kynna sér

þessar svæfingar á þeirra ýmsu stigum, og mun bráðum skýrt greinilega frá þessu öllu.

Á sjötta stiginu, þegar leiðslan er komin á sitt hæsta stig, er endurminningin alveg horfin um allt það, sem fram hefir farið, meðan dáið varaði, og hún getur eigi vaknað af sjálfsdáðum, en dávaldurinn getur vakið hana með því að bjóða þeim, sem svæfður var, að minnast þess. Á þessu stigi framkvæmir sá, sem svæfður er, allar skipanir dávaldsins; hann er eins og hver önnur vèlbrúða í hendi hans.

Við þessa stigbreytingu er sá kostur, að hún gefur gott yfirlit yfir þá margbreyttu fyrirburði, er koma í ljós, þegar menn eru svæfðir, og gerir það mögulegt, að skipa í vissa flokka hverjum þeim, sem tilraunir eru gerðar á. Hin mismunandi stig nálgast með ýmsu móti hvert annað, en eigi að síður er vant að bera svo greinilega á einhverju einstöku atriði, að eptir því sé auðgjört að skera úr, á hverju stigi svæfingarinnar sá eða sá sé.

Þeir, sem svæfðir eru, vakna stundum sjálfkrafa. Einkanlega eru það þó þeir, er svæfðir eru í fyrsta sinni, er svo gera; en að öllum jafnaði vakna þeir annars ekki, meðan dávaldurinn er í nánd þeim. Sumir vakna jafnskjótt og dávaldurinn hefir sleppt afskiptum sínum af þeim, en flestir halda áfram að sofa og það heilum stundum saman, ef þeir eru látnir afskiptalausir. Vanalega þarf ekki annað til þess að vekja þá en að segja við þá: »Vaknið þér!» Stundum þarf að endurtaka þessa skipun nokkrum sinnum, og ef það eigi stoðar, þá þarf að blása nokkrum sinnum á auga hin-

um svæfða, og vaknar hann þá óðara. Sumir hinna svæfðu kenna, þegar þeir vakna, þyngsla í höfðinu; þeir eru syfjaðir og hafa höfuðverk. En þessar aðkenningar hverfa jafnaðarlegast, ef blásið er á ennið á þeim; en það er hægt að sjá svo um, að til þessa þurfi ekki að koma, með því að segja við þá, áður en þeir eru vaktir: »Þér verðið að vera vel hress, þegar þér vaknið: þér verðið að láta liggja vel á yður, og megið ekki hafa neinn höfuðverk»; og þá vaknar sá, sem svæfður var, brosleitur og í bezta skapi.

Að heita má er ekki nokkur grein taugalífsins, er ekki megi hafa áhrif á, meðan maðurinn er í dái. Tilfinningin er dofnuð, eða jafnvel fullkomlega horfin, meðan á dáinu stendur. Eptir því sem Dr. Liébeault segist frá, þá byrjar tilfinningarleysið fyrst í útlimunum, og það eru ávallt hinir ytri partar líkamans, sem tilfinningaminnstir eru. Þegar tilfinningarleysið er fullkomið, þá má stinga títuprjónum gegnum hörundið; þá má rafurmagna manninn og gera honum alls konar sársauka, án þess að hann finni til. Þetta tilfinningarleysi getur komið sjálfkrafa, en hjá mörgum þeim, er svæfðir eru, kemur það ekki, en þá má koma því til leiðar með fortölum. Dávaldurinn segir þá við þann, er svæfður er: »Þér getið eigi fundið til þess að eg sting yður; líkami yðar er alveg tilfinningarlaus»; og hinn svæfði, sem fyrir fám einum augnablikum kippti að sér handleggnum, og sýndi öll merki þess, að hann kenndi sárt til, þegar hann var stunginn með nál, hann bregður sér nú hvergi, þó hörund hans sé marg-sundurkrotað og stungið.

það hefir verið reynt, og opt komið að góðu haldi, að neyta þessa tilfinningarleysis svæfðra manna til þess að skera í þá meðan á dáinu stendur, sem síðar mun sagt verða.

Auk tilfinningarinnar hverfa og hin önnur líkamsvit annaðhvort sjálfkrafa, eða fyrir fortölur dávaldsins. Fyrst hverfur sjón og bragð, því næst ilman. Heyrn og tilfinning hverfa síðast. En þegar sú svæfingaraðferðin er höfð, að sá, er svæfa skal, er látinn blína á eitthvað gljáanda, þá hverfur sjónin seinast, af því að dávaldurinn þá þröngvar þeim, er svæfa skal, til þess að neyta sjónarinnar.

Áður var þess getið, að þeir, er svæfðir væri, gæti orðið stjarfir, og gerðu ýmsar ósjálfráðar hreyfingar, þó eingöngu fyrir fortölur dávaldsins, eða til þess að herma eptir honum. En það er líka hægt að láta koma afileysi í limu hins svæfða. Dávaldurinn segir við þann, sem svæfður er: »Handleggurinn á yður er máttlaus», og hann getur þá ekki vitund hreyft hann; þegar maður svo lyptir upp handleggnum, dettur hann niður aptur eins og dauður sé; en samtíðis getur hinn handleggurinn verið stjarfur. Dávaldurinn getur eptir vild sinni skipt um; hann getur gert þann handlegginn, sem áður var máttlaus, stjarfan, en stjarfa handlegginn máttlausan; hann getur gert máttlausa báða handleggi og fætur, og þetta máttleysi getur haldizt eptir að búið er að vekja þann, sem svæfður var, þangað til dávaldurinn gefur honum aptur mátt í limina.

Þegar svæfingardáið er komið á hin hærri stig,

þá er sá, sem svæfður er, alveg háður vilja dávaldsins. Dávaldurinn stjórnar öllum hreyfingum hins svæfða, hugsunum hans og ímyndunum, og getur þröngvað honum til að vinna hvaða verk vert skal. Bernheim hefir sagt frá fjölda mörgum dæmum upp á þetta, en hér skal að eins segja frá þessum, er nú skal greina:

Hjá einum af sjúklingum sínum kom Dr. Bernheim inn þeirri ímyndun, að þegar hann vaknaði, þá mundi hann sjá Dr. S. með allt andlitið nauðrakað öðrumegin og stóreflis silfurnef. Þegar þessi sjúklingur nú vaknaði, varð honum litið þangað, sem Dr. S. var, og fór að skellihlæja, og sagði: »Hafið þér farið að veðja?; hvers vegna hafið þér látið raka yður öðrumeginn, og hve nær hafið þér dubbað yður upp með nefið að tarna?» Í öðru sinni kom Dr. B. þeirri ímyndun inn hjá honum, að hann mundi sjá stóran hund í hverju rúmi í sjúkrahúsinu; og þegar hann vaknaði, varð hann alveg forviða á því, að vera kominn í hundaspítala.

Það er enginn sá hugarburður til, sem ekki sé hægt að smeygja í svæfðs manns heila. Það má fá svæfða menn til þess að eta og drekka alls konar ímyndaða hluti, bæði ljúffenga og miður gómsæta. Einum af sjúklingum sínum, sem þjáðist af harðlífi, skaut Dr. Bernheim því í hug, að hann drykki flösku af Sedlitzvatni. Sjúklingurinn tók við hinni ímynduðu flösku, drakk úr henni mörg glös, hafði orð á því, hvað bragðrammt vatnið væri, og þenna daginn fjekk hann fjórum eða fimm sinn-

um hægðir eptir að hafa tekið inn þetta ímyndaða hægðalyf.

Einum af sjúklingum sínum, frú G., er var greindarkona, laus við alla móðursýki, gat Dr. Liébeault látið verða alls konar vithverfingar; hann lét hana heyra hljóðfæragang hermanna í sjúkrahússgarðinum; hann lét hana heyra, að hermenn þrömmuðu upp stigann og inn í salinn; bumbuslagi fer að dansa fyrir framan rúmið hennar, ölvaður lúðurþeytari fer að rúminu hennar til þess að kyssa hana; hún rekur honum utanundir, og kallar á sjúkrahússþjóninn sér til hjálpar; svo er lúðurþeytarinn rekinn burt, og hermennirnir fara leiðar sinnar. Meðan hún var í svæfingardáinu, var öllu þessu skotið í hug hennar, og henni fannst ekki betur en að allt færi fram, svo sem nú var frá sagt. Þótt henni opt hafi verið gerðar því um líkar vithverfingar, fær hún samt ekki varizt þeim. Þegar búið var að vekja hana, spurði hún þá, sem hjá henni voru, hvort þeir ekki hefði heyrt neitt eða séð; og þegar henni er sagt það, að þetta hafi allt ekki verið annað en vithverfingar, þá lætur hún sér það að vísu skiljast, en heldur þó, að það geti ekki verið einberir draumórar; svo átakanlegt fannst henni allt hafa verið.

Hjá sumum geta þessar vithverfingar staðið lengi. Þannig kom Dr. Bernheim þeirri hugmynd inn hjá frú L., sem var kona, er þjáðist af móðursýki, að hún skyldi sjá andlitsmyndina mannsins síns á veggnum, þegar hún vaknaði. Hún sá hana, og það í fullan sólarhring á eptir, þótt hún vissi af því, að þar væri engin mynd. Við sömu

konuna sagði Dr. B. einu sinni, meðan hún var í dái: »Þegar þér vaknið, þá skuluð þér sjá frú R. sitja hérna á stólnum» (en það var önnur kona, frú E., er sat á stólnum). Eptir að búið er að vekja hana, sér hún frú R. og fer að tala við hana. Eptir að þær hafa talað saman stundarkorn, segir Dr. Bernheim við hana: »Yður missýnist; það er ekki hún frú R., heldur hún frú E., sem situr hjá yður». Þótt nú frú L. gjörla vissi, að þetta var ekki annað en sjónhverfingar, gat hún þó eigi hrundið þeim af sér; hún þóttist ávallt hafa frú R. fyrir augum sér, þangað til að Dr. Bernheim svæfði hana aptur, og leyfði henni í þeirri svæfingunni að sjá frú E. í hennar réttu mynd.

Ótal þessu lík dæmi er hægt að tína til, og sýna þau og sanna öll hið sama, það, að sá, sem svæfður er, er fullkomlega háður vilja dávaldsins. Og dávaldurinn getur ekki að eins haft áhrif á vitundarlífið; störf hinna vitundarlausu líffæra eru og að nokkru leyti háð vilja dávaldsins. Þess var getið hér að framan, að það mátti takast að hleypa á mann með því að gefa honum hægðalyf, sem þó ekkert var nema ímyndun hans; nú skal segja dæmi, sem sýna það, hversu mikil áhrif dávaldurinn getur haft á blóðrásina:

Á sumum er hægt að láta hörundið roðna fyrir eina saman ímyndun. Dr. Beaunis mælti svo fyrir við kvennmann einn, er var í dáleiðslu, að þegar hún vaknaði, þá skyldi vera rauður blettur á líkama hennar, þar sem hann þá studdi á með fingrinum. Tíu mínútum eptir að hún vaknaði,

vottaði fyrir roða á þessum tiltekna stað, og roðinn elnaði smátt og smátt, hélt sér svo hér um bil fjórðung stundar, og hvarf svo aptur.

Fyrir ímyndunina má hleypa upp blöðrum á hörundinu, svo sem fyr er sagt, og sem Focachon lyfsali hefir sýnt og sannað, þar sem hann með frímerkjum hleypti upp blöðrum, að öllu leyti áþekkum þeim, er koma undan spanskflugum. Hann hefir og sýnt það, að menn á líkan hátt geta tálmað því, að spanskflugnaplástur verki, þegar svæfðum manni er skipað að láta hann ekki hrífa á sig.

Á þenna hátt má einnig vekja mönnum dreyra. Þetta hefir Dr. Bourru sýnt, og hefir hann gert tilraunir sínar á hermanni, er var vanýflasjúkur. Doctor Bourru svæfði hann, og skipaði honum svo þetta: »Kl. 4 í kvöld skaltu sofna; farðu inn í herbergi mitt, seztu þar í hægindastól, krosslegðu handleggina framan á brjóstinu, og fáðu blóðnasir». Hann gerði allt sem fyrir hann var lagt; að ákveðinni stundu settist hann á stólinn, og fáeinir dropar af blóði dreyrðu út úr vinstri nösinni á honum. Sami læknirinn gerði enn fremur þessa tilraun. Á svæfðum manni skrifaði hann nafn hans á báða handleggina á honum með sljóva endanum á stíl, og skipaði honum seinna part dagsins að sofna og láta sér dreyra út úr handleggjunum, þar sem nafnið væri skrifað. Á tilteknum tíma sofnar svo maðurinn, stafirnir komu í ljós skýrt og greinilega, dökkrauðir, og blóð fór að vætla út úr þeim í smádropum. Það vottaði vel fyrir rauðu stöfunum eptir 3 mánuði.

Þessar og margar því um líkar tilraunir sýna

það, að fyrir ímyndunina má hafa áhrif á ker-taugarnar. En það er ekki nema við einstöku menn, að þess háttar tilraunir geta tekizt; þeir eru flestir, er ekki eru viðurtækilegir slíkum innblástri.

Þegar ræðir um þenna innblástur af hendi dávaldanna, þá er enn eitt atriði ónefnt, sem það varðar mjög miklu fyrir lagamenn að hafa kynni af. Dávaldurinn getur skipað þeim, sem hann svæfir, að gera hvaða verk sem vera skal mörgum vikum og meira að segja mörgum mánuðum eptir að maðurinn var svæfður. Og er auðsætt, að það getur vel komið fyrir, að einhver noti sér þetta vald sitt til illræða. Sá, sem svæfður er, og sem engan grun hefir á því, er fram fer meðan hann er í dáinu, er sífellt á valdi dávaldsins; viljalaust og ósjálfrátt framkvæmir hann allt það, sem honum var boðið, meðan hann var svæfður. Menn hafa mörg dæmi þessa. Hér skal að eins segja frá einu, er Liégeois, kennari við lögfræðingaskólann í Nancy, fyrir skemmstu hefir birt; en þessi Liégeois er maður, sem mjög svo hefir unnið að því, að vekja athygli lögfræðinga á hættum þeim, er gæti staðið af dáleiðslunum. Í dæminu, sem hann segir frá, er verkið framið réttum 365 dögum eptir að það var skipað. Árið 1885, tólfta dag októbermánaðar kl. 9, var skipunin gefin ungum manni, P. N., er opt áður hafði verið svæfður. Sá sem tilraunina gerði, lét ekkert kvisast um það, sem í ráði var, og maðurinn, sem tilraunin var gerð á, hafði engan grun á því, sem fram átti að fara. Það sem honum var blásið í brjóst að gera, var þetta: »Þenna dag (12. okt.), að réttu ári liðnu,

skuluð þér fara til hans Dr. Liébeaults í Nancy. Þér skuluð segja honum, að þér séuð orðinn albata í augunum, og að þér séuð nú kominn til að þakka honum fyrir hjálpina. Þegar þér hafið gert það, skuluð þér sjá hund og apa koma inn í herbergið. Apinn situr upp á bakinu á hundinum, og hefir þar alls konar skrípalæti, sem yður þykir mikil skemmtun að. Fimm mínútum síðar sjáið þér Zigena koma inn í stofuna með taminn björn með sér; Zigeni þessi er að barma sér yfir því, að apinn hans og hundurinn hans hafi strokið frá sér, og verður nú ofboð feginn því að finna þá þar aptur; og í þakklætisskyni lætur hann svo björninn sinn—það er grár amerikanskur björn—danza fyrir yður. Þegar hann ætlar að fara út, skuluð þér biðja Dr. Liébeault um 10 sentíma, og þá skuluð þér gefa manninum».

Tólfta okt. 1886 kl. 10 kom þessi ungi maður inn til Dr. Liébeaults í stofuna, þar sem hann var vanur að eiga tal við menn þá, er leituðu ráða til hans, og þakkaði honum fyrir það, hvað honum hefði tekizt vel við augun í sér. Svo fór allt annað fram, eins og áður hafði verið ráð fyrir gert. Hann sá apann og hundinn koma inn og henti gaman af látum þeirra; hann átti tal við Zigenann og endaði á því, að biðja Dr. Liébeault am 10 sentíma, sem hann svo gaf manninum. Þegar svo allar þessar sjónhverfingar voru um götur gengnar og maðurinn var vaknaður, þá renndi hann engan grun í neitt af því, sem fram hafði farið. Hann kvartaði að eins um það, að hann fyndi til einhvers slens.

Það er að öllum jafnaði vant að vera svo, að

þeir sem svæfðir eru, gleyma öllu sem fram fer meðan þeir eru í dáleiðslunni. En þá, sem nokkuð muna til sín, er ávallt hægt að fá til þess að gleyma öllu; til þess þarf ekki annað en að dávaldurinn bjóði þeim að gleyma öllu, sem fram fer. En þeir muna eptir öllu, þegar þeir eru svæfðir aptur. Þannig var það og um þenna mann, er Liégeois háskólakennari gerði tilraunirnar með. Eptir að sjónhverfingarnar voru liðnar frá honum, var hann aptur svæfður, og þá var hann spurður, hvers vegna hann hefði komið einmitt þann daginn, og sagði hann þá, að hann hefði komið af því, að Liégeois hefði boðið sér það; en að hann hefði komið einni stundu seinna en fyrir var mælt, af því hann hefði tekið rangt eptir því, sem sér hefði verið sagt. Þegar hann svo aptur var vakinn, hafði hann gleymt öllu.

Hjá sumum mönnum (móðursjúkum og vanýflasjúkum) hvessast og skýrast líkamsvitin svo, að furðu gegnir, meðan þeir eru í svæfingardáinu. Braid hefir nákvæmlega rannsakað margt, er að þessu lýtur, og hefir hann orðið þess áskynja, að á stöku mönnum af þeim, sem hann hefir haft undir hendi, hefir heyrnin verið tólffalt næmari en þeir áttu að sér. Ilmanin verður og opt margfalt næmari; þannig kenndi kona ein, er var í svæfingardái, þefsins af rós, er var haldið 46 fetum frá henni, og gekk á þefinn. Tilfinningin getur orðið svo næm, að þeir, sem svæfðir eru, verða þess varir, hvað lítið sem við þá er komið; menn kenna þá og hita og kulda miklu tilfinnanlegar en vant er.

Dr. Azam hefir einnig fært sönnur á, að þessu

er þannig háttað. Hann kemur með dæmi upp á það, að heyrnin getur verið svo næm, að sá, sem svæfður er, getur heyrt samtal manna, þótt þeir sé á öðru gólfi fyrir neðan hann, og hann heyrir tifið í vasaúri, þótt það sé 8 metr frá honum. Ilmanin verður allt eins næm, eins og hjá dýrum. Sá, sem svæfður er, kennir þefsins af ilmefnum í fötum löngu eptir það að sá þefur er að fullu horfinn þeim, sem eru eins og þeir eiga að sér að vera. Sama er um það, að þeir verða miklum mun bragðvísari; en þó er það einkanlega tilfinningin fyrir mismun hita og kulda, og svo vöðvatilfinningin, er verður svo miklu næmari, að undrum má sæta. Ef haldið er einhverju köldu eða þá heitu, t. a. m. heitri hendi svo sem hálfa alin frá þeim, sem tilraunirnar eru gerðar á, þá hefir hann óðara orð á því, að hann kenni kulda eða þá hita, og það svo mjög, að hann þarf að kveinka sér við. Vöðvatilfinningin verður svo næm, að þeir, sem svæfðir eru, geta gert þau verk, sem eru gagnmerkileg. Þannig geta þeir skrifað fullum fetum, þótt haldið sé bók eða einhverju þar á borð við á milli andlitsins á þeim og pappírsins; og þeir geta þrætt nál, þótt bók sé haldið fyrir augun á þeim, og þeir geta hæglega farið allra sinna ferða innan um herbergi, sem er fullt af ýmsum innanstokksmunum, þótt bundið sé fyrir augun á þeim, og getur þá ekkert annað verið, sem ver þá því að þeir reki sig á, nema vöðvatilfinningin.

Þeim merkilega fyrirburð, sem dávaldarnir kalla hinn segulmagnskynjaða aðdrátt, hafa menn leitast við að gera sér grein fyrir á þann hátt, að

það væri tilfinningin, komin á hæsta stig næmleikans. Sumir menn, sem eru í dáleiðslu, eins og dragast að dávaldinum, þegar hann hefir svæft þá með því að koma við hvirfilinn á þeim. Þeir mega ekki við hann skilja, þeir elta hann hvar sem hann fer, og eru ekki í rónni, ef hann felur sig fyrir þeim. En þeim verður undir eins hughægra, þegar dávaldurinn lætur þá aptur sjá sig. Ef maður hefir komið svæfingardáinu á manninn með því að koma við þenna segulmagnspunkt með einhverjum hlut, þá verður aðdrátturinn enginn, en óðara en sá, sem svæfður er, er snertur af einhverjum manni, sem þar er nærstaddur, og má á sama standa hver það er, þá verður vart við aðdráttinn. Þegar tveir menn þannig snerta þann, sem svæfður er, verður aðdrátturinn tvöfaldur; hann reynir að elta báða, og reynir allt hvað hann getur að halda í hemilinn á þeim.

Richer veitti eptirtekt einni svæfðri konu, er hafði svo næma hörundstilfinningu, að frábært mátti telja. Hvað lítill súgur sem var, og það þó hann væri mörg metr frá henni, kenndi hún ónota af honum og fór að skjálfa af kulda; hún gat þekkt að ýmsa menn að eins með því að taka á fötunum þeirra, og skeikaði aldrei með það.

Í lækna- og sálarfræðingafjelaginu í París hefir Dr. Taguet gefið skýrslu um sjúkling einn, er svæfður hafði verið og við það fengið sjónina frábærlega hvassa og ilman að því skapi næma. Hér er því líkast sem menn heyri sagt frá þeim, er sjá í gegnum holt og hæðir. Sjúklingurinn, sem hann segir frá, er stúlka, er allt í frá barnæsku hafði

haft glögg merki þess, að hún mundi vera móðursjúk. Þegar hún var 19 vetra gömul, fékk hún móðursýkiskynjuð brotfallsflog. Eptir margar árangurslausar tilraunir tókst Dr. Taguet loksins að svæfa hana, og þá tók hann eptir þeim merkilegu breytingum á sjón hennar og ilman, er nú skal greina.

Um sjónina skýrir hann þannig frá.

Meðan Noëlia (Natalía) var í fasta dái, sem hægt var að koma henni í með því að styðja fast á hvirfilinn á henni, setti eg nokkra bletti á andlitið á henni, suma með ritblýi, suma með bleki; voru sumir skýrir, sumir tæpast sjáanlegir. Síðan lét eg pappírsspjald fram undan andlitinu á henni, og kom henni úr dáinu á leiðslustigið. Óðara en henni varð litið á pappírsspjaldið, fór hún að furða sig á því, að hún skyldi vera svo óhrein í framan, og fór hún að þurka af sér blettina hvern eptir annan, og hafði hún pappírsspjaldið fyrir skuggsjá. Hún tók ekki eptir þeim blettum, sem ekki beinlínis apturköstuðust úr skuggsjánni, nema hún væri hækkuð eða lækkuð hæfilega. Eg hélt nú ýmsum hlutum í lausu lopti fyrir ofan höfuðið á henni, eða fyrir aptan það, en þó svo að þeir hefðu hlotið að sjást á spjaldinu, hefði spjaldið verið skuggsjá, meðal annars hring, úri, pening. Hún tók brátt eptir þeim, lýsti þeim að lit og lögun. Þó var ávallt eins og hún hvikaði við, og væri að glöggva sig á því, hvað hvað eina væri; eg hafði t. a. m. fljótlega skipti á úri og 10 sentíma pening; þá var hún stundarkorn að reyna til að segja, hvað klukk-

an væri, þangað til hún loksins lagði: Úrið er nú horfið, nú sè eg 10 sentíma.

Hún hafði stöðugt augun á skuggsjánni sinni; þá gerði eg það, að eg staðnæmdist að baki henni, þannig, að höfuðið á mjer skyggðist á spjaldinu. Hún kastaði óðara á mig kveðju, og fór að tala við mig. Fjórir eða 5 menn, sem voru henni alveg ókunnugir, gengu svo hver á eptir öðrum bak við rúmið hennar; hún sagði sitt um hvern þeirra; einn þeirra kvað hún ungan, annan gamlan, enn einn svartskeggjaðan, annan hvítskeggjaðan; hún tók eptir hvað lítið sem þeir hreifðu sig. Einn þeirra tók upp vindil, og bar sig til eins og hann ætlaði að fara að kveykja í honum; við hann sagði hún: Feilið þér yður ekki. Einn signdi sig, og óðara sagði hún: Þessi maður er vel kristinn. Síðan kom eg pappírsmiða, sem á var skrifað: »Eg er djöfullinn», fyrir ofan höfuðið á henni. Óðara en hún tók eptir því (í skuggsjánni sinni), fór hún að signa sig, og allir tilburðir hennar báru þess ljósan vott, að hún væri mjög hrædd, en ótti sá snerist í fögnuð, þegar eg hafði miðaskipti og kom með annan, sem á var skrifað: »Eg er góður guð».

Að því er snerti næmleik ilmanar hennar, urðu menn þess vísari, er nú skal greina.

Natalíu var á sama hátt og fyr segir komið í dáleiðslu, og að því búnu lét eg hana festa augastað á heimsóknarmiða, sem eg því næst reif í sundur í stykki, sem eg vissi hvað mörg voru. Svo lét eg halda henni í rúminu, en fór

sjálfur inn í herbergi við hliðina á herbergi því, er hún lá í, og þar faldi eg pappírstætlurnar á ýmsum stöðum, undir ábreiðu, í jurtapottum, ofninum, í vösum ýmsra manna, sem þar voru inni, og fór svo til sjúklingsins með seinustu tætluna af heimsóknarmiðanum, og fékk henni hana. Natalía þefaði hvað eptir annað af bréftætlunni, hvikaði við rétt sem snöggvast, en snaraðist svo inn í hitt herbergið, og viðraði þar í allar áttir eins og hundur; allt í einu staðnæmist hún, viðrar aptur, og eptir nokkurt hvik ratar hún á fyrstu tætluna, og æpir upp yfir sig af fögnuði; hún fer svo sem ekkert sé um að vera fram hjá hlutum og mönnum, sem ekki hafa fólgið það sem hún er að leita að; hún staðnæmist aptur hjá öðrum, og linnir ekki látum fyr en henni eru fengnar tætlurnar.

Þegar hún á þennan hátt hefir fundið talsvert margar tætlur af heimsóknarmiðanum, þá fer hún að reyna að setja miðann saman aptur. Hún telur, leggur tölu þess, sem fundið er, saman við það sem ófundið er, og kemst með því að því, hvað margar tætlurnar höfðu orðið, en það vissi enginn nema eg einn. Þetta tekst samt ekki eins vel, þegar miðinn hefir verið rifinn sundur svo, að hún hefir fengið að horfa á það; þá skjátlast henni stundum í því að telja tætlurnar saman. Leitin að seinustu tætlunum tekst ekki heldur eins vel. Það ber opt við, að henni villast vegir að því sem hún er að leita að; hún snýr opt tvisvar eða þrisvar að sama stað og því um líkt. Henni tekst því betur sem miðanum hefir verið skipt í færri stykki.

Meðan hún er að leggja saman miðatætlurnar,

bind eg fyrir augun á henni; hún heldur eigi að síður áfram, og tekst henni að leggja hverja tætlu á sinn rètta stað með því að smáþreifa fyrir sér. Meðan hún er þannig, að bundið er fyrir augun á henni, gef eg einum af þeim, sem við eru staddir, bendingu um, að hann skuli taka eina eða fleiri af tætlunum. Við það verður hún brátt óróleg og þykir fyrir. Hún fer að leggja miðann aptur saman, og allt í einu verður hún á svipinn eins og hún sé orðin óð; hún rýkur eins og flagð á þann, sem tekið hefir miðatætlurnar, og er þangað til að orga og lemja hann, að hún nær aptur í þær. Ef hann hefir farið út úr herberginu, þá rekur hún spor hans, þangað til hún finnur hann, og er það ilmanin, sem ávallt leiðbeinir henni.

Önnur tilraun var í því fólgin, að eg lagði á rúmið hjá henni ýmsa muni, glófa, lykla, vasabók, peninga, sem sitt átti hver þeirra manna, sem við voru staddir, og bað hana svo að afhenda hverjum sitt. Hún þefaði nú af hverjum fyrir sig, stóð við frammi fyrir hverjum einum, og þefaði af honum, og afhenti hverjum sitt, svo að ekki bar út af. Ef þeir voru ekki allir viðstaddir, er munina áttu, þá geymdi hún þá, þangað til eigendurnir komu. Stundum tókst þetta ekki allt af eins vel fyrir henni; því það bar við, að hún geymdi muni, þótt eigendurnir væri viðstaddir; og ef það var margt, sem hún átti að standa skil á, þá kom það einnig fyrir, að hún fór eigenda villt. Því betur sem hún þekkti þá, sem við var að eiga, því betur tókust tilraunirnar, sem ekki máttu standa of

lengi, því að hálfri stundu liðinni varð hún jafnaðarlegast þreytt; hún fékk svimaköst og henni varð óglatt.

Þegar hún er vakin, þá man hún ekki neitt eptir tilraunum þeim, sem gerðar hafa verið með hana.

Það er, ef til vill, rétt að geta þess, að tilraunir þær, er hér hefir verið frá sagt, og sem margsinnis hafa verið gerðar, og ávallt farið svo, sem nú hefir verið sagt, hafa farið fram í viðurvist margra skilríkra votta, svo að ekki er hægt að efa það, að hér sé rétt frá sagt.

Til þessara svæfingardás-fyrirburða eru menn vanir að telja enn einn fyrirburð, sem menn alls ekkert skilja í, og sem kalla mætti æðisbrigði. Að svæfðir menn geti orðið sem allt aðrir menn, brugðið æði sínu, fyrir því er hversdagsleg reynsla, sem hægt er að verða var við hjá flestum mönnum, þegar menn, meðan þeir eru í svæfingardáinu, koma þeirri hugmynd inn hjá þeim, að þeir sé orðnir allt aðrir en þeir eru; en þetta, sem hér ræðir um, er svo lagað, að á stöku mönnum vakandi verða þau æðisbrigði, að þeir alveg að raunalausu eins og ummyndast í annan mann, er gjörsamlega hefir týnt allri hugmynd og öllu minni um sína fyrri tilveru. Þegar þetta kast er um liðið, en það getur varað mislengi — stundum svo mánuðum skiptir — þá verður maðurinn aptur eins og hann áður átti að sér, og þá man hann heldur ekki minnstu vitund eptir því, hvað hann hefir aðhafzt í kastinu. Það, sem einkennir þessi köst, er ekki að eins þetta minnisleysi um hið fyrra líf, heldur

tekur skapferli og hugsunarháttur mannsins opt fullkomnum stakkaskiptum meðan á kastinu stendur.

Hið bezt þekkta dæmi upp á slík æðisbrigði, er frakknesk kona, er heitir Félida X.; Dr. Azam hefir í mörg ár nákvæmlega kynnt sér alla sögu veikinda hennar, og veitt þeim gaumgæfilega eptirtekt, og það er þessi Dr. Azam, er hefir það til síns ágætis, að hafa orðið fyrstur manna til þess að veita eptirtekt þessum gagnmerkilegu tilfellum.

Félida X. er fædd 1843 í Bordeaux; foreldrar hennar voru heilsugóðir; sjálf var hún heilsuhraust, þangað til hún var komin á 13. ár; þá fór að brydda á móðursýki í henni. Hún fékk ýms köst í taugarnar, verkjaflog, blóð gekk upp úr lungunum á henni, án þess að lungun væri að neinu leyti veikluð. Þegar hún var á 14. árinu, byrjuðu í henni köst þau, sem hér ræðir um.

Stundum alveg upp úr þurru, stundum eptir einhverja geðshræringu fann hún allt í einu til sársauka í báðum gagnaugunum, og steinsofnaði bráðlega á eptir. Í þessum svefni var hún nokkrar mínútur, og svo opnaði hún sjálfkrafa augun, virtist vera vakandi, og var nú með sínu öðru æði, og skal síðar lýsa því. Með því var hún eina eða tvær stundir, og vaknaði svo aptur eins og hún átti að sér.

Þessi köst komu að henni fimmta eða sétta hvern dag, og meðan þau stóðu yfir, hagaði hún sér svo, að þeir, sem með henni voru, álitu hana brjálaða.

Árið eptir urðu köstin tíðari, og móðursýkis-

aðkenningarnar ákafari. Þá fyrst varð það, að Dr. Azam fékk tækifæri til þess að kynna sér hagi sjúklingsins, og upp frá því fram á þenna dag hefir hann lengst af átt kost á að veita lífi hennar eptirtekt, og gert það nákvæmlega. Þegar Félida er eins og hún á að sér, þá er hún þegjandaleg og fáskiptin, er þá sí og æ að hugsa um veikindi sín, og svarar önuglega því sem hún er spurð að. Þegar köstin koma, finnur hún allt í einu til mikils sársauka í gagnaugunum; höfuð hennar hnígur niður á brjóstið, og hún virðist vera steinsofandi. Ekkert megnar að vekja hana af þessum svefni; hún er alveg tilfinningarlaus og heyrir ekkert, sem við hana er mælt. Þessi svefn stendur yfir svo sem tvær mínútur, og svo vaknar hún eins og allur annar maður. Hún kastar brosandi kveðju á þá, sem við eru staddir; þar sem hún áður var þegjandaleg og stúrin, er hún nú glaðleg og fjörleg. Hún gengur með kappi að öllu sem gera þarf heima fyrir; henni er ánægja að allri vinnu, og hún kennir ekki neinna sinni fyrri meina.

Á þessu skeiði æfi hennar varaði þetta ástand hennar tvær stundir, og man hún þá allt, sem fram hefir farið, meðan hún er eins og hún á að sér, og eins það, sem gerzt hefir í fyrri köstunum. En þegar kastið er um liðið, og hún aptur er komin í sitt upphaflega ástand, þá hefir hún gleymt öllu því, sem hún hefir aðhafzt meðan á kastinu stendur. Þegar kastið líður af henni, fer allt á sömu leið og þegar kastið byrjar. Hún sofnar svo sem í 2 mínútur, og vaknar svo aptur dapurleg, og með sínum vanameinum. Hún rennir eng-

an grun í, hvað gerzt hefir þessar síðustu tvær stundir, en hún man gjörla eptir því, sem gjörzt hefir á hennar fyrri æfi utan kastanna. Félida er að þessu leyti ólík öðrum »tvímenningi«, er amerikskur læknir, er Mac-Nish heitir, hefir sagt frá fyrir hér um bil 50 árum.

Sjúklingurinn hans gleymdi, meðan á köstunum stóð, — en þau stóðu mánuðum saman — öllu því, er hún hafði numið á sinni fyrri æfi: lestri, skript, söng o. s. frv., og varð að setjast við að læra á nýja leik, þangað til hún raknaði við aptur, og var þá eins og hún átti að sér.

Það er merkilegt við þessa Félida, er Dr. Azam segir frá, að hennar annað ástand hefir orðið tíðara og tíðara, eptir því sem hún hefir elzt, og varað æ lengur og lengur. Þegar hún hafði fimm um tvítugt, var hér um bil jafnskipt milli beggja ástanda hennar, en nú sem stendur er það ekki nema þriðjungur af æfi hennar, sem hún lifir í sínu upphaflega ástandi; hina 2 þriðjungana er hún í síðara ástandinu. Svefninn milli kastanna er nú einnig miklu styttri, svo að henni tekst það jafnaðarlega, að láta þá, sem við eru staddir, ekki verða neins vara. Það er enn sem fyr, að þegar hún er eins og hún á að sèr, þá hefir hún gleymt öllu, sem gerzt hefir á fyrri æfi sinni. Þessi minnismissir var svo algerr, að hún mundi ekki vitund eptir því, þegar hún varð eins og hún átti að sér, hvað gerzt hafði í einu kastinu, sem hún fékk um tvítugsaldur; þá hafði unnusti hennar gert hana barnshafandi, og átti hún, þegar kastið leið af henni, ómögulegt með að skilja í því, að hún gæti verið

orðin vanfær, þangað til ein vinkona hennar sagði henni, hvernig á öllu stóð, en heldur fruntalega, svo að hún fékk áköf móðursýkisflog.

Dr. Bourru og Burot hafa fyrir skemmstu birt eitt tilfelli af æðisbrigðum, er þeir hafa átt kost á að athuga. Sjúklingur þeirra hefir 6 hamskiptin, og hefir hann í þeim gleymt öllu því, er gerzt hefir á hans fyrri æfi utan þess ástands, sem hann þann og þann svipinn er í. Geðslag hans breytist algjörlega eptir ástandinu, og, það sem er fullt eins undarlegt, einnig heilsufar hans. Á einu skeiði æfi hans varð hann snögglega máttlaus í báðum fótum upp úr hræðslu. Þetta máttleysi leið frá eptir nokkra mánuði, en hvert skipti, sem hann síðar á æfi sinni kemst aptur á það skeiðið, sem hann fékk máttleysið í, verður hann aptur máttlaus í fótunum. Meðan hann var með máttleysinu, lærði hann skraddaraiðn, en henni hefir hann alveg týnt niður á hinum skeiðum tilveru sinnar.

Enskir og amerískir læknar hafa og skýrt frá áþekkum tilfellum.

---

## II.

## Saga svæfinganna.—Mikilhæfi þeirra til lækninga. — Hættan við því, að þeim kunni að verða misbeitt.—Ýmsar skoðanir á eðli þeirra.

Svæfingarnar eru sjálfsagt æfa-gamlar. Á Sín-

landi og Indlandi hafa prestar þekkt til svæfinganna og haft þær um hönd svo þúsund árum skiptir; ætla má, að hofgyðjur grísku véfréttanna hafi verið í svæfingarleiðslu, þegar þær birtu spár sínar um óorðna hluti. Munkarnir á Aþoshöfða svæfðu sjálfa sig með því að einblína á naflann á sér; mikið af seið og göldrum miðaldanna mun og eiga rót sína að rekja til svæfinga, og á líkan hátt mun og vafalaust mega telja það víst, að lækningar þær, er áður voru taldar með jarteiknum, hafi, svo sem síðar mun sýnt verða, verið framdar fyrir innblástur dávaldsins á mönnum, sem hann hafði svæft meira eða minna. Það er sjálfsagt yfirsjón læknanna, að þeir ekki fyr en nú á síðustu árum hafa farið að nota svæfingarnar til lækninga. Það hefir lengi brunnið við hjá þeim, er lagt hafa stund á reynsluvísindin, að þá hefir eins og stuggað við öllu því, er þeir ekki gátu eins og tekið og þreifað á, ekki sízt, ef á því var einhver dularblær, og svona hefir læknunum farizt með svæfingarnar; en með því hafa þeir misst afbragðs læknismeðal, sem þeir hafa látið skottulækna og svikara búa að í næði, og hafa læknar á þann hátt skaðað bæði sjálfa sig og sjúklinga sína, er opt hafa sárlega goldið afskiptaleysis þeirra —; því nú þykir það fullreynt, að svæfingarnar eru einkar mikilvægt meðal til lækninga, og það því fremur sem þeim má koma við í kvillum, sem annars ekki láta undan neinum lækna-aðgjörðum, þar sem þær hafa haft hinn bezta árangur. Sem betur fer, þá eru nú orðin fullkomin umskipti á þessu, og læknar eru nú þegar vel

á veg komnir með að draga úr höndum skottulækna það sem þeir áður höfðu sleppt við þá.

Skrummikill skottulæknir einn, er Mesmer hét, sem var uppi um miðbik 18. aldar, hefir það til síns ágætis, að hann varð til þess, að menn á seinni öldum fóru almennt að sinna svæfingum, því hann gerði tákn og stórmerki í lækningum á sjúklingum, sem hann þóttist segulmagna, og græddi á þeim of fjár. Það er hér óskylt að fara að segja sögu Mesmers. Margir munu hafa heyrt sagt frá lækninga-aðferð hans. Hann lét sjúklingana sitja þegjandi kring um stór keröld. Hinn segulmagnaða vökva, er Mesmer þóttist hafa, lagði frá honum í keraldið og úr því aptur til sjúklinganna. Þegar þeir höfðu setið fyrir um stund, fengu þeir sinakippi eða féllu í dá. Stundum urðu köstin, sem sjúklingarnir fengu, æði svæsin, og svo fór að lokum, að Mesmer voru bannaðar þessar »setur».

Mesmer fékk marga fylgismenn, og má telja helztan markgreifann af Puységur. Hann »segulmagnaði» menn með því að leggja hendur yfir þá, eða þá með glerstöngum, eða með »segulmögnuðum viði». Á þenna hátt tókst honum að svæfa sjúklinga sína; og honum tókst vel að lækna marga. En á stjórnarbyltingarárunum og styrjaldarárum keisararíkisins frakkneska hættu menn að sinna þessu »dýrasegulmagni», því það nafn var svæfingunum enn gefið. Það var ekki fyr en á árunum frá 1820 til 1830, að menn fóru aptur að gefa þeim gaum; og þá voru það mikilhæfir menn, t.

a. m. Dupotet og Husson, er leiddu athygli almennings að þessum fyrirburðum.

Frakkneska vísinda-akademíið setti árið 1825 nefnd eptir áskorun frá Dr. Foissac til þess að rannsaka þessar svokölluðu »segulmagnanir» og svæfingar. Dr. Husson samdi skýrsluna um aðgjörðir nefndarinnar, og var hún lesin upp í akademíinu 6 árum eptir að nefndin var sett. Í sögulegu tilliti er skýrsla þessi gagnmerkileg, því að ályktanir þær, er nefndin dró af rannsóknum sínum, koma í mörgum greinum heim við það, sem allir nú eru samdóma um.

Mikilvægustu ályktaratriðin, er tekin voru fram í skýrslu þessari, voru þau er nú skal segja.

Segulmagnarinn verkar á sjúklinginn með því að snerta hann með fingrunum, með því að núa hann, eða með einhverjum tilteknum hreyfingum, er hann hefir í frammi skammt frá líkama sjúklingsins. Verkanin kemur í ljós eptir skemmri eða lengri tíma (eina mínútu til hálfrar stundar).

Þegar einhver sjúklingur hefir einu sinni verið segulmagnaður, þá þarf seinna meir ekki ávallt að koma við hann eða því um líkt, til þess að segulmagna hann; þá þarf opt ekki annað en að segulmagnarinn líti á hann eða skipi honum að falla í dá.

Á þeim, sem svæfðir eru, verða ýmsar merkilegar breytingar, bæði að því er snertir skarpleik líkamsvita þeirra og skilnings, t. a. m.:

a) Sumir heyra að eins rödd »segulmagnarans», þótt margir menn sé að tala saman umhverfis þá, og jafnaðarlegast er það, að þeir taka ekki eptir

því, sem fram fer í kring um þá. Meira að segja, margir þeirra heyra ekki, hvað mikill skarkali sem gerður er rétt við eyrun á þeim.

b) Þeir hafa augun aptur; það er mjög erfitt að opna á þeim augnalokin, og þeir ranghvolfa augunum upp á við.

c) Stundum virðist ilmanin þeim alveg gengin. Það má láta þá anda að sér ammoníaki, án þess að þeim verði neitt ónotalega við, meira að segja, þeir virðast ekki hafa neitt veður af því. Stundum aptur á móti er allt annað efst á borði; ilman þeirra er þá svo næm, að þeir viðra það, sem er mjög þeflítið.

d) Flestir þeirra, er svæfðir voru til reynslu, voru alveg tilfinningarlausir. Þeir finna ekkert til þess, þótt þeir sé klipnir eða stungnir með nál. Einn kvennmaður var svo gjörsamlega tilfinningarlaus, að það tókst að skera hana til lækninga miklu skursli, án þess að hún brygði svip, eða æðasláttur eða andardráttur breyttist á nokkurn hátt.

Þegar sjúklingarnir hafa verið vaktir, þá hafa þeir verið algjörlega búnir að gleyma öllu því, er fram fór, meðan þeir voru svæfðir.

Að því er snertir það atriði, hvað mikils virði segulmögnunin kunni að vera sem lækningarmeðal, þá er ekki hægt að segja neitt ákveðið um það, fyr en búið er að reyna hana á miklum fjölda af sjúklingum. Nefndin lætur því við það lenda, að skýra frá hinum einstöku tilfellum, er hún hefir átt kost á að sjá, en lætur sér ekki til hugar koma að draga dæmi saman af þeim.

Sumir hinna segulmögnuðu sjúklinga hafa alls einskis bata kennt. Sumum hefir fundizt sér batna til muna. Þannig eru hjá einum alveg horfnir verkir, er hann lengi hefir þjáðzt af; »í annan hefir færzt máttur; á hinum þriðja hefir það tekizt, að sporna mánuðum saman við brottfallssýkisköstum; fjórði sjúklingurinn fékk fullkomna bót á langvinnu máttleysi».

Akademíið þorði ekki að láta prenta skýrslu Dr. Hussons, og Husson hlaut að sætta sig við það, að vera álitinn auðtrúa fáráður, er hefði látið lævísa segulmagnara blekkja sig.

Þegar Englendingurinn James Braid kemur til sögunnar, má svo að orði kveða, að ný öld renni upp í sögu þessarar fræðigreinar, og það má með sanni segja, að í raun réttri er það hann, er fyrstur byrjaði að rannsaka svæfingarnar á vísindalegan hátt. Svo sem fyr er um getið, sannaði Braid það, að ekki er til þessi svo kallaði »segulmagnsvökvi», og að dávaldurinn er ekki gæddur neinu sérstöku kraptaláni. Svæfingarástandið (mókið, dáið eða leiðslan), og allir þeir fyrirburðir, er því eru samfara, á upptök sín eingöngu í huga þess manns, sem svæfður er; og í taugakerfi þess, sem svæfður er, hljóta menn að leita að skýringunni á hinum mismunandi fyrirburðum. Það er hægt að svæfa eingöngu með því, að láta manninn blína á eitthvað gljáanda; og menn geta svæft sjálfa sig án þess að láta neitt utan að verka á sig. Og í þessu svæfingarástandi er ímyndunaraflið svo fjörugt, að hvað eina, sem manninum kemur í hug, hvort sem það nú er sjálfkrafa eða fyrir innblást-

ur dávaldsins, stendur fyrir hugaraugum hans svo sem væri það svo í raun og veru. Því optar sem tilraunir eru gerðar, þeim mun betur tekst við hvern einn, sem reynt er við. Ef dávaldurinn ekki lætur í ljósi vilja sinn með orðum eða bendingum, er sá skilur, sem svæfður er, þá gerir hann ekkert. Stellingar þær, sem menn setja hinn svæfða í, vöðva hans eða andlitsdrætti, geta vakið tilfinningar og geðshræringar, er samsvara limaburðinum eða svipnum, eins og hins vegar hugmyndin um mismunandi tilfinningar og geðshræringar getur komið því til leiðar, að allt látbragðið samsvari hinum ímynduðu tilfinningum og geðshræringum.

Þetta kemur nú allt vel heim við skoðanir þær, er nú eru algengastar, og nú rengir enginn, að þetta sé svo. En allt um það var þó lítill gaumur gefinn að bók Braids á Englandi, og á Frakklandi vissi enginn neitt af henni að segja.

Þessu næst var það í Ameríku, að svæfingarnar vöktu athygli almennings á sér. Árið 1848 gat amerískur maður, er Grimes hét, komið til leiðar öllu hinu sama, sem Braid skýrir frá í sinni bók, og virðist hann þó ekki hafa þekkt til rita Braids; Grimes sýndi og fram á það, að hinum sömu fyrirburðum má koma til leiðar á vakandi mönnum, ef þeir eru vel viðurtækilegir; það er þá nóg með orðum einum að innblása þeim eitthvað. Þetta hafði nú Braid áður sýnt fram á, árið 1846, í ritgjörð, sem hann kallaði: The power of the mind over the body (vald hugans yfir líkamanum). Grimes kallaði kenningu sína electrobiologia, og hún útbreiddist víða í Ameríku með lærisveinum

hans, sem hann átti marga, þótt þeir hvergi nærri allir væri jafnsnjallir meistaranum. Lækningaaðferð hans kom annars opt að góðu haldi, þegar þurfti að gera menn tilfinningarlausa, sem skera þurfti til lækninga, og annars í meðferð ýmiskonar sjúkdóma.

Það var ekki fyr en árið 1859, að kenningar Braids urðu kunnar á Frakklandi. Þá gerði Dr. Azam nokkrar tilraunir á sjúklingum, og tókust þær allar mæta vel. Í svipinn fannst mönnum mikið til um þessar tilraunir hans, þegar hann skýrði frá þeim, en það stóð ekki lengi, og svo var máli því engi gaumur gefinn, og það þrátt fyrir það, þótt Dr. Liébeault gæfi árið 1866 skýrslu um ágætan árangur af þessum lækningatilraunum, í bók, er hann kallaði: Du sommeil et des états analogues, considérés surtout au point de vue de l'action du moral sur le physique —, og er það hið merkasta rit um það efni, er út hafði komið allt fram að þeim tíma, eptir það að Baird gaf út bók sína. Þó varð ekki Liébeault svo mikið ágengt, að hann fengi almennt lækna til þess, að gefa gaum að þessu máli svo vel sem vert var. Það þurfti lækni jafnmikils metinn og Charcot, til þess að vekja athygli lækna almennt á svæfingunum og verkunum þeirra; en þegar rekspölurinn loksins komst á, þá rak hver rannsóknin aðra, og nú er búið að rita býsnamikið um þetta efni.

Það er vel skiljanlegt, að menn nú á dögum hafa lýst miklum áhuga í því, að rannsaka svæfingarnar og verkanir þeirra, þegar menn líta á það, hve furðanlega mikinn árangur rannsóknir

þessar hafa haft fyrir læknisfræðina, enda er það varla efamál, að þær, er fram líða stundir, muni gefa enn betra árangur. þessar rannsóknir hafa einnig meðfram orðið til þess, að gera oss skiljanlegt, hvernig undir eru komnar ýmsar furðanlegar lækningar og meinabætur, sem áður voru taldar með táknum og stórmerkjum, og sem svo margar sögur hafa farið af á öllum öldum.

það mun varla vera nokkur sá læknir, sem ekki viti það af sjálfs sín reynslu, hversu mikið gagn opt getur verið að því, að sjúklingar hafi trú á einhverju læknismeðali. Í mörgum þeim meinum, sem eiga rót sína að rekja til taugakerfisins, við margs konar verkjum, við vöðvaveiklan, sinakippum og þar fram eptir götunum, er það eitt nóg til bóta, að sjúklingurinn sé sannfærður um það, að hann muni bót fá af einhverju læknislyfi, og það þótt þetta lyf í raun réttri ekki geti haft neina slíka verkun. það er einmitt fyrir þetta, sem skottulæknarnir fá orð á sig. Sjúklingurinn, sem árangurslaust hefir leitað sér meinabótar hjá læknum, heyrir sagt frá einhverjum frægum skottulækni, sem að sögn heppnast við hvað eina. Sjúklingurinn verður fyrir allar sögurnar, sem af skottulækninum ganga, fulltrúa um það, að hann sé gæddur því kraptaláni, sem algengir lærðir læknar ekki hafi neitt af, og í blindni trúir hann á þessar yfirnáttúrlegu læknisgáfur skottulæknisins, leitar ráða hans og fær meinabót, sem flestum öðrum en sjálfum honum þykir furðu gegna.

það er bæði sögn og sannindi, að trúin gerir kraptaverk, ekki sízt þegar um það ræðir, að

vinna bót líkamlegra meina. Hér skal segja frá frægu dæmi, sem er gott sýnishorn þess konar lækninga. Sjúklingurinn var dóttir Schwarzenbergs fursta; hún hafði í 8 ár verið máttlaus í fótunum, og hafði hún árangurslaust leitað ráða til frægustu lækna á Frakklandi og Þýzkalandi. Prinzinn af Hohenlohe, sem í mörg ár hafði verið prestur, fór árið 1821 með bónda einn á fund hennar. Þessi bóndi hafði gert prinzinn fulltrúa um það, að hann gæti læknað sjúka eingöngu fyrir krapt bænarinnar, og var nú boðinn og búinn til þess að reyna, hvað sér tækist við furstadótturina. Í marga mánuði hafði umbúnaður verið hafður um fæturna á henni, er átti að verja vöðvasamdrætti þeim, er sí og æ fór í vöxt; úr þessum umbúðum var hún nú tekin, og að því búnu skoraði presturinn á hana til þess að hún bæðist fyrir ásamt sér og bóndanum. Síðan báðust þau fyrir um stund heitt og hjartanlega, og spyr svo prinzinn hana um það, hvort hún nú fulltreysti því, að hafa fengið meinabót. Já, segir hún, eg trúi því einlæglega. — Standið þér þá upp og gangið þér, segir prinzinn. Þegar hann hafði þetta mælt, reis furstadóttirin á fætur, gekk fáein fet áfram í herberginu, og fór svo að reyna að ganga upp og ofan stigana. Daginn eptir gat hún farið til kirkju, og úr því var hún ekkert fötluð á fótunum.

Veikindi hennar hafa vafalaust verið þrálátt máttleysi, er hefir stafað af einhverri taugabilun, sem er allalgengt, og þarf stundum ekki annað

en ákafa geðshræringu til þess, að slíkt máttleysi batni.

Það er lækning slíkra og þvílíkra meina, er mestu orði hefir komið á heilaga heilsubrunna, helga dóma og því um líkt. Sjúklingurinn, er laugast vatninu úr hinum heilaga brunni eða kyssir heilagan dóminn, gerir þetta með þeirri föstu sannfæringu, að hann muni fá meinabót, og trú hans gerir hann hólpinn. Fótlama maður gengur heilfættur, hinn blindi fær sýn, og dumbur fær málið. Það eru ekki ýkja-mörg ár síðan brunnur Maríu meyjar við Lourdes varð víðfrægur fyrir hinar undrunarverðu heilsugjafir, er vatn hans veitti. Áttræð kona, er hjet María Lanou-Domenyé, sem í þrjú ár hafði verið máttlaus í allri vinstri hliðinni, fékk heilsu sína fyrir vatn úr þessum brunni. Sjálf gat hún eigi komizt til Lourdes, en hún fékk einhvern til að sækja sér nokkuð af vatni úr lindinni. Þegar henni var fært vatnið, lét hún reisa sig við og færa sig í fötin, svo studdu tveir menn við henni meðan hún dýfði höndunum niður í vatnið og signdi sig, og að því búnu drakk hún hægt og hægt glas af vatninu. Síðan rétti hún úr sér, skalf og æpti fagnaðaróp, og sagði: »Sleppið mér fljótt, mér er batnað», og hún fór að ganga um, svo sem hún hefði aldrei kennt nokkurs meins. Á líkan hátt hafa margir aðrir sjúklingar fengið heilsubót við brunn þenna, sem fjöldi sjúkra manna streymir að á hverju ári enn í dag.

Það sem nú hefir sagt verið, má telja sem inngangsorð; en nú viljum vér nokkuð gjörr benda á þann árangur, er við mátti búast að menn mundu

hafa, og að sumu leyti einnig hafa haft af því að nota svæfingarnar, viðhafðar eptir réttum reglum, til lækninga. Að vísu eru sumir menn svo gerðir, að ákafar geðshræringar, lifandi trú, í stuttu máli allt það, er örvar ímyndunaraflið, er hjá þeim einhlítt til þess að kippa í lag ýmsum úr lagi færðum störfum líffæranna, en þó er það svo, að flestir menn eru, meðan þeir eru vakandi, fremur óviðurtækilegir þess háttar áhrifum, sem ekki geta notið sín, af því að skynsemin tekur trúna fangna, og dregur fyrir það úr áhrifunum. Þegar aptur á móti svo er komið fyrir manninum, að búið er að svæfa hann, þá getur ímyndunaraflið leikið lausum hala, og heilinn verður viðurtækilegri öllum áhrifum. Ef annars er hægt að svæfa manninn, þá fær hann ekki, hvað vel viti borinn sem hann er, varizt því sem honum er blásið í brjóst, meðan hann er í dáinu. Það sem honum er innblásið, stendur fyrir hugaraugum hans svo sem það væri í raun og veru, á líkan hátt og draumarnir eru í huga sofanda manns. Þetta, að svæfður maður þannig verður viðurtækilegri öllum áhrifum, vill nú læknirinn, er leitast við að lækna með svæfingunum, færa sér í nyt, til þess að hann einmitt með því geti verkað á taugakerfi sjúklingsins. Sjúklingurinn, sem að miklu leyti er á valdi dávaldsins, leitast við að láta ásannast áhrif þau, er hann hefir orðið fyrir, og heili hans, sem nú ekki stendur undir stjórn skynseminnar, hlýðir í blindni skipunum þeim, sem honum eru gefnar. Þess var getið í fyrra kaflanum, hvernig máttleysi, sinateygjur,

tilfinningarleysi o. s. frv. gat komið í svæfðan mann fyrir innblástur þann, er hann fékk í dáinu; þar var þess og getið, að verkanir þessa innblásturs gátu haldizt eptir að maðurinn var vaknaður, með því að heilinn, þó vaknaður væri, var enn háður dávaldinum.

Þegar menn höfðu tekið eptir verkunum þeim, sem »svæfingarinnblásturinn» gat vakið hjá heilbrigðum mönnum, þá lá það beint við, að færa sér það, er menn þannig höfðu orðið áskynja um, í nyt við sjúklinga, og láta hina örvuðu starfsemi taugakerfisins, sem hægt var að kveykja fyrir innblástur, vera meðal til þess að lækna sjúkdóminn. Það lá beint við að álykta á þessa leið: Úr því að hægt er að láta heilbrigðan mann, sem svæfður er, verða tilfinningarlausan, fá sinateygjur, verða máttlausan, o. s. frv., þá getur það einnig vel verið, ef eins er farið að, að það megi takast, að fá því um líkum meinum létt af veikum mönnum, ef þau mein að eins ekki stafa af einhverjum skemmdum á líffærunum.

Það mun nú sýnt hér á eptir, hversu rétt þessi ályktun er, og hve góðan árangur það hefir haft að fylgja henni. Það hefir því verið farið alveg eins að við þá, sem veikir hafa verið, eins og við heilbrigða. Dr. Liébeault, sem fyrstur hefir komið upp með þessa lækningaaðferð, og mörg ár haldið henni fram, fer nú að á þessa leið. Hann svæfir fyrst sjúklinginn, og þegar hann er svæfður, segir Liébeault honum skýrt og sköruglega, að nú sé honum batnað. Það er að segja, hann reynir til að koma inn hjá honum sannfæringunni um

það, að þjáningar þær, er hann hefir fundið til, sé horfnar, verkjunum sé linnt, máttleysið horfið, afl sé farið að færast aptur í vöðvana o. s. frv. það, að svæfður maður verður viðurtækilegri öllum áhrifum, notar hann til þess að skipa heilanum að gera allt það, er í hans valdi stendur til þess, að það verði að sannri raun, sem hann hefir viljað telja sjúklingnum trú um, að orðið sé.

þessi aðferð Dr. Liébeaults, sem hann sjálfur hefir fylgt í mörg ár og honum gefizt mæta vel, er ekki orðin almenningi kunn fyr en nú fyrir fám árum. En nú eru á Frakklandi mjög margir orðnir ákafir formælendur hennar. þau meinin, sem einkanlega tekst að lækna eða lina með þessari aðferð, er hin svonefndu »hysterisku»—móðursýkis- eða vanýflasóttarkynjuðu, — það er að segja mein, er hafa aðsetur sitt í taugakerfinu, en oss eru ókunnar orsakirnar til þeirra og eðli þeirra, með því að þau ekki lýsa sér þannig, að hægt sé að benda á neinar átakanlegar breytingar á taugakerfinu; en eigi að síður eru verkanir þessara meina mjög svo átakanlegar og tilfinnanlegar sjúklingunum. þessi mein eru engan veginn ímyndunin ein, sem mörgum enn er hætt við að halda, með því að það enn er algengt, að kalla »hysteria» innbyrlingarveiki; þau eru þvert á móti mjög svo ill viðfangs, og torvelt eða enda ómögulegt að ráða bót á þeim með meðölum þeim, sem almennt tíðkast. En svæfingarnar koma opt að bezta haldi einmitt þegar við þessi mein er að eiga. Máttleysi, margra ára gamalt, verkir, dofi, sárir taugaverkir í andliti, sinateygjur geta horfið eptir fáar »setur». Fyrir svæf-

ingar hefir Dr. Voisin læknað marga móðursýkiskynjaða sjúkdóma, samfara þunglyndi, sjónhverfingum og ofheyrnum, og umhugsun um það að ráða sjálfum sér bana. Dr. Bernheim segir frá fjölda mörgum sögum um veika menn, er ljóslega sanna, að hve góðu haldi svæfingarnar geta komið. Eg skal nefna helztu sjúkdómana, er þær hafa gefizt vel á. Í máttleysi í hálfum líkamanum eða einstökum limum, í »hysteriskum» meinum líkamsvitanna (sjónar, heyrnar, tilfinningar), í máttleysi, sinateygjum, handaskjálpta, »skrifarakrampa», St. Vitusdansi, í ýmiskonar verkjum, lystarleysi, svefnleysi, þunglyndi, svefngöngum, martröð, klígju, uppsölu, höfuðverk, tannverk, gigtarflogum; og má nú minna gagn gera.

Til þess að menn geti séð, að hve góðu liði þessi lækningaaðferð getur orðið, skal hér segja frá tveimur sjúklingum.

Einn meðal sjúklinga Dr. Bernheims, var frú G.; hún var 25 ára gömul, og hefir í 8 ár verið mjög geðveik. Hún er fjarskalega horuð; þótt hún geri ekki nema að bragða léttasta mat, þá finnst henni eins og hún ætli að kafna, og hún fær sára verki í magann. Hún neytir því mjög lítils matar, þótt hún finni til sultar. Hún hefir leitað margra ráða, en ekkert hafði komið að haldi. Hún er ekki nema 68 punda þung. Dr. B. reyndi til að svæfa hana; það var auðgert, og þegar hún var svæfð, skipaði Dr. Bernheim henni að eta matinn sinn, og láta sér ekkert meint við verða. Hún át nú í svefni 2 kjötrétti, disk með jarðeplum, og annan disk með öðrum garðávöxtum, ásamt

brauði, og drakk rauðvín við þessu. Hún kvartaði ekki um, að sér yrði neitt meint, hvorki meðan hún var að eta, né eptirá. Þessi meðferð var höfð á henni nokkurn tíma, þannig, að Dr. Bernheim svæfði hana annanhvorn dag, og bráðum fór svo, að hann gat fengið hana til þess að matast, án þess að þurfa að svæfa hana. Nú er þessi sjúklingur alveg búinn að ná sér aptur, og er hún nú heil heilsu.

Annar sjúklingur Dr. Bernheims, frú M., hafði mánuðum saman verið bandóð, og hafði nærri þver-aftekið það að eta nokkurn hlut. Hún hafði ýmiskonar vithverfingar, bæði á sjón, heyrn og tilfinningu; hún gat ekki sofið og kvartaði um kvalir í maganum, er meinuðu henni að eta. Á geðsmunum var hún grálynd og uppstökk, og var að sí-rífast við manninn sinn, svo að honum var ekki við vært. Hverra ráða sem við var leitað, þá var ekki hægt að fá hana til að sofa eða matast. Dr. Bernheim reyndi loks til að svæfa hana, og gat honum tekizt það, þótt erfitt veitti; og skipaði hann henni þá að matast. Hún át kröptugan matarskammt og varð ekkert meint við, og þegar svo var búið að vekja hana, fór hún að borða með hinu heimilisfólkinu, og kom sízt til hugar, að hún þegar hefði matazt. Með því að halda áfram sömu meðferð á henni, tókst það loksins, að allækna hana, og Dr. B. auðnaðist líka að breyta lund hennar og geðsmunum með því að hann lagði ríkt á við hana, jafnvel er hann svæfði hana, að hún þyrfti að vera blíð og ástúðleg við manninn sinn.

Þessi saga, er nú skal greina, er gott dæmi upp á kraptaverk þau, er gera má á svæfðum mönnum. Dr. Voisin hefir vagt frá henni í Archives de neurologie 1886.

Þrettánda dag desemberm. árið 1885, segir Dr. V., var eg staddur í litlu þorpi á sunnanverðu Frakklandi, og þurfti að bíða þar hálfa aðra klukkustund eptir því, að járnbrautarlest kæmi þangað á heimleið til Parísarborgar. Meðan eg stóð þar við, var komið til mín með bóndakonu þar í grenndinni; hún hafði í 6 mánuði verið máttlaus í hægra handleggnum. Mér var sagt, að konan væri fertug, og að hún í tvö ár hefði kennt ýmsra meina, er lýstu taugabilun; hún hafði hafði herping um barkann, og henni fannst eins og kökkur fyrir brjóstinu á sér. Eptir einn af þessum taugaæsingskippum hafði hún þá fyrir 6 mánuðum fengið máttleysi í hægra handlegginn. Nokkrum dögum síðar fékk hún nýtt kast, og eptir það kreppti á henni hægri hendina, og hafði kreppa sú haldizt síðan. Konan virtist vera sæmilega greind; hún hafði gott minni, og svaraði skynsamlega upp á það sem hún var spurð um. Í hægra handleggnum var máttleysi og því samfara kreppa, og var það að öllu líkt máttleysi, er stafar af einhverri heilabilun. Handleggurinn lafði niður, eins og dauður væri, og gat ekki hreyft sig minnstu vitund; úlfliður og fingur voru mjög krepptir. Neglurnar höfðu, þegar þær uxu, grafizt inn í lófann og voru þar komin sár undan þeim, er megnan ódaun lagði af; liðamótin á fingrunum voru þrútin og aum. Konuna kenndi mjög sárt til, ef

reynt var að rétta úr fingrunum, og við það virtist að eins herða á kreppunni. Hún hafði eðlilega tilfinningu í handleggnum, og ekki var dregið úr vöðvunum.

Mér þótti auðsætt, að eg hér ætti við máttleysi, er stafaði af móðursýki; og þótt tíminn væri naumur, vildi eg reyna, hvort nokkur bati kynni að fást með því að svæfa konuna. Eg fór því strax að svæfa konuna og tókst það áður en fjórðungur stundar var liðin. Hún féll eins og í dauðadá, og varð tilfinningarlaus og limir hennar fullkomlega lémagna. Eg skipaði henni nú hárri röddu að rétta úr litla fingrinum á hægri hendinni; hún gerði það, þótt auðséð væri, að hún ætti bágt með það, og hana kenndi mikið til. Þegar þetta tókst með fyrsta fingurinn, bauð eg henni að rétta upp græðifingurinn, og gerði hún það; þá skipaði eg henni að rétta upp löngutöng, en þar virtist sársaukinn vera miklu meiri og hún eiga erfiðara með að gera það, sem boðið var; þó tókst henni það á endanum. Vísifingur og þumalfingur átti hún hægt með að rétta upp. Hún var nú búin að rétta alveg úr hendinni; en auðséð var, að bólgan í liðamótunum gerði henni talsverðan baga; þó fór hún að eiga hægra og hægra með að hreyfa fingurna, og loks bar ekki neitt á því, að hendina höfði kreppt. Neglurnar, er voru mjög langar, voru svartar, fullar af óhreinindum, og lófinn fullur af sárum og vilsu, vegna þess, hvað neglurnar höfðu lengi grafizt inn í hann. Handleggurinn hélzt óhreyfanlegur, meðan þessu fór fram; en nú bauð eg konunni að hreyfa hann, og sagði henni

fortakslaust, að hún hlyti að eiga hægt með það; og henni tókst það; fyrst átti hún reyndar bágt með það, seinna veitti henni það léttara, og brátt kom svo, að hún átti eins hægt með að hreyfa hægra handlegginn eins og þann vinstra.

Í aprílmánuði, það er að segja fjórum mánuðum eptir þessa lækning á konunni, sem þeir, er sjónarvottar voru að því, töldu kraptaverk, hefi eg nú fengið skeyti um, að konan sé síðan við beztu heilsu, og að hún sé jafngóð í báðum handleggjunum, svo að hún geti gengið í hvað eina.

Ein veikindi eru það, sem eru talsvert algeng, einkum hjá börnum, og eru það þau, að börnunum hættir við að míga undir meðan þau sofa. Þessi veikindi eru mjög hvumleið, bæði þeim er af þeim þjáist, og eins þeim, er við þá þurfa að búa, og er opt ekki hægt að ráða bót á þeim. Þótt slíkur sjúklingur sé vakinn langa lengi, þótt bundinn sé trédrumbur við bakið á honum, svo að að hann ekki sofi upp í lopt, þótt honum sé hótað hörðu, þá stoðar þa ðekkert. Dr. Liébeault hefir haft til lækninga 77 sjúklinga, er þjáðust af þessu meini, og tókst honum að lækna velflesta þeirra, þegar hann hafði svæft þá einu sinni eða tvisvar; það voru einir 8, er honum varð ekkert ágengt við.

Opt hafa menn neytt þess, að þeir sem svæfðir eru, verða stundum alveg tilfinningarlausir, til þess að skera í þá, meðan þeir hafa verið í svæfingardáinu. Þannig skar Dr. Cloquet árið 1829 krabbamein úr brjósti á kvennmanni einum, er svæfð hafði

verið, og kenndi hún einskis sársauka, hvorki meðan á skurðinum stóð né eptirá.

Á árunum frá 1840 til 1850 hefir Dr. Loysel skorið eitthvað um 20 manns, og það tekizt allt að einu, og um sama leyti stýfði Dr. Fanton bæði læri og handleggi af svæfðum mönnum, og á árunum frá 1850 til 1860 var þessi aðferð opt höfð í Frakklandi.

Ár 1859 birti Dr. Esdaile, yfirhandlæknir við sjúkrahús eitt í Calcutta, skýrslu eina, er greinir frá því, að hann á 6 árum hefði í lækningaskyni skorið stórkostlega um 600 Hindúa, er allir höfðu verið svæfðir. Eptir beiðni hans setti Indlandsstjórnin nefnd til þess að rannsaka, hvort framburður hans væri sannur. Þessi nefnd saman stóð af handlæknum og einstöku mönnum, sem ekki voru læknar, og samdi hún allmerkilega skýrslu um rannsónir sínar, og er það sem nú skal segja, tekið úr þeirri skýrslu.

»Nilmouney var skorinn til þess að ná úr honum sulli; hann kenndi alls einskis sársauka meðan verið var að skera hann, en það stóð yfir í 4 mínútur. Honum var hvorki haldið á höndum nè fótum; hann hreyfði sig ekki vitund, ekki stundi hann og ekki brá honum á svipinn. Þegar hann var vakinn, mundi hann ekkert eptir því, sem fram hafði farið.

Drep var komið í annan fótinn á Hyderkhan; fóturinn var stýfður af honum um mitt lærið, og fann hann ekki neitt til sársauka.

Murali-Doss dró þungt andann, og hreyfði líkamann, meðan verið var að skera hann, enda

var hann mjög mikið skorinn; en ekki var að sjá á andlitssvip hans, að hann kenndi neitt til. Þegar búið var að vekja hann, hafði hann enga hugmynd um það sem fram hafði farið.

Hjá mörgum sjúklingum þótti mega sjá það á andlitssvip þeirra, að þá kenndi sárt til; þó sögðu þeir, þegar búið var að vekja þá, að þeir myndu ekki til þess, að þeir hefðu kennt nokkurs sársauka, meðan á skurðinum stóð; þeir mundu og ekkert til þess, að þeir hefðu verið skornir.

Það er því sannað, að Dr. Esdaile hafði hermt rétt í skýrslu sinni, og það virðist sem Hindúar mörgum fremur sé viðurtækilegir áhrifum svæfinganna; það er víst um það, að í Norðurálfuuni hefði mönnum ekki tekizt jafnvel við svæfða menn, og það er tæpast ætlandi, að menn í þessari heimsálfu treysti mikið upp á svæfingarnar til þess að gera menn tilfinningarlausa undir læknaaðgjörðir; því þótt svæfingarnar opt megi takast til þess, þá eru þær hvergi nærri óyggjandi, og þeir sjúklingarnir eru miklum mun færri, sem verða svo fullkomlega tilfinningarlausir, að tilfinnigarleysi þeirra sé treystanda.

Þegar átt hefir að venja ópíumsætur af ópíumsáti, þá hefir það gefizt vel að svæfa þá; eins hafa svæfingarnar reynzt vel, þegar þurft hefir að bæta geðsmuni þeirra, sem hafa haft bága geðsmuni. Einkum er það yfirburða auðvelt, að ráða lund barna til bóta. Dr. Bernheim segir þannig frá því, hvernig sér hafi tekizt að gera óþekka og lata stráka að þægðar- og iðnisbörnum, sem urðu foreldrum sínum til ánægju.

Það mætti telja enn fleira, sem svæfingarnar gætu komið að haldi við; en það sem talið hefir verið, er nóg til þess að sýna, hversu mikilvægt atriði það er í læknislistinni, að menn hafa komizt upp á það, að nota svæfingarnar til lækninga. Þessi lækningaaðferð hefir þann stóra kost til síns ágætis, að hún, viðhöfð af lækni, sem kann hana, aldrei getur komið að óliði. Dr. Liébeault, er hefir svæft meira en 6000 sjúklinga, hefir aldrei séð mein verða að svæfingunum, og sama segja þeir Dr. Bernheim og Dr. Voisin. En það er vafalaust, að svæfingarnar geta haft ill eptirköst, sé þær við hafðar af þeim, er ekki kunna til við þær, og hitt ekki síður, að það má misbeita þeim hróplega, og nota þær til voðalegustu illræða, og er þetta þeim mun hættulegra, sem það jafnaðarlegast mundi mjög erfitt, að komast fyrir slíkt. Það er sem sé sannreynt, að hægt er að skjóta í huga hverjum svæfðum manni hugmyndinni um hvaða glæp, sem vera skal; það má meira að segja koma því inn hjá honum, að hann skuli fyrirfara sjálfum sér; og sé sá, sem svæfa á, viðurtækilegur fyrir áhrif frá dávaldinum, fremur hann misverknaðinn alveg óafvitandi. Það hefir og komið fyrir, að níðinglega hefir verið farið með svæfða menn, og er það þeim mun auðgerðara, sem þeir gjörsamlega eru á valdi dávaldsins. Einu sinni komst það fyrir, að mannhundur einn, sem var læknir, níddist á einum sjúklinga sinna, er var kona, sem hann hvað eptir annað svæfði. Þegar hún var vakandi, hafði hún engan grun um meðferð mannfýlunnar á sér; en loksins fór svo, að hún varð þess vör, að hún

hafði orðið vanfær meðan maður hennar var frá heimilinu á langferð, og varð hún svo brjáluð jafnframt því að hún ól barnið.

það hefir opt áður í ritlingi þessum verið minnzt á Liégeois háskólakennara í Nancy, sem hefir samið afbragðsrit um svæfingarnar: De la Suggestion hypnotique dans ses rapports avec le droit civil et le droit criminel. Nancy 1885. (Um svæfingainnblásturinn, að því leyti sem hann snertir borgaraleg lög og sakalögin). Hann hefir gert margar tilraunir til þess að kynna sér, hvort hægt væri að fá svæfða menn til þess að skrifa undir víxlbréf, gjafabréf og því um líkt. Og með tilraunum sínum komst hann að því, að það mætti takast mæta vel. þannig kom hann því inn hjá mjög greindri konu, sem engan snert hafði af móðursýki, að hún væri í 1000 franka skuld við sig. Hún vildi reyndar lengi vel verjast því, að sætta sig við þessa hugsun, en samt tókst honum að lyktum að færa henni heim sanninn, og skrifaði hún undir ávísunarbréf upp á peningana. Annað skipti skaut hann þeirri hugmynd inn hjá henni, að hún hefði lofað manni sínum, sem var þar við staddur, að borga fyrir hann 100,000 franka skuld. Fyrst tregðaðist hún við því, en lét brátt sannfærast um það, að hann segði satt.

það er hætt við því, að svæfingunum kunni að verða misbeitt, einkum þar sem ræðir um arfleiðsluskrár og gjafabréf, og það er varla neinn vafi á því, að svæfingainnblæstrinum hafi opt verið beitt við gamalt fólk, eða þá sem hafa verið orðnir ístöðulausir og kjarklausir af veikindum eða því um

líku, til þess að fá þá til að semja slík skjöl; og eins er það hugsanlegt, að það megi takast fyrir innblástur eptir svæfingar að tálma því, að sá sem slíkt skjal hefir samið, skrifi undir það.

Í inngangsorðum ritlings þessa var bent á það, hversu auðgert það væri, að fá svæfða menn til þess að bera röng vitni fyrir dómi. Einkanlega eru það börn, sem hægt er að fleka þannig, og menn hafa þess mörg dæmi, að þetta hafi viðgengizt. Má til dæmis um það geta um hið illræmda Gyðingamál á Ungverjalandi, er fyrir fám árum varð svo tíðrætt um. Þar voru nokkrir Gyðingar um það sakaðir, að þeir hefðu drepið unga kristna stúlku, er Ester hét, og drukkið úr henni blóðið. Einn af þeim vottunum, sem hvað helzt bar böndin að Gyðingunum, var 10 ára gamall piltur, sonur eins þeirra manna, er fyrir sökum voru hafðir, og lýsti hann því mjög greinilega fyrir dómurunum, hvernig hann hefði séð föður sinn drepa stúlkuna. Seinna komst það fyrir, að dómari sá, sem tók próf í málinu, og sem var fáfrótt svolamenni, hafði með rannsóknum sínum gefið piltinum hugmyndina til þess, hvernig hann ætti að lýsa morðinu.

Að menn, sem svæfðir hafa verið, verði fengnir til þess að fremja morð, er alveg vafalaust, og skal að eins segja frá tveimur dæmum, sem tekin eru úr bók Liégeois háskólakennara.

Hann fékk ungri stúlku, sem hafði verið svæfð, svo að hún var sem í dái, skammbyssu, og bauð henni að skjóta móður sína, er þar var viðstödd.

Óðara en hún vaknaði, gerði hún það sem henni hafði verið boðið.

Ungum svæfðum manni fékk hann ofboð lítinn böggul, sem hvítt dupt er í, og lét hann hann vita, að það væri »arsenik». Hann skipaði honum svo, þegar heim kæmi til móðursystur sinnar, er hann var til húsa hjá, að hella duptinu í vatnsglas og gefa svo móðursystur sinni eitrið. Sama kveld fékk Liégeois bréf frá móðursystur mannsins, og segir hún honum frá, að systursonur sinn hafi gert allt svo sem fyrir var mælt.

Það mætti í fljótu bragði virðast mjög háskalegt fyrir mannlegt félag, ef það yrði mjög almennt að menn kynnu til svæfingar; en við voða þeim er sú bót í máli, að það er ómögulegt að fá þann mann svæfðan, sem ekki vill láta svæfa sig. Til þess að geta svæft nokkurn mann, þarf það, að hann láti það eptir, að hann sé svæfður, að minnsta kosti fyrstu skiptin, og hver sem vill láta svæfa sig, á hægt með að sjá svo fyrir, að einn eða fleiri vottar sé við, sem óhætt er að treysta. En þótt þannig varla sé við því að búast, að glæpir geti orðið framdir fyrir hjálp viljalausra svæfðra manna, er illræðismaðurinn brúkar sem verkfæri sín, nema að eins örsjaldan, þá ætti þó dómarinn ekki að gleyma því, að ekki er þetta ómögulegt, því illræðismanni, sem vel kann til svæfinga, mundi tæpast verða skotaskuld úr því, að finna einhvern nógu ístöðulausan, er léðist honum. Til þess að komast fyrir það, hvort maðurinn hafi verið svæfður, þarf ekki annað en að svæfa manninn aptur, og þá mun það því nær ávallt takast, að fá manninn til þess

að segja til hins sanna; en lögfróðir menn eru ekki samdóma um það, hvort til slíkra ráða megi taka fyrir dómi.

* * *

Hér að framan hafa verið leidd rök að því, að fyrirburðir þeir, er menn verða varir við, meðan svæfingardáið stendur yfir, stafa ekki frá neinum segulmögnuðum vökva, er les sig úr einum líkama í annan, heldur er allt komið undir innblástrinum; með öðrum orðum: fyrirburðirnir stafa af áhrifum þeim, er hugsun sú, er dávaldurinn hefir blásið í brjóst svæfða manninum, hefir á heila hans.

Í skjótu bragði virðist þetta ástand að öllu leyti ólíkt því, er menn eiga að sér. Þegar maðurinn er vaknaður, sér maðurinn það eitt, er í sannri raun er innan sjóndeildarhrings hans, og að því er sjá má, eru allar athafnir hans háðar vilja hans; en þó getur vel verið, að munurinn sé ekki eins verulegur og margir kynnu að ætla.

Margar af athöfnum vorum framkvæmum vér alveg ósjálfrátt, án þess að vilji vor eða vitund eigi nokkurn þátt í því. Mænan vinnur sín störf, án þess að vér höfum neitt af því að segja. Blóðrásin, andardrátturinn, næringin, hreifingar garnanna og fjöldi annara lífsstarfa eru framkvæmd án þess að það komi neitt til kasta vilja vors eða vitundar. Það er langt síðan vissa fékkst fyrir því, að áhrif geta borizt gegnum tilfinningartaug til mænunnar og frá mænunni aptur til hreyfingartaugar, án þess að fara um heilann. Þótt heilinn

sé tekinn úr froski, þá getur froskurinn allt að einu haldið áfram að bera fyrir sig limuna, svo sem honum mundi beztu gegna; láti maður leka dropa af edikssýru á skrokkinn á honum, þá sér maður að hann fer að hreifa fæturna, eins og til að reyna að nudda af sér dropann; ef klipið er í skinnið á honum, þá reynir hann til að forða sér. Í heilalausum froskinum getur starfsemi heilans ekki komizt að; en skepnan, sem er alveg meðvitundarlaus, getur þó framkvæmt þær athafnir, sem samsvara tilganginum. Margar af athöfnum vorum eru á líkan hátt framkvæmdar eptir eðlisleiðslu, án þess að vitund vor komi þar nærri, og margar af þessum athöfnum eiga rót sína að rekja til einhvers konar tilhneigingar til þess að stæla eptir því, sem vér sjáum að aðrir menn gera, án þess að vér þó getum gert oss glögga grein fyrir því, að eptirhermufýsin sé undirrót þessara athafna. Greinilegast má taka eptir þessu á börnum, meðan hinni sjálfstæðu starfsemi heilans ekki er fullfarið fram hjá þeim, og það er einnig einkum á börnum, að hægt er að veita því eptirtekt, hve auðvelt veitir að smeygja hugmyndum og hugsunum inn í hinn vakanda heila og koma til leiðar athöfnum, er svara til hugsananna. Ef maður t. a. m. kemur þeirri ímyndun inn hjá einhverjum, að hann hafi stigið fætinum ofan í maurabú, og að á bakinu á honum sé krökt af maurum, þá mun svo fara fyrir flestum, að þeim finnst sem maurar sé að skríða um sig; meira að segja: sumum finnst ekki betur en að sig kenni til undan stungum þessara ímynduðu kvikinda. Allir vita það af

eigin reynslu, að þegar einn fer að geispa, þá vill flestum verða það sama; taugakippir, St. Vitusdans, móðursýkiskynjaðir sinadrættir hafa líka verkun; það eru sumir menn, sem eiga ómögulgt með að verjast neinu þessu, ef þeir sjá einhvern annan fá það. Nú bætist og það við þetta, að flestum er svo háttað, að þeim verður það fyrr fyrir, að hlýða skipunum þeim, sem þeim eru gefnar, heldur en að setja sig á móti þeim, hvort sem það nú er af því, að þeim er það áskapað að vera svona ósjálfstæðir, eða af því, að uppeldið hefir gert þá svo. Því er vant að fara svo, ef einhver segir, þar sem margir eru saman komnir og eru að tala saman: Látið aptur augun, að flestir hlýða því alveg óafvitandi, og láta sér ekki til hugar koma að hugsa um það, hve fjarstæð slík skipun er. Bezt tekst þetta við menn, sem eru vanir því að hlýða öðrum, en þegar heilinn er sljófgaður og meðvitundin sofnuð, þá getur ekki heldur kjarkmaðurinn varizt því að hlýða; annars manns vilji og hugsanir stjórna honum, og hann vinnur ósjálfrátt og meðvitundarlaust það, sem fyrir hann er lagt.

Þetta tvennt, eptirhermufýsin og hlýðnistilhneigingin, ræður nú miklu um og má enda teljast aðalorsakirnar til svæfingardásins. Þess var fyrr getið, hversu orð dávaldsins smeygja hugsuninni um svefn inn hjá þeim, sem reyna á að svæfa. Hann sofnar stundum að eins af því, að dávaldurinn skipar honum það, og stundum styrkir það til, að hann ímyndar sér, að hann eigi fái staðið á

móti vilja dávaldsins; hann hljóti því að sofa. Mörgum verður hægara fyrir að sofna, þegar þeir hafa séð svæfingarnar reyndar á öðrum; sjálfur hefi eg séð í samkvæmi, þar sem eg svæfði tvo menn, að kona ein féll í svæfingardá, án þess að neinn hefði reynt til að svæfa hana, að eins af því, að hún sá aðra sofna.

Þegar heilinn er sljófgaður og meðvitundin dofnuð, þá er sá, sem svæfður er, orðinn eins og hver önnur viljalaus vélbrúða í höndum dávaldsins. Hann getur ekki staðið á móti hugsunum þeim, sem dávaldurinn blæs honum í brjóst, og það þótt hann sé ekki fast svæfður. Skynsamir og greindir sjúklingar, sem ekki eru nema laust svæfðir, og sem því geta gert sér fulla grein fyrir því, sem fram fer, meðan þeir eru í mókinu, skýra svo frá ástandi sínu, að þeir finni til einhvers höfga í öllum limum, er geri sér það ómögulegt, að hreifa legg eða lið. Þótt þeir verji sér öllum til, geta þeir ekki svo mikið sem lypt upp augnalokunum, svo lengi sem dávaldurinn segir þeim, að þeir geti ekki lokið þeim upp. En þegar dávaldurinn segir: Ljúktu upp augunum, þá er eins og létti af þeim fargi, og þeir fá þá aptur stjórn á augnavöðvum sínum.

En hvaða breytingar á störfum heilans eru það, sem valda þessum fyrirburðum? Þessu er enn ekki hægt að svara; margar eru lærdómsáætlanirnar, sem gerðar hafa verið, en engi þeirra hefir náð því, að menn almennt aðhylltust hana. Sumir hafa reynt að gera sér þetta skiljanlegt fyrir þá sök, að einhver óregla kæmi á blóðrásina í heil-

anum (Rumpf.). Preyer hefir komið með þá kenningu, að líming hugsunarinnar við eina einstaka hugmynd hefði í för með sér sterklega örvaða starfsemi heilalífagnanna; af þessu leiddi myndun efna, er hefðu svæfandi verkun, af því, að þau gleyptu í sig eldi heilans. Þessi orð kunna nú að vera fögur á að líta, en til fróðleiks eru þau ekki girnileg. Heidenhain þóttist geta skýrt allt fyrir sér af því, að það vantaði nægilega blóðsókn að heilanum; en hann hefir horfið frá þeirri ætlan eptir að hann þóttist kominn að sannri raun um það, að hjá svæfðum mönnum væri blóðsóknin að heilanum heldur meiri en minni en vanalega, og nú er hann farinn að hallast að skoðun Browns og Séquards, er vilja skýra þessa svæfingarfyrirburði fyrir sèr með því, að gera ráð fyrir einhverri hömlun á starfsemi heilans. Prosper Despine segir: »Svæfingarleiðslan er nokkurs konar svefn, og er, meðan á honum stendur, hið vitundarlausa líf heilans örvað, en vitundarlíf hans annaðhvort að öllu leyti eða að nokkru leyti slokknað». Þessi skýring hefir það til síns ágætis, að hún leiðir mann ekki í neinar gönur; hún skýrir sem sé alls ekkert.

Á þessu má sjá, að um þetta mál lízt sitt hverjum. Og þarf engan að furða á því, að svo sé, ef menn að eins vilja gæta þess, að um eðli heilans er oss enn að miklu leyti alveg ókunnugt, þrátt fyrir hinar mörgu ágætu uppgötvanir, sem gerðar hafa verið í líffærafræðinni á seinni árum. Nákvæm rannsókn svæfinganna og þeirra fyrirburða, er þeim eru skyldar, kann, ef til vill,

að stuðla til þess, að það verði betur kunnugt; en það er ekki enn orðið.

*(Þorvaldr Bjarnarson).*

---

# Kvæði.

## Sorgarvísur.

Vísur þessar eru hjer prentaðar eptir 2 handritum í safni Jóns Sigurðssonar, 398. 4to og 258. 4to, og eru þau að mestu leyti samhljóða. Er hið fyrtalda þessara handrita nokkru eldra og líklega ekki yngra en frá síðustu aldamótum; segir þar, að vísurnar hafi verið „kveðnar í stórum steini manni þeim áheyrandi, er Fiðlu-Þorbjörn kallaðist, og eptir þríkveðið hvert stef nam hann kvæðið“; eptir þessu handriti er fyrirsögnin tekin. Enn fremur er höfð hliðsjón af þætti af Hálfdáni Fellspresti Narfasyni († 1568), 10. kap., eptir Gísla Konráðsson (J. S., 303. 4to); segir hann, að Fiðlu-Björn, er hann svo nefnir, systursonur prests, hafi eitt sinn verið á ferð í dimmviðri milli bæja tveggja í Skagafirði, Daufár og Reykjavalla, og orðið að láta fyrirberast þar undir stórum steini, tekið upp fiðlu sína og leikið á hana sjer til skemmtunar; er hann hafði leikið ekki allskamma hríð á fiðluna, heyrir hann vísur þessar kveðnar í steininum. Eptir þættinum, sem í vantar þriðju vísuna, hafa þeir látið prenta kvæðið Konrad Maurer í Isländische Volksagen. Leipz. 1860, 136—137 bls., og Jón Þorkelsson í Digtningen på Island i det 15. og 16. århundrede. Kh. 1888, 200. bls.

Vísum þessum, sem að mínu viti má telja gimstein íslenzks alþýðukveðskapar frá siðbótartímunum, svipar

eigi alllítið til þessara einkennilegu og fögru vísna í Hamðismálum:

Spruttu á tái
tregnar íðir,
græti álfa
in glýstömu;
ár um morgin
manna bölva
sútir hverjar
sorg um kveykva.

Einstœð em ek orðin,
sem ösp í holti,
fallin at frændum
sem fura at kvisti,
vaðin at vilja
sem víðir at laufi,
þá er in kvistskœða
kemr um dag varman.

*P. P.*

---

Mjer verður fuglsins dæmi,
er fjaðralaus kúrir,
skríður skjótt að skjóli,
skundar veðrum undan,
týnir söng og sundi,
sína gleðina fellir.
Svo kveður mann hver, þá mornar,
mæddur í raunum sínum.

Mjer verður skipsins dæmi,
er skorðulaust hvolfir
eitt við æginn kalda,
engan stað fær góðan,
rís við brattar bárur,
í briminu illa þrymur.
Svo kveður mann hver, þá mornar,
mæddur í raunum sínum.

Mjer verður hússins dæmi,
sem í hallri brekku stendur,
búið er brátt muni falla,

böl í skap er runnið,
svigna súlur fornar,
en salviður bognar.
Svo kveður mann hver, þá mornar,
mæddur í raunum sínum.

Mjer verður hörpunnar dæmi,
þeirrar sem á vegg hvolfir
stjórnarlaus og strengja,
stillarinn er frá fallinn,
fellur á sót og sorti,
saknar manns úr ranni.
Svo kveður mann hver, þá mornar,
mæddur í raunum sínum.

# Henry Morton Stanley

Eptir

O. Irminger

*kaptein.*



Árið 1888 mátti telja merkisár í sögu landafræðinnar, því að á því ári gat elzta landfræðingafélag í heimi haldið 100 ára afmœli sitt, en þetta landfrœðingafélag er «afríkanska fjelagið», sem árið 1788 var stofnað á Englandi, og komst við stofnun þess rekspölur á landkannanir í Afríku með nokkru ráði gerðar. Landafundir hins fræga siglingamanns Cooks, er hvað eptir annað hafði siglt í kringum hnöttinn, hafði þá vakið áhuga manna á landakönnunum; og sá maðurinn, sem var lífið og sálin í afríkanska félaginu, var Sir Jóseph Banks, er hafði verið með Cook á fyrstu ferð hans sem náttúrufrœðingur. Það sem afríkanska félagið hafði sett sér fyrir mark og mið, var það, að stuðla til landkannana í innanverðri Afríku, og það voru engar öfgar, það sem sagt var um það leyti, sem félagið var stofnað, því að fyrir mannsaldri mátti enn segja það með fullum sanni: að á landabréfi væri innanverð Afríka ekki annað en ein stór hvít skella, þar sem ekkert sæist á annað en nafn á einstöku ám, en um stefnu þeirra vissu menn ekkert, og á

stöku þjóðflokkum, sem mönnum væri allt eins ókunnugt um».

En líti menn nú á uppdrátt af Afríku, þá sést það glögglega, að á þessu er orðin talsverð breyting; að vísu eru enn auðir kaflar á uppdrættinum, en það má nú fremur telja þá smádíla en stórskellur; nú vita menn um upptök Nílar og rennsli hennar, er menn svo þúsundum ára skipti höfðu verið í vafa um; sama er að segja um hið afarvatnsmikla Kongófljót, og aðrar stórár. Á síðasta mannsaldri hafa og fundizt hin geysimiklu stöðuvötn, er liggja á hásléttu Austur-Afríku; úr tveimur þeirra hefir Níl upptök sín, og er og hið stærra þeirra tvöfalt stærra en hafið milli Jótlands og Hallands, er Danir kalla Kattegat, og skjótt að segja hafa kynni vor af «myrka meginlandinu», er Stanley kallar Afríku, mjög aukizt við ferðir, er farnar hafa verið til landkannana, og margar þeirra svo frægilegar, að orð hefir af farið um allan heim, svo að vorir dagar eru orðnir ný landakannana öld.

Meðal hinna mörgu frægu manna, sem á vorum dögum hafa átt beztan þátt í því að svipta af hjúp þeim, er um svo langar aldir hafði fólgið Afríku innanverða, er Stanley einn meðal hinna frægustu. Það hefir oftar en einu sinni komið fyrir, að hann hefir með framkvæmdum sínum gjört þá kynslóð, er nú lifir, alveg forviða; opt hefir svo borið undir, að menntaðir menn um allan heim hafa með óþreyju beðið fregna frá honum. Hann hefir hvað eptir annað verið sá maður, er mönnum hefir verið tíðast um í Parísarborg, Lundúnum, Berlin og Nýju- Jórvík, og með sínum fjörlegu ferðasögum hefir

hann gagntekið og gjört sér hugfangna þá, sem lesið hafa, hundrað þúsundum saman, jafnt karla sem konur, unga sem gamla. Allir þekkja nafn Stanleys. Það, sem nú skal segja, á að vera ágrip af æfi þessa mikla athafnamanns, er átt hefir í svo mörgum ótrúlegum þrautum.

Stanley hefir opt verið kallaður Ameríkumaður; en hann er ekki borinn og barnfæddur í Ameríku; og að upphafi hét hann ekki heldur Stanley; hann var upphaflega nefndur John Rowland, og fæddist árið 1840 í bænum Denbigh í Wales. Þegar hann var tvævetur, dó faðir hans, og var hann frá því uppalinn í hæli fyrir munaðarlaus börn. Menn í því bygðarlagi, sem enn muna eptir Jóni litla Rowland, segja svo frá, að hann í uppvextinum hafi verið einkar vel laginn til þess að nema reikningslist og landafræði, og að hann hafi verið einbeittur í lund, en dulur og þegjandalegur. Þegar hann var 13 vetra, tók einn af frændum hans hann til sín, er átti heima í öðrum bæ á Englandi; þar var það mesta yndi hans, að lesa ferðasögur; hann hafði mikinn hug á að komast til Ameríku; hún var hans «fyrirheitna land»; og sextán vetra gamall fór hann til Liverpool, til þess að fara þaðan úr landi. Marga daga ráfaði hann um í stórborg þessari allslaus, en tókst loksins að komast út á skip, sem átti að fara til Nýja Orleans, og réð sér far með því, þannig, að hann ynni fyrir farinu.

Þegar til Nýja Orleans kom, lagðist honum það til, að hann komst að skrifarastörfum hjá velefnuðum kaupmanni, er hét Stanley. Húsbóndi hans fékk smámsaman svo miklar mætur á honum,

fyrir það hvað hann var kappsamur við það, sem hann átti að gjöra, að hann tók sér hann í sonar stað, og þannig atvikaðist það, að hann fékk Stanleys nafnið, sem síðan er orðið svo frægt fyrir landakannanir hans í Afríku. Hérumbil um sama leytið sem borgarastríðið mikla hófst á milli Bandaríkjanna í Norðurameríku, dó nú þessi verndarmaður hans snögglega og hafði ekki gjört neina eignaskipun; réð því Henry Morton Stanley, er þá hafði einn um tvítugt, það af, að gjörast hermaður í liði suðurríkjanna; hann var í mörgum orustum, en árið 1862 var hann handtekinn; en honum tókst að strjúka úr varðhaldinu; sendu þó þeir er áttu að gæta hans, óspart kúlur á eptir honum; hefir hann seinna meir svo sagt frá í gamni, að það sem þá hefði orðið sér til lífs, hefði verið það, að hann var svo horaður, að ekki var hægt að hæfa hann. Nú varð hann um stund að hafast við sem strokumaður, og var það ekkert sældarlíf, þar sem hann mátti óttast að hann kynni að þekkjast aptur, og til þess að losa sig úr öllum vanda, réðst hann öndverðlega á árinu 1863 í þjónustu á einu af herskipum norðurfylkjanna, og átti hann eptir stutta stund því láni að fagna, að verða skrifari skipstjórans; og þetta var ekki eina lánið hans; hann varð skrifari hjá flotaforingja, og var loks gerður að liðsforingja fyrir hugrekki þá, er hann sýndi í sjóorustu einni. Skömmu eptir að friður komst, á sagði hann sig úr herþjónustunni og fór að gefa sig við blaðamennsku.

Stanley gjörðist fréttaritari fyrir 2 ameríkönsk stórblöð, og til þess að geta skrifað fréttir um styrj-

öld eina, er Bandaríkin áttu í við Indiana, fór Stanley með her þeim, er gjörður var út á hendur þeim. Hann sparði þá ekkert til þess, að ekki þyrfti að standa á því að fréttirnar mættu komast sem greiðlegast og vera sem sögulegastar frá vettvanginum, og fékk hann því brátt mikið orð á sig fyrir dugnað sinn, og varð það til þess, að ritstjóri hins heimsfræga blaðs New- York- Heralds bauð honum beztu kosti til þess að hann gjörðist «fljúgandi» fréttaritari þess blaðs.—Eitt með öðru til dæmis um það, að hann lét sér ekki allt fyrir brjósti brenna, var það, að hann einu sinni í þessari Indíanastyrjöld lét berast langar leiðir á timburflota niður eptir einni af þveránum, er renna í Missouri, til þess að geta komið sem greiðast á framfæri fréttapistlunum sínum. — Sem fréttaritari New- York- Heralds fór Stanley með her Englendinga, þeim er fór á hendur Teódór Abessyníukeisara árið 1867—68; hann var þar við, er borgin Magdala var tekin og Teódór keisari lét lífið, og þá lék Stanley það, sem þá um stund var mjög rómað. Fregnin um þessi stórtíðindi, sem leiddu til lykta herferðina í Abessyníu, var prentuð degi fyrr fyrir vestan Atlanzhaf, í New- York- Herald, en hún kom til Lundúnaborgar frá foringjasveit enska hersins í Abessyníu; svo mikið kapp lagði Stanley á það, að fréttirnar frá sér hefði greiða ferð.

Frá Afríku var Stanley sendur til Spánar. Í Madríd fær hann málþráðarskeyti um það, að koma til Parísarborgar til þess að tala við herra Gordon-Bennett, ritstjóra New- York- Heralds. Það sem gerðist, þegar þeir Stanley og Gordon-Bennett

fundust, réð stefnu þeirri, er líf Stanleys tók upp frá því.

Stanley segir svo frá í hinni alkunnu ferðasögu sinni: «Um það hvernig eg fann Livingstone»:

Sextánda október 1869 var eg staddur í Madrid; eg var þá nýkominn þangað frá róstunum í Valencíu, og þá fæ eg 2 stundum fyrir hádegi vírskeyti frá Gordon-Bennett yngra: «Komdu til Parísarborgar; mikilvægt er erindið».

Eg var á svipstundu ferðbúinn, og þegar eg hafða kvatt kunningja mína, fór eg um nónbil á stað frá Madrid með hröðustu eimreiðinni, en af því að nokkurra stunda bið varð á í Bayonne, þá komst eg ekki til Parísarborgar fyrr en kveldið eptir; eg fór rakleiðis upp í « Grand Hôtel» og ber þar að dyrum hjá herra Bennett.

Eg heyrði að sagt var: «Komdu inn». En þegar eg kom inn, var Bennett kominn í rúmið.

«Hver er þetta?» segir hann. Eg segi: það er Stanley. «Já, já, eruð það þér, setjizt þér niður. Eg hefi handa yður dálaglegt erindi»; og um leið og hann kippir sér í slopp, segir hann við mig: «Hvar haldið þér hann sé, hann Livingstone?»

«Það veit eg satt að segja ekki».

«Haldið þér hann sé lifandi?»

«Það er hvorutveggja til um það», sagði eg.

«Já, en eg held nú að hann sé lifandi, og að það megi takast að finna hann, og mér er í hug að senda yður út af örkinni til þess að finna hann».

«Hvað er að tarna?» sagði eg; «getið þér ímyndað yður að mér takist að finna Livingstone? og

ætlið þér mér að taka mér ferð á hendur inn í miðja Afríku?»

«Já, mér er það fast í hug að þér farið og finnið hann, hvar svo sem þér heyrið að hann sé staddur; hver veit líka nema blessaður karlinn sé hjálparþurfi — svo að þér verðið að búa yður svo vel út, að þér getið hjálpað honum, ef hann er hjálparþurfi. Það er sjálfsagt, að þér þurfið ekki að horfa neitt í kostnaðinn; en finnið þér hann Livingstone».

Eg varð hissa á því, hvað herra Bennett gat verið rólegur, rétt eins og ekkert væri um að vera, þegar hann var að skipa mér að fara til Afríku til þess að leita þar að manni, sem eg og þvínœr allir menn hugðu dáinn og dottinn úr sögunni. Eg spurði samt: «Hafið þér íhugað svo sem skyldi hinn mikla kostnað, sem að öllum líkindum mundi verða samfara þessu ferðalagi?»

Hann spurði mig aptur stuttlega: «Nú, hvað ætlið þér að kostnaðurinn kynni að verða?»

«Ferð þeirra Burtons og Speke's inn í Mið-Afríku kostaði eitthvað á milli þriggja og fimm þúsunda punda, og eg get ekki ímyndað mér, að hægt verði að fara þessa ferð fyrir minna en 2500 pund sterling».

«Það er nú svo; en nú skal eg segja yður, hvernig þér eigið að fara að; takið þér nú samstundis við 1000 pundum, og þegar þau eru gengin upp, þá skuluð þér fá önnur þúsund pund, og þegar þau eru eydd, þá enn eitt þúsund, og svona skuluð þér láta það ganga; en finnið þér hann Livingstone».

Eg varð reyndar hissa á þessari skipun, en lét það þó hvergi á mig fá, því eg vissi það vel, að þegar herra Bennett hafði tekið eitthvað í sig, þá var það ekki svo auðgjört að fá hann ofan af því, sem hann hafði ætlað sér; samt ímyndaði eg mér að hann væri ekki rækilega búinn að íhuga það sem mælti með og mót þessari hans meira en stórmannlegu fyrirætlun; ég sagði því við hann: «Menn eru að bera það upp í sér, að þér munduð selja New- York- Herald, og hætta við alla blaðamennsku, ef föður yðar missti við».

«Það er alveg tilhæfulaust, hver svo sem segir það, því í Nýju- Jórvíkurbæ er ekki nóg fé til þess að kaupa New- York- Herald. Faðir minn hefir útvegað blaðinu mikinn kaupendafjölda, en eg mun svo um sjá, að það fái miklu fleiri kaupendur. Eg ætla að gjöra það að fréttablaði í orðsins sanna skilningi. Eg ætlast til, að það skuli geta flutt hverja þá frétt, er mönnum geti verið forvitni á að heyra».

«Þá er öðru máli að gegna», sagði eg; «ætlizt þér þá til þess, að eg fari nú rakleiðis til Afríku til þess að leita að Livingstone?»

«Nei. Fyrst vil eg að þér farið og séuð við þegar Súezskurðurinn verður opnaður; síðan skuluð þér fara upp með Nílá. Samúel Baker er nú að búa ferð sína til Suður-Egiptalands. Verðið þér sannfróður um allt, sem hægt er að fá að vita um ferðalag hans, og meðan þér eruð á leiðinni þangað suðureptir, skuluð þér lýsa svo vel sem unnt er, öllu því, er ferðamönnum gæti verið forvitni á að sjá. Svo skuluð þér semja handhægan leiðarvísi fyrir ferðamenn um Norður- Egiptaland, og segið svo

frá öllu, sem þar er vert að sjá. Að því búnu er réttast að þér farið til Jerúsalem; þar er verið að róta í rústum og grafa til að kanna hið forna borgarstæði; þér getið litið eptir því. Farið þér svo til Miklagarðs og reynið að hafa sannar sögur af því, hvernig á málum stendur milli soldáns og kedíva (Egiptakonungs)».

«Já — bíðum nú við —, svo er bezt að þér skreppið norður á Krím og komið þar á hinar fornu orustustöðvar. Síðan skuluð þér fara austur um Kákasus austur að Kaspíhafi, því eg heyri þess getið, að Rússar séu einmitt nú að búa út leiðangur til Kíva. Frá Kaspíhafi getið þèr svo farið yfir Persaland til Indlands. Á þeirri leið getið þér svo sent oss skemmtilegt bréf frá Persepolis».

«Á leiðinni til Indlands liggur leiðin ekki ýkjalangt frá Bagdað; það væri ekki svo afleitt að leggja lykkju á leið sína þangað, og skrifa oss eitthvað um hina fyrirhuguðu járnbraut upp Efratdalinn. Þegar þér eruð kominn til Indlands, þá fer að verða mál til þess komið, að þér úr því farið að svipast að honum Livingstone. Hver veit nema þér, þegar þar að kemur, fréttið til þess, að Livingstone sé á leiðinni austur að Sansibar; en verði það ekki, þá farið þér inn í Afríku og finnið hann, ef hann er lífs; hafið svo sannar sögur sem þér getið af landakönnunum hans; og ef hann er dáinn, þá færið þér allar þær sönnur, sem hægt er, á það mál. Þetta er nú allt og sumt. Góðar nætur og guð veri með yður».

«Góðar nætur», sagði eg; «eg skal gjöra allt það

sem á mannlegu valdi er; til slíks erindis mun drottinn leggja blessun sína».

Við þetta skildu þeir Bennett og Stanley. Fréttaritari New- York- Heralds fór eins og fyrir hann var lagt, og 6. janúar árið 1871 kom hann til eyjarinnar Sansibar, er liggur skammt undan austurströnd Afríku hér um bil 90 mílum fyrir sunnan jafndægurshring.

Það var stórmikið ætlunarverk, er Stanley hafði tekizt á hendur. Hann hafði að vísu fengizt við margt, það sem af var æfinnar, og hann hafði rakklega rekið ýms erindi, er blað hans hafði fengið honum; en nú átti hann að verða Afríkufari, og leita að manni, sem ekki var vísara á að róa en það, að hann var einhverstaðar inn í ókunnum löndum Afríku. Menntaðir menn um allan heim biðu með óþreyju eptir fréttum af Livingstone gamla, þessum göfuga Skota, sem er sannnefndur «postuli Afríku», þar sem hann hafði helgað æfi sína því, að kanna lönd í þessari heimsálfu, og bæta kjör hinna líttsiðuðu þarlendu þjóða. Livingstone hefir nú fengið legstað sinn í klausturkirkjunni í Westminster, þar sem frægustu menn Englendinga fá legstað sinn, en þá var hann í langferð þeirri, er síðust varð allra hans ferðalaga. Öndverðlega á árinu 1866 hafði hann lagt upp frá ströndinni vestur af Sansibar eitthvað vestur í Afríku, og þegar Stanley kom til Afríku höfðu liðið svo tvö ár, að ekkert hafði til hans spurzt, svo að meðal menntaðra þjóða voru allir í vafa um, hvort hann væri lífs eða liðinn. Og mönnum var þá enn meiri hugur á því, að fá einhverjar fréttir af Livingstone

en mönnum nokkurn tíma er nú á því að fá fréttir af Stanley, og er þá mikið mælt; en að útvega sannar fréttir um annað eins er enginn hægðarleikur fyrir neinn mann, hvað mikill ferðagarpur og fullhugi sem hann er. Landshættir allir í Afríku eru svo, að ferðalög þar eru afar-torveld, og árið 1871 voru erviðleikarnir allir meiri en þeir eru orðnir nú orðið. Frá eyjunni Sansibar, sem Stanley var kominn til, hafa margir Afríkufarar lagt upp í landakannanir sínar. Yfir eyjunni ræður soldán Arabakyns, og þóttist hann þangað til nú fyrir rúmum tveimur árum, hafa ráð yfir löndum þeim, er liggja á ströndinni gegnt eyjunni. Ríki hans, þegar upp á meginland Afríku kom, hefir samt ávallt verið nær einverðungu að nafninu til, hvað lítið sem frá sjó hefir dregið; en Arabar hafa stofnað nýlendur langt uppi í landi, og hefir nýlenduliðið það að öllum jafnaði talið Sansibarsoldáninn yfirmann sinn. En nú er sú breyting á orðin, að Sansibarsoldáninn á ekki ráð á nema örmjórri ræmu á austurströnd Afríku, tveggja mílna breiðri, og hafa þó Evrópu-ríkin áskilið sér þar ýms mikilsvarðandi réttindi; en um lok ársins 1886 lýstu Englendingar og Þjóðverjar því yfir, að þeir fyrir eigin hagsmuna sakir ekki gæti látið afskiptalaust, hvernig að færi um hið mikla landflæm milli strandarinnar og stóru stöðuvatnanna vestur á meginlandi Afríku, í samningi er þeir gerðu við soldáninn, er hlaut að sætta sig við allt það, sem þessi stórveldi vildu vera láta. Frá Afríkuströndinni gagnvart Sansibar liggja ýmsar leiðir vestur á meginland Afríku, sem einkum eru farnar af arabiskum

kaupmönnum er verzla með fílabein og þræla, og eyan Sansibar er meginstöð verzlunarinnar á Austur-Afríku, og þar geta Afríkufararnir búið sig að öllu því er þeir þurfa til ferða sinna.

En þessi útbúnaður Afríkufaranna hlýtur að vera töluvert einkennilegur. Í þeim byggðarlögum Afríku, sem þessar frásögur koma við, eru engir vegir; en frá þorpi til þorps liggja götuslóðir, svo mjóar, að ekki eru nema einstigi, svo að hvað stór sem lestin er, fara allir í einni halarófu. Allt sem flytja þarf hljóta menn að bera. Það hefir verið reynt að hafa áburðargripi, bæði hesta, asna og uxa, en þær tilraunir hafa allar misheppnazt, og veldur því einkum flugnategund sú, er tsetse-fluga er kölluð, en þar sem hún á heima, drepazt hestar og nautpeningur. Belgakonungur reyndi til að brúka fyrir áburðargripi fíla, er hann fékk sér frá Indlandi; voru það dýrir áburðargripir, og komu að engu haldi, og olli það mest, að ekki var hægt að afla þeim hæfilegs fóðurs. Vér vitum að vísu af fornum sögum, að Afríkufíllinn til forna var taminn í Norður-Afríku, en þaðan er hann nú horfinn; og nú sem stendur er ekki til í Afríku einn einasti taminn fíll, enda er það bæði umsvifamikið og kostnaðarsamt að temja fíla, og ekki við því að búast, að menn hafi komizt upp á það um Mið-Afríku, jafn skammt og menn eru þar á leið komnir í öllum greinum.

Það verður þá að tjalda því sem til er; maðurinn verður þar að koma í stað burðardýranna, og á Sansibar má fá til leigu menn, sem eru fúsir til að bera farangur Afríkufaranna, hvort sem þeir

fara til kaupskapar eða annara erinda, lengst inn í land. Burðarmenn þessir bera á höfði sér bagga, sem eru þetta frá 6 til 7 fjórðungar á þyngd. Þar sem búast má við margra mánaða ferðalagi, þá þarf að vera mjög vel um búið vörur þær, sem eru í böggunum, svo að þær skemmist hvorki af harðhnjaski því er þær hljóta að verða fyrir í meðferðinni hjá burðarmönnunum, né þá af illviðrum; það kemur ósjaldan fyrir, að baggarnir fara í kaf, hvað lítið sem burðarmanninum verður fótaskortur, þegar hann þarf að vaða ár, sem ná honum upp í höku, eða hann verður að stikla eptir trjábol, sem bilt er yfir ána, því þar eru engar ár brúaðar, svo að brú verði kallað.

Það þarf ekki að teljast neitt furðanlegt, að menn ekki þekkja neitt til gangsilfurs í landi, þar sem engir eru vegir og engi burðardýr, en það eitt með öðru er einnig til þess að auka erfiðleikana við langar Afríkuferðir; því sá sem ætlar að ferðast þar í landi, verður, áður en hann leggur upp, að kaupa sér varning af ýmsu tagi, til þess að láta fyrir vistir og annað er hann kann að þarfnast fyrir á leiðinni, og er auðsætt, að ekki veitir af að hafa mikinn fjölda af burðarmönnum, ef menn ætla að leggja upp í langferð, sem búast má við að standi yfir svo missirum eða árum skipti. Og það er ekkert neitt smálítið af vörum, sem Afríkufarinn þarf að hafa með sér umfram það, sem annars mundi þurfa, fyrir það að smákonungar og höfðingjar í Afríku, þó ekki eigi þeir yfir að ráða nema einu þorpi, heimta sér toll fyrir það, að þeir leyfa að fara um land sitt. Það væri mesta óráð fyrir lestamennina, að ætla sér

að staðaldri að hafa þann sið, að brjótast áfram með valdi til þess að þurfa ekki að borga tollinn, því þótt aldrei nema svo væri, að ferðamenn, vel vopnum búnir, bæri hærra hlut en þarlendir menn illa vopnaðir, ef þeir mætti treysta hermönnum sínum og burðarmönnum, en því er valt að treysta, þá eru þeir alla daga upp á þarlenda menn komnir með leiðsögu og vistaföng.

Þessi sífellda tollheimta er annars ljóta gamanið fyrir Afríkufarana; kostnaðurinn er nú fyrir sig; en tafirnar sem af því verða eru óþolandi; það verður stundum að sitja fjarska lengi yfir því, að semja um það, hvað tollurinn eigi að vera hár, og verður það opt til ama og ónota fyrir vesalings ferðamanninn, sem getur fengið sig fullsaddan á því á ferðalaginu. Það er ekki tekið út með sitjandi sældinni, að ferðast í Afríku. Ferðamaðurinn verður að sjá öllu liði sínu fyrir vistum, vera læknir þess og leiðtogi, en það er enginn hægðarleikur að halda hópnum saman. Burðarmennirnir reyna opt til að strjúka, og það er ekkert gaman fyrir þann sem fyrir hvern mun þarf að halda áfram að sjá baggana sína liggjandi, og geta ekki útvegað sér neinn mann til þess að bera þá, en þó tekur út yfir þegar burðarmaðurinn strýkur með bagg-ann sinn, og það kannske þann baggann, sem það var í, sem ferðamanninum var mest eptirsjón í.

Þegar Stanley kom til Sansibar, varð hann að kynna sér allt þetta og þvíumlíkt, er að Afríkuferðum laut, því að hann var því alveg ókunnugur áður, og hafði hann í ráðum með sér arabiska kaupmenn, sem sjálfir voru vanir að gjöra út lest-

ir vestur í Afríku. Þegar kemur inn í Afríku, þá eru baðmullardúkar, glertölur og eirvír beztir gjaldaurar, og Stanley var sagt, að hann mundi geta fengið eins dags vistir fyrir 100 manns fyrir hérumbil 50 álnir; hann bjóst nú við að verða 2 ár á ferðinni, og keypti rúmar 40 þúsundir álna af baðmullardúkum, sem mestmegnis voru fremur lélegir; glertölurnar þurftu að vera mjög mismunandi að stærð og litum, því sitt hæfði hverjum þjóðflokki, og eptir langar ráðagerðir keypti hann 22 poka af glertölum, og voru í þeim 11 mismunandi talnategundir að lit og stærð. Eirvírinn þurfti að vera viðlíka gildur og algengur málþráðavír; af honum keypti hann 350 pund. Auk þess þurfti hann að kaupa sér öll þau kynstur af hinu og þessu, sem til ferðarinnar þurfti: gjafir handa höfðingjunum, byssur, skotföng, meðul, vistir, bát sem taka mátti í sundur, segldúk, eldsgögn o. s. frv., o. s. frv.

Þegar Stanley var búinn að kaupa allt sem hann þóttist þurfa, þá fann hann það, að farangurinn var orðinn 11000 punda að þyngd, og til þess að bera það þurfti hann hérumbil 160 manns.

Nú þurfti að fara að ráða menn til ferðarinnar; réð hann þá fyrst 2 enska sjómenn, er ekki voru þess ófúsir að fara í þessa skrítnu ferð. Síðan þurfti hann að ráða sér til fylgdar hérumbil 20 áreiðanlega menn; meðal þeirra voru fáeinir, er fyrr höfðu verið í ferðalagi vestur í Afríku með Norðurálfumanni; en misjafnlega reyndust sumir þessara manna; og þá var eptir að ráða burðarmennina.

Á Sansibar var Stanley mánuð, og vann þar af kappi að því að búa sig út til ferðarinnar, og að því

búnu fer hann til meginlands til borgar þeirrar er Bagamajo heitir; þaðan ætlaði hann að leggja upp þegar hann væri búinn að búa upp á lestina; en þar átti hann í stökum vandræðum með að búa um faranguriun og útvega sér burðarmenn; loksins lagði hann upp þaðan 21. marz 1871, 73 dögum eptir að hann kom til Sansibar; hafði hann þá með sér 46 menn, en á undan sér hafði hann sent meginlestina í 4 flokkum, er hann lét fara af stað hvern á eptir öðrum; náði hann svo flokkunum á leiðinni. Alls voru 192 menn í þessari lest, er New-York-Herald gerði út; auk þess tók Stanley með sér nokkra asna og tvo hesta, en þeir drápust á leiðinni.

Stanley hafði ásett sér að fara til Ujiji, sem er nýlenda ein, er Arabar áttu vestur við Tanganikavatn; ef bein leið yrði farin, þá er hún 140 mílur vestur frá sjó. Tanganikavatnið fundu þeir Speke og Burton fyrir 30 árum, báðir nafnkenndir landakannendur. Enski konsúllinn í Sansibar hafði áður sent lestir vestur til Ujiji með ýms föng og vörur til Livingstone, því það þótti sennilegt, að Livingstone mundi einhvern tíma koma þangað á sínu langa ferðalagi þar vestra. Auk þess voru allar líkur til þess, að til Ujiji, sem er ein af aðalstöðvum arabisku kaupmannanna þar í landi, kynni að hafa borizt með arabiskum þrælakaupmönnum einhverjar fregnir, er af mætti fræðast um það, hvar hinn frægi ferðamaður væri niður kominn. Meðan Stanley var á Sansibar, lét hann annars aldrei neitt á því bera, að hann væri gerður út til þess að leita að Livingstone, og ekki heldur á því, að hann ætlaði sér til Ujiji; hann lét þess ekki einusinni getið við hvorugan

enska fylgdarmanninn sinn, fyrr en þeir voru komnir talsvert áleiðis vestur eptir Afríku. Á leiðinni til Ujiji ætlaði hann sér að koma við í Tabora, sem er önnur nýlenda, er Arabar hafa stofnað þar vestra, og er hún 90 mílur vestur frá sjó í beina stefnu; Stanley hafði hugsað sér, þar sem hann gæti því við komið, að fara þær lestaleiðir, er hvítir ferðamenn hefði ekki áður farið.

Leið hans lá ýmist yfir vatnslausa fláka eða vatnsrík lönd, ýmist yfir frjósamar byggðir eða ófrjó lönd og óbyggðir; en það sem varð honum erfiðast, var það, að halda saman lestinni. Sjómenn þeir tveir hinir ensku, er hann hafði ráðið sér til samfylgdar og áttu að vera aðstoðarmenn hans, reyndust honum alveg gagnslausir. Annar þeirra var drykkjurútur, bilaður að heilsu, og vann Afríkuloptið brátt að honum; hinn var og í alla staði óhæfur til ferðalaga í Afríku, og þoldi heldur ekki loptslagið, og varð brátt svo veikur, að það varð að bera hann; hann dó líka á leiðinni. Á leiðinni átti Stanley í sífelldu stímabraki við hermenn sína og burðarmenn, og opt hafði hann miklar tafir af því að þurfa að gera út menn til þess að leita að strokumönnum. Samningarnir við þarlendu höfðingjana um það, hvað hann þyrfti að borga mikinn toll til þess að mega fara um lönd þeirra, voru bæði þreytandi og leiðinlegir, því þessir höfðingjar hugsuðu ekki um neitt annað en að pína út úr þessum stórauðuga hvíta ferðalang svo mikið sem hægt væri, og stundum lá við sjálft, að slægi í bardaga, því margir af þjóðflokkum þeim, sem búa þar uppi í landinu, eru harðfengir og grimmlyndir.

Sumt af liði hans veiktist, og sjálfur fékk Stanley hvað eptir annað fótaveikisköst, og þarf enginn hvítur maður, hvað heilsuhraustur sem er, að búast við því að komast hjá þeim veikindum í því loptslagi; en við þau veiklast hann og missir þrótt og það til langframa. Vanalega var ferðinni svo hagað, að lestin tók sig upp í dögun; en þegar hallaði degi slógu þeir landtjöldum, og þar sem því var hægt við að koma, gerðu burðarmennirnir girðingu um tjöldin úr greinum og limi, til þess að verjast um nætur fyrir árásum villudýra; voru þeir ótrúlega fljótir að þeirri virkisgjörð. Sumstaðar var mjög erfitt að afla vistafanga; stundum var það af því, að landið sem þeir fóru um var svo gæðasnautt, stundum af því að landsbúar voru þeim illviljaðir —einu sinni mátti Stanley sætta sig við það, að lifa 57 daga samfleytt á baunasaupi og seigu geitakjöti — þeir reyndu að veiða sér til matar gíraffa, zebradýr, antilópur og villisvín, en fenguriun var jafnast rýr. Stundum var áð dögum saman, til þess að menn og málleysingjar gæti orðið afþreyttir.

Stanley varð fjarska feginn, þegar hann vissi það, að hann var kominn í nánd við Tabora, sem var fyrsti staðurinn sem hægt var að fá góðan áfangastað, og þegar hann átti þangað nokkrar dagleiðir, gerði hann boð á undan sér til Arabanna, sem þar bjuggu. Í grenndinni við Tabora var landið vel yrkt, og þar gat Stanley fengið keypt ungt, feitt naut fyrir 26 álnir af lélegum baðmullardúk, og gæddi hann liði sínu með nautinu. Í fararbroddi hafði hann blaktanda merki Bandaríkjanna í Norður-Ameríku, þegar hann 22. júní — þremur mán-

uðum eptir að hann tók sig upp frá Bagamajo — hélt innför sína í Tabora með skothríðum, svo sem í Afríku er títt, og var honum þar vel fagnað af Aröbum.

Á leiðinni þangað hafði Stanley mætt mörgum arabiskum fílabeinskaupmönnum og þrælaveiðamönnum. Í Miðafríku láta Arabar mikið til sín taka, og á ferðum sínum í Afríku hefir Stanley átt mikið við þá að sælda. Arabar hafa náð sér bólfestu á austurströndinni, og hafa smá-þokazt lengra og lengra inn í landið, og hafa stofnað þar nýlendur, og nú upp á síðkastið hafa þeir austan að komizt svo langt upp með Kongó, og hafa náð þar svo góðri fótfestu, að það eru öll líkindi til, að Evrópubúar megi vara sig á þeim, ekki síður en á trúarbræðrum þeirra upp með Nílá.

Arabar þeir, sem í Miðafríku eru, eru sumir af göfugum ættum, en allir gefa þeir sig við kaupskap og verzla þeir einkum með fílabein og þræla. Fyrst framan af fóru þeir inn í landið í von um það, að þeir á skömmum tíma gætu orðið stórauðugir; en þær vonir brugðust að öllum jafnaði. Flestir fóru inn í Afríku á þann hátt, að þeir fengu til láns allt til útgerðarinnar á Sansibar, og urðu að gjalda af lánsfénu okurleigu, og þegar þeir sáu, að í óefni var komið með að gjalda skuldina, þá þótti þeim sá kosturinn skárri, að láta fyrirberast þar vestra og taka sér þar bólfestu, en að hverfa aptur verra en allslausir. Auk þess var Miðafríka hæli og griðastaður mörgum Aröbum, er ekki voru meira en svo vel kynntir heima fyrir. Og með því að Arabar voru miklu betur að sér en þar-

lendir menn, þá gat þeim tekizt það, að ráða lögum og lofum í byggðum þeim, sem þeir fóru um, með því að gerast fyrirliðar fyrir þrælasveitum, er þeir bjuggu skotvopnum, enda urðu þeir opt óspart að neyta vopnanna, og það sem kallað var kaupskapur þeirra við þarlenda menn, varð brátt að hinum hróplegustu ránsferðum og mannaveiðum. Það var ekki þar með búið, að Arabar æstu hvern þjóðflokkinn móti öðrum, og rændu og stælu sjálfir fílabeini, en þeir rændu líka ungu fólki þarlendra manna, konum sem körlum, og gjörðu að þrælum, og urðu þeir að bera fílabeinið, er þeir höfðu stolið, til strandar ofan. Byggðarlög, sem áður voru þéttbyggð, eru nú orðin í auðn fyrir guðlausa grimmd Araba, og það er varla neitt hróplegra og hryllilegra athæfi til nú á dögum, en harðúð sú og grimd, er þessir mannaveiðamenn og þrælakaupmenn hafa í frammi. Það er engin hemja á því, hvað Aröbum þykir lítið fyrir að drepa menn. Eins og ekkert sé um að vera, leggja þrælaveiðamennirnir á næturþeli eld í kofa svertingjanna, sem að öllum jafnaði eru byggðir úr hálmi; þegar þeir þá reyna til að forða sér úr eldinum, ráðast þeir á þá og gjöra að þrælum alla þá, er þeir fá höndum á komið, og eru þeir, þegar austur að sjó kemur, opt og einatt ekki annað en skinnið og skrapandi beinin. Þegar þrælarnir ekki geta dragnazt áfram, fyrir hungurs sakir eða veikinda, þá eru þeir, án allrar líknar, skildir eptir á leiðinni, til þess að deyja þar, eða þegar mest er við þá haft, þá eru þeir rotaðir, til þess að stytta eymdarstundir þeirra, og margir ferðamenn hafa sagt frá lestavegum, þar

sem hægt er að sjá, að þrælalestir hafa farið um, af því, hvað mikið er á leiðinni af mannabeinagrindum. Nú hafa margar af menntunarþjóðum vorrar heimsálfu orðið samtaka um, að sporna eptir föngum við þessu bölvi, og er því þrælaverzlunin á austurströndinni ekki rekin jafn berlega og áður, en þrælaveiðunum í Miðafríku er allt um það ekki linnt, og má ætla, að árlega séu drepnir á þeim menn svo skiptir mörgum hundruðum þúsunda.

Livingstone segir frá því, að einusinni hafi hann orðið sjónarvottur að því, hvernig Arabi einn með vopnuðum óaldarflokki sínum að óvörum réðst á þorp eitt, er ekki átti sér neins ófriðar von; þorpið lá við á, og voru þar saman komnar meira en tvær þúsundir manna til markaðshalds. Enginn þarlendra manna hafði hinn minnsta grun á því, að þrælaveiðamenn væru í nánd. En allt í einu heyrðust hvellirnir í byssunum. Svertingjunum varð mjög felmt við, og hlupu allt hvað af tók til báta sinna, og þröngdust svo ótt út á þá, að þeir urðu ofhlaðnir, svo að þeim hvolfdi; hirtu þá krókódílarnir margan mann, en þó voru þeir fleiri, er biðu bana fyrir skotum óvina sinna. Fjögur hundruð manna, sem flest voru konur og börn, biðu þar bana, og enn þá fleiri voru gerðir að þrælum, sem fám mínútum áður með gleði og gamni höfðu verið á markaðinum. Og það er ekki svo sem þessi saga sé neitt einsdæmi, og Livingstone, sem þó ekki var nein ístöðulaus herfa, segir frá því, að það hafi opt komið fyrir, að hann hafi með andfælum hrokkið upp úr fasta svefni, þegar honum

bárust í drauma skelfingar þær, er hann hafði orðið að sjá á sínum löngu ferðalögum um Afríku.

Þótt aldrei sé hægt ofsögum af því að segja, hve hróplega grimd og varmennsku Arabar sýna á mannaveiðum sínum, þá má þó ekki segja, að þeim sé alls góðs varnað, eins og þeir koma fram í Afríku. Margur hvítur Afríkufari má þakka einhverjum arabiskum þrælakaupmanni fyrir liðveizlu, þegar honum lá mest á, og það er víst um það, að ferðalög margra um Afríku hafa því að eins tekizt, að ferðamennirnir hafa notið liðsinnis Araba. Nýlendur Araba hafa verið kærkomnir áfangastaðir fyrir marga ferðamenn, og hefir þeim þar verið tekið með hinni mestu gestrisni. Arabar hafa við nýlendur sínar komið á reglulegri jarðyrkju, og búa í velbyggðum, svölum húsum, með flötum þökum og veggsvölum umhverfis, og hafa opt allan aðbúnað allríkmannlegan. Í viðmóti við hvíta menn eru þeir að öllum jafnaði virðulegir; þeir eru fatprúðir menn, og margir ferðamenn tala um Araba sem sönn snyrtimenni. Það má enn segja til lofs Aröbum þeim, sem eru í Miðafríku, að þeir eru dugandis kaupmenn.

Þegar Stanley kom til Tabora, léðu Arabar honum gott hús til íbúðar, og tóku honum með stakri gestrisni. Hann hafði ætlað sér það, að hvíla sig þar um hríð; en það fór svo, að hann hlaut að standa við í Tabora lengur en hann hafði ætlað sér og vildi. Arabar flæktust í ófrið við höfðingja einn þarlendan, ríkan og ráðsnjallan, er Mirambó hét; hann hafði lagt undir sitt vald margar svertingjasveitir þar í grenndinni, og var hann

smámsaman orðinn svo ráðríkur, að hann ekki aðeins heimti háan toll af hverri lest hinna arabisku þrælakaupmanna, sem þeir urðu að borga með byssum og púðri, heldur hafði hann það í heitingum, að harðbanna allar leiðir til Ujiji, einmitt þangað sem ferð Stanleys var heitið.

Þarsem ekki var friðvænlegra en þetta í grendinni við Tabora, þótti Stanley óráðlegt að halda lengra áfram að sinni, og gekk hann í lið með Aröbum, vinum sínum, móti Mirambó. Urðu allmargar orustur milli Mirambós og Araba, og þær mannskæðar, eptir því sem gera er í Afríku, og höfðu ýmsir sigur; rændu og brenndu hverir fyrir öðrum, þar sem þeir gátu því við komið, og biðu Arabar talsvert manntjón, og einusinni vann Mirambó svo mikinn sigur, að við sjálft lá, að Tabora yrði í hershöndum, svo að Stanley varð að víggirða hús sitt, einsog Arabar gerðu, til þess að verjast árásum svertingja. Samt fór svo að lokum, að Mirambó beið svo mikinn ósigur, að kyrð og spekt komst þar á í grendinni fyrst um sinn. Í ófriði þessum féll margt manna af Stanley, og það fór svo, að dvöl hans í Tabora urðu ekki neinir hvíldardagar. Það kom fyrir, að hann varð þvínær alveg úrkula vonar um að geta komizt lengra áleiðis; hann varð í mestu vandræðum með burðarmenn sína; það örfaði ekki í þeim ferðahuginn, að eiga Mirambó yfir höfði sér þar í grendinni, og svo drapst allur dugur úr þeim við hið langvinna aðgjörðaleysi í arabisku nýlendunni, svo að Stanley sá sér ekki annað ráð vænna, en að reka úr vistinni allan þorra

gömlu burðarmannanna, og ráða nýja í þeirra stað til þess að halda áfram ferðinni.

Meðan Stanley beið í Tabora, varð hann fárveikur og lá lengi með óráði, svo að hann varð alveg ruglaður í tímatali sínu. Þegar hann fékk rænuna aptur, sögðu þeir sem stunduðu hann í veikindunum, að hann hefði verið rænulaus í 7 daga, í stað þess að hann hafði verið það í 14 daga, og Stanley varð þess ekki var, að hann hafði hlaupið yfir viku af æfi sinni, fyrr en hann fann Livingstone. Þegar þeir hittust og fóru að tala um, hver dagur mánaðar væri, bar þeim ekki saman um dagatalið, og þá komst það fyrir, þegar þeir í sameiningu fóru að rannsaka stjörnualmanakið, að Livingstone hafði ruglazt um 3 vikur í tímatali sínu í legum, sem hann hafði legið, þar sem skakkinn hjá Stanley var ekki nema ein vika.

Í fulla 3 mánuði varð Stanley að bíða í Tabora, og fékk hann þar á stangli fréttir af Livingstone; 20. ágúst lagði hann upp þaðan áleiðis til Ujiji; hafði hann þá með sér 54 menn; báru þeir 6000 álnir af dúkum, 6 poka af glertölum, ógrynni af skotföngum og þar frameptir götunum. Frá Tabora til Ujiji er ekki nema 40 mílur, ef beina leið má fara; en nú varð Stanley að fara á sig stóran krók, vegna þess, að ófriðvænlegt var að fara skemmstu leið. Á þessari leið stóð hann í miklu stímabraki við burðarmenn sína, sem ár og síð voru að reyna til að strjúka, og einusinni var svo komið, að ekki var annað sýnna, en að leiðangurinn færi allur út um þúfur; svo mikinn samblástur höfðu burðarmenn Stanleys kveikt móti honum.

Þegar lestin átti skammt eptir til Ujiji, barst Stanley sú fregn, að þangað væri fyrir skömmu kominn gamall hvítur maður einhverstaðar að vestan fyrir Tanganikavatn; hann vildi hafa greinilegri sögur af mönnum þeim, er báru honum þessi merkistíðindi, og sögðu þeir honum þá, að þessi gamli hvíti maður hefði einusinni áður «fyrir æfalöngu» komið til Ujiji, og gat þá varla annað verið en að þessi gamli ferðamaður hlyti að vera Livingstone. Eins og nærri má geta, komst Stanley allur á lopt við tíðindasögu þessa; hvataði hann nú ferð sinni sem mest hann mátti.

10. nóvember 1872 — 236 dögum eptir að Stanley lagði upp frá Bagamojo, 50 og einum degi eptir að hann lagði upp frá Tabora— var nú lestin komin fast að Ujiji, og hafði þar, skammt frá bænum, safnazt saman múgur og margmenni til þess að sjá þegar lestin kæmi; þá veit Stanley ekki fyr til, en hann heyrir að kastað er á hann kveðju á ensku; það var þá einn af svertingjum Livingstones; hafði Stanley lítið tal af honum, því hann hljóp hið bráðasta af stað, til þess að segja húsbónda sínum frá því, að hvítur maður rjeði ferðinni. Livingstone ætlaði varla að trúa sínum eigin augum. Þarna var lest, er fór undir merki Norður-Ameríkumanna. Hvað var hún að erinda þarna lengst inni í Afríku?

Nú riðu af skot, og allt varð á iði, svo að auðvitað var, að nú mundi lestin þegar komin; flykktust því Arabar í Ujiji saman fyrir framan bústað

Livingstones, til þess að fagna þessum nýkomna ferðamanni.

Lestin hafði numið staðar, skrifar Stanley, þegar byssuberi minn sagði við mig: «Nú sé eg hann; en hvað hann er gamall! Skeggið á honum er alveg hvítt!» Blóðið sótti ótt að hjartanu í mjer; eg ætlaði varla að ráða við mig; eg hefði viljað gefa mikið til þess, að mega nú ósjeður af öllum láta eptir tilfinningum mínum. Eg hafði ákafan hjartslátt; en eg mátti ekki láta sjá það framan í mjer, hvað mjer var mikið niðri fyrir. Hvíti maðurinn varð að koma fram sem bezt mundi sóma við slíkan fagnaðarfund.

Eg bar mig því til, sem mjer þótti samboðnast vera erindi mínu. Eg ruddist fram í gegnum mannþröngina, þangað til eg var kominn fram að þyrping af Aröbum, er stóðu í hálfhring, og frammi fyrir þeim hvíti maðurinn með hvíta skeggið. Meðan eg var að nálgast hann, tók eg eptir því, að hann var fölur mjög og að skeggið var grátt; á höfðinu hafði hann húfu með upplituðum gullborða; hann var í koti með rauðum ermum, og í gráum ullarbuxum. Eg vildi feginn hafa hlaupið til hans; en eg kom mjer ekki að því, vegna mannfjöldans; eg vildi feginn hafa faðmað hann að mjer; en af því að hann var Englendingur, þá vissi eg ekki, hvernig hann mundi taka því, og þess vegna gerði eg það, sem heigulsháttur minn og rangskilin stórmennskulæti réðu mér að gera: eg gekk rólegur að honum, tók ofan fyrir honum, og sagði:

«Doktor Livingstone, vænti eg?»

Hann lypti upp húfunni, og sagði með vingjarnlegu brosi: «Já».

Við settum nú upp höfuðfötin, tókum síðan höndum saman, og eg sagði hátt:

«Doktor minn! eg þakka guði almáttugum, er hefir unnt mér það, að sjá yður». En hann svaraði: «Eg má líka þakka það, að vera hér staddur, og geta boðið yður að vera velkominn».

Livingstone var þá fundinn, og Stanley var þannig búinn að ljúka erindi sínu; og gat ekki hitzt betur á en gerði. Hinn frægi gamli ferðamaður var þá þreyttur og veikur af því, að hann hafði reynt of mikið á sig; hann var þá fyrir skömmu komin til Ujiji, eptir ferð, sem hann hafði farið langt vestur í land; en þegar hann kom þangað, þá brá honum heldur en ekki illa við, því að útvegamaður hans arabiskur var þá búinn að selja allan varning þann, er Livingstone hafði ætlað honum að varðveita, því hann hafði verið orðinn fulltrúa um það, að Livingstone væri löngu dauður. Livingstone stóð þannig að heita mátti tómhentur, þegar þeir Stanley fundust, því hann átti þá ekki meira en svo, að hann gæti kostað sig og lið sitt mánaðartíma. Byrgðir Stanleys komu því í beztu þarfir og á hentugasta tíma; og þá var gamla manninum ekki minni fögnuður að því, að fá brjef heiman að; þau voru nú reyndar orðin ársgömul. Og það var ekkert smálítið, sem hafði gerzt síðustu árin, sem Livingstone ekki hafði fengið neinar fregnir af. Honum þótti meira en lítið koma til þess, að heyra Stanley segja frá

því, er opnuð var Kyrrahafsbrautin, frá stórtíðindum þeim, er gerðust í styrjöldinni milli Þjóðverja og Frakka, um brottrekstur Ísabellu drottningar, um morðið á Prim hershöfðingja, o. s. frv. Þetta allt voru Livingstone nýjungar. En þótt Livingstone þætti mikið til þess koma, að hafa rekizt á Stanley, þá var þó Stanley enn fegnari því, að hafa fundið Livingstone, sem hann að maklegleikum dáðist að; honum þótti það ekki alveg ónýtt, að heyra hann segja frá hinum aðdáanlegu ferðalögum og landakönnunum. Það voru sannir dýrðardagar fyrir hann, fréttaritarann, þessir dagar, sem þeir voru saman, Stanley og Livingstone.

Þeir Livingstone og Stanley fóru langar leiðir saman eptir Tanganikavatninu, til þess að kanna það, hvort vatn þetta stæði í nokkru sambandi við annað stórvatn, er lá norður af því; og að því búnu urðu þeir samferða til Tabora, Stanley til þess að hverfa heim með þau miklu tíðindi, er hann hafði að segja, en Livingstone til þess að halda áfram landakönnunum sínum, og átti honum ekki að auðnast að koma lífs heim aptur. Honum þótti ekki nærri því komandi, að fara heim og leita sjer hvíldar. Í Tabora lá fyrir honum varningur, sem honum var ætlaður, og Stanley bætti þar við hann 4000 álnum af baðmullardúkum, 992 pundum af glertölum, 350 pundum af eirvír, vatnsheldu tjaldi, skotföngum o. s. frv., og lofaði hann honum að skilnaði, að gera út á Sansibar lest til hans.

Þeir Livingstone og Stanley skildu 14. marz 1872, og varð mikið um að skilja, og hvataði nú Stanley hið mesta hann mátti ferð sinni til sjóar,

og stóð nú ekki á burðarmönnum hans, því þeir hlökkuðu til að komast í fullsæluna, sem beið þeirra í Sansibar, þegar þeir væru búnir að fá það, sem eptir stóð af kaupinu þeirra; og snemma í maímánuði var Stanley aptur kominn ofan að sjó, 17 mánuðum eptir að hann kom til Afríku. Hann kom svo aptur, að hann fyrir ferð sína var orðinn frægur maður; kom hann með brjef frá Livingstone um hinar mikilsverðu landakannanir hans; en sjálfur var hann maðurinn, er hafði «fundið» mann þann, er allir menntaðir menn um allan heim fyrir hvern mun vildu vita um, hvar væri niður kominn. Á Sansibar stóð Stanley við það skemmsta hann gat, áður en hann fór þaðan til Evrópu, en þar hitti hann marga Englendinga, sem þá voru að búa út heilmikinn leiðangur, sem átti að fá fréttir af Livingstone; en hinn ötuli frjettaritari ameríska blaðsins hafði orðið hraðari að bragði en þeir.

Á Englandi kunnu sumir því illa, að maður gerður út af Ameríkumönnum skyldi hafa orðið til þess, að bjarga úr vandræðum hinum fræga skozka landakannanda, svo að þegar Stanley kom til Lundúnaborgar, var honum hvergi nærri eins vel fagnað, eins og hann hafði til unnið; sumir kváðu jafnvel upp úr með það á prenti, að það hefði ekki verið Stanley, er kom Livingstone til liðs, heldur hefði það verið Livingstone, er bjargaði Stanley úr beyglum. En brátt sannfærðust menn um, að það var ekki skrum eitt og hégómi, er Stanley fór með í ferðaskýrslu sinni, svo að honum var marghátttaður sómi sýndur; meðal ann-

ars fékk hann bréf frá utanríkisráðgjafa Englands, og fylgdu bréfi dýrindis gulldósir gimsteinum settar frá Viktoríu drotningu.

Af ferð þessari varð Stanley frægur maður, og ferðasaga hans: «Um það hvernig eg fann Livingstone», var þýdd á margar útlendar tungur. «Þegar eg kom til Massilíu», segir Stanley, «þá eins og lagði hr. Bennett smiðshöggið á verk sitt með rausnarbragði einu, sem sjálfsagt er dæmalaust. Eg hafði lofað Dr. Livingstone því, að senda bréf hans til ættingja og vina 24 stundum eptir að 2 bréf frá honum til Bennetts væru prentuð í Lundúnarblöðunum. Til þess að eg gæti efnt orð mín við Livingstone, lét umboðsmaður «New-York-Heralds» víra bæði bréfin til Ameríku, en það kostaði 2000 punda sterling (36,000 kr.!).

Seint á árinu 1873 fór Stanley aptur til Afríku, sem fréttaritari fyrir «New-York-Herald», til þess að segja fréttir af ófriði, sem Englendingar þá áttu í við konunginn í Ashanti, sem er svertingjaríki, er liggur skammt upp af þeim hluta Guineastrandarinnar, er Fílabeinsströnd heitir.

Vorið 1874 kom Stanley aptur til Evrópu; þá frétti hann það, að Livingstone væri andaður, og að lík hins ágæta ferðamanns væri á leiðinni til Englands. Við hina hátíðlegu jarðarför Livingstones var Stanley sá sómi sýndur, að hann var látinn vera einn af þeim, er bar klæðið, er haft var yfir líkkistunni.

Það er vel skiljanlegt, að Stanley, sem nú var búinn að vera bæði í Abessiníu og Asjanti, og sem hafði áunnið sér svo mikla frægð, með því að leita

upp Livingstone, hafi lagt mikinn hug á að kynnast betur landaskipun í Afríku, enda var hann vakinn og sofinn að hugsa um það. Einu sinni bar það á góma milli hans og eins af eigendum enska blaðsins Daily Telegraph's, hvað mikið væri enn ókannað hið innra í Afríku. Meðan þeir voru að skrafa um þetta, er Stanley spurður að því hvort hann mundi treysta sér til, að halda áfram landakönnunum Livingstones. Stanley játti því; en með því að hann var bundinn við New-York-Herald, þá kom þeim saman um það, að senda Bennet vírskeyti upp á það, hvort hann fyrir hönd blaðs síns vildi vera samtaka um það, að gera Stanley út, til þess að fullkomna landakannanir þær í Afríku, er gerðar höfðu verið síðustu árin. Það stóð ekki lengi á svarinu frá Bennett, enda var það ekki nema þessi tvö orð: «Já, Bennett», og með því var ráðinn hinn mikli leiðangur, er þau blöðin Daily Telegraph og New-York-Herald urðu samtaka um að gera út. Hefir aldrei ein ferð farin verið sú, er jafnmikið og þessi fræddi menn um landaskipun í Afríku, og hún varð til þess, að jafngóður rekspölur er kominn á í Kongolöndunum og þegar er orðið.

Þegar förin var ráðin, lét Stanley fara að efna til alls útbúnaðar undir ferðina, en skrapp sjálfur snöggva ferð til New-York, og stóð þar við eina 5 daga, til þess að kveðja vini sína, og fór svo aptur til Lundúna. Óðara en það fréttist, að Stanley ætlaði að fara til Afríku, sem foringi fyrir stórum leiðangri, hrúguðust að honum bónarbréf úr öllum áttum um það, að verða tekinn til fylgdar

við hann; og voru þau frá mönnum af öllum stéttum. Bæði hershöfðingjar, handverksmenn og borðsveinar buðu honum þjónustu sína; en hann tók enga með sér nema verzlunarþjón einn, sem Friðrik Parker hét, og tvo unga vaska sjómenn, bræður tvo, er hétu Jón Pocock og Eðvarð Pocock; en allir dóu þeir í Afríku. Þess þarf ekki að geta, að Stanley var það að öllu leyti í sjálfs vald sett, hvernig útbúnaðurinn var, því nú var hann reyndur Afríkufari; eitt meðal margs annars, sem honum var lagt til ferðarinnar, var bátur einn, 40 feta langur, smíðaður af mestu list; það mátti taka þenna bát í marga parta, og gat hver partur um sig flotið, og mátti fleytast á pörtunum yfir ár. Bátur þessi var kallaður «Lady Alice», og kom hann opt síðar á ferðinni að góðu haldi, þar sem farið var á vötnum og ám mörg hundruð mílur. Áður Stanley lagði af stað, gáfu vinir hans og vildarmenn honum ýmsar gjafir; meðal gjafa þeirra voru og tveir hundar afbragðs vænir; en þeir drápust á leiðinni.

21. dag septembermánaðar kom Stanley og hvítu förunautarnir hans til Sansibar, og tók hann þar strax til að búa sig til ferðarinnar; lét hann sér mest um það hugað, að ráða til fylgdar við sig góða hermenn og burðarmenn. Nú hafði Stanley miklu meira lið, en þegar hann fór ferðina til þess að leita að Livingstone, enda urðu nú erfiðleikarnir á því, að útbúa liðið og koma skipun á það, miklu meiri en þá. Eptir tveggja mánaða strit og stímabrak hafði Stanley lokið við útbúnað sinn og var kominn með allt sitt til meginlands, og þar lá hann í landtjöldum með allt lið sitt í fáeina

daga, og tók sig svo upp 23. nóv. 1874; var þá allt lið hans 356 manns, en af því liði voru 36 konur og 10 börn. Konurnar voru flestar giptar trúnaðarmönnum hans, mönnum frá Sansibar, er höfðu verið í mörgum ferðalögum og margt reynt; þessa menn skipaði hann undirforingja, og var lítil valin sveit þeirra í ferðarsporðinum, og áttu þeir að reka áfram þá, sem ætluðu að dragast aptur úr, og handsama strokumenn.

Fyrst var ferðinni heitið til hins mikla stöðuvatns, er heitir Viktoría Njanza; það er 4000 fetum hærra en yfirborð sjávarins, og er eitt af stórvötnum þeim, er Níllá kemur úr. Jafndægrabaugurinn liggur yfir þvert vatnið; þaðan sem Stanley tók sig upp austur við Indlandshaf, eru hér um bil 110 mílur að landsuðurhorni vatnsins. Árið 1858 hafði Englendingurinn Speke fyrstur Evrópumanna fundið vatnið, og komið þangað aptur 1862, en það hafði aldrei verið siglt um vatnið, og strendur þess voru að mestu leyti ókannaðar, svo að það var mikils vert að fá nánari kynni af vatni þessu.

Hér um bil 50 mílur fór Stanley leið, er ekki lá langt frá leið þeirri, er hann hafði farið, þegar hann var að leita að Livingstone. Á þessari leið átti Stanley þegar í miklu stímabraki við burðarmenn sína, og tæpar 3 vikur hafði hann verið á leiðinni, þegar hann hafði misst 50 manns, er strokið höfðu, og höfðu þó þeir, er voru í ferðarsporðinum, opt handsamað strokumenn. Fyrstu fimm vikurnar lagði Stanley svo af, að hann léttist um 4 fjórðunga. Um nýársleitið voru 20 menn

veikir af liði hans, og um sama leyti varð hann þess áskynja, að 50 manna hafði tekið sig saman um það, að strjúka burt með bagga sína. Þetta voru, skjótt að segja, vandræðadagar, enda segir Stanley svo frá þeim: «Eg gæti skrifað stóra bók, ef eg ætti að segja frá öllum ónotunum, sem eg átti í á hverjum degi». Og þetta var í upphafi ferðalagsins.

Síðan stefndi Stanley meira til norðurs, til þess að komast upp að stöðuvatninu, og átti hann nú að fara um byggðir, þar sem hvítir menn höfðu aldrei áður sézt. Leiðsögumenn þeir, er fengust, rötuðu ekki, og ferðin gekk tregt, því færðin var ill, þar sem leiðin lá um þétta kjarrviðu: fötin tættust utan af mönnum, stórar sveitir af liði Stanleys villtust; þeir voru að rekja sig eptir brautum þeim, er fílar höfðu gert í þessum óbygðum; einkum var Stanley minnisstæður 10. janúar 1875 sem sannur hörmungardagur. Tvo dagana á undan hafði ekki verið hægt að afla neinna vistafanga, og ekkert hafði veiðzt, það er um munaði; þá fundu burðarmennirnir í skógarkjörrum nokkrum hálfúldinn fílsskrokk, og hvomuðu þeir hann í sig, eins og þeir væru hýenur, en margir veiktust eptir þessa viðbjóðslegu máltíð. Þá var sendur út lítill flokkur þeirra, er vaskastir voru, til þess að þeir reyndu að komast til mannabyggða, og að kvöldi þessa sama dags varð Stanley að elda graut úr 10 pundum af haframjöli og 4 dósum af revalenta arabica handa sínu hungurmorða liði. Til allrar hamingju komu menn þeir, er sendir voru út til vistafanga, aptur um nóttina, og höfðu þá

með sér góðan skammt af hirsi, og höfðu þau fagnaðartíðindi að segja, að þeir væri ekki langt frá mannabyggðum. Viku seinna dó hinn fyrsti þeirra þriggja hvítu manna, er ráðizt höfðu til samfylgdar við Stanley; það var Eðvarð Pocock, og var hann jarðaður undir tré einu.

21. dag janúarmánaðar, eða hér um hil 2 mánuðum eptir að Stanley hafði tekið sig upp með lið sitt, voru 20 manns dánir, en 89 stroknir. Hann reyndi á leiðinni að ráða sér burðarmenn í stað þeirra, sem strokið höfðu, en það gekk misjafnlega. Næstu dagana þar á eptir áttu þeir að fara um byggðarlag, þar sem landsbúar sýndu þeim fullan fjandskap, gerðu þeim fyrirsát, og fengu þannig drepið af þeim 2 menn; út af þessu sló í bardaga, og féllu í honum 22 menn af Stanley; en þar með var líka verstu þrautunum lokið, að minnsta kosti fyrst um sinn; því að úr því lá leið þeirra um land friðsamra manna, er bjuggu í frjósömu landi, þar sem svo var gott til veiða á gíraffa, zebradýr, antilópur og búffalóuxa, að drápsklyfjar af þurkuðu keti fengust upp á marga burðarmenn. Verðlag á matvælum var hér svo gott, að uxa mátti fá keyptan fyrir 9 álnir af rýrðar-baðmullardúk.

Allir voru hjartanlega fegnir, þegar lestin, eptir 103 daga ferð, komst upp að hinu mikla stöðuvatni Victoria Nyanza; og þar sló Stanley upp landtjöldum sínum. Nú var Lady Alice skrúfuð saman; síðan skipaði Stanley þá Pocock og Parker yfir liðið, en fór sjálfur 8. marz út á Lady Alice og hafði með sér 11 manns af liði sínu, þá sem

hugrakkastir voru. Það veitti samt full-erfitt að fá þá til þess, að ráðast í þessa glæfraferð á opnum bátnum; því að það gengu ýmsar kynjasögur af þessu afarmikla vatni, og fólki því, er byggi á ströndum þess; og víst er um það, að vatnið er æði stórt —það er hér um bil 150 mílur ummáls, og þeir Stanleys liðar voru engir sjómenn; en það hefði þó ekki átt að þurfa mörg ár til þess að sigla í kringum vatnið, eins og sögurnar gengu meðal þarlendra manna; en annað var nærri því lakara, og það var það, að á ströndum þessa vatns byggi menn með rófum, og mannætur og annað illþýði.

En allt um það lagði Stanley af stað; gerðist margt sögulegt í ferð hans, og hann rataði í margar mannraunir; en hann ávann það með ferð sinni, sem mikils vert má telja, að nú fyrst fengu menn nokkurn veginn greinilega hugmynd um stærð vatns þessa og lögun. Stanley hélt sífellt með ströndum fram, því hann vildi vita, hvernig landslag væri að vatninu, og hvaða þjóðir byggi með fram því. Optast nær reyndust þarlendir menn honum vinveittir; en út af því brá þó; létu þeir þá örvar og grjótkast drífa yfir Stanley og menn hans; og marga nótt var það, þegar hvassviðri gerði, er stóð á land, og hafrót gerði, en þeim ókunnug landtakan, að þeir Stanley voru svo sem á milli heims og helju. Mikið fannst þarlendum mönnum til um Lady Alice, svo sem von var; þó var það einkum seglið og stýrið, sem þá mest kynjaði á. Í vatninu voru ósköpin öll af nykrum (vatnahestum), en Stanley varð að sitja á veiðilöngun

sinni, af því að hætt var við, ef nykrarnir trylltust, að þeir kynnu að ráðast á hinn grannviðaða bát.

Eptir hér um bil fjögra vikna ferð kom Stanley að norðvesturhorni vatnsins. Þar liggur að vatninu land það, er Úganda heitir, forkunnar-fagurt land og frjósamt; þangað hafði Speke kapteinn, sá er fyrstur Evrópumanna fann vatnið, og annar Englendingur, er Grant hét, komið fyrir þrettán árum, og þar fékk Stanley hinar beztu viðtökur hjá Mtesa konungi, sem var mesti merkishöfðingi í sinni röð.

Með þeim Stanley og Mtesa féll svo, að brátt var eins og þeir væru aldavinir. Mtesa er nú dáinn fyrir fáum árum, en þá ríkti hann yfir landi með tveimur miljónum manna. Hann var vinveittur hvítum mönnum, einkum fyrir það, að honum fundust þeir vera einhvers konar æðri verur, því sem næst að vera almáttugar og alvitrar, sem áttu byssur, er aldrei báru skakkt og aðra því um líka kynjagripi. Kaupmenn frá Arabíu höfðu gert hann að hálfgildings Múahmeðstrúarmanni; og þegar þess er gætt, að hann hafði sömu alvaldsráðin, sem aðrir sannir Afríkuharðstjórar hafa, þá var það öll furða, að hann var ekki verri viðfangs en hann var. Mtesa var allra manna gestrisnastur; en gestrisni hans var nú reyndar í því fólgin, að útlendum mönnum var heimilt að taka frá vesalings þegnum hans allt, sem þeir girntust, og þurftu ekkert fyrir að greiða. Hann gekk ekki klæðlaus, svo sem hinir smákonungarnir, er Stanley hafði séð, heldur hafði hann tekið sér arabiskan búning;

hann hafði hirð um sig, lífvörð hafði hann í einkennisbúningi, við hirð hans voru og skutulsveinar og böðlar; hann átti og allstóran flota stórra leiðangursbáta.

Ein saga, sem Speke hefir sagt um Mtesa, gefur miklu betri hugmynd um hagi og háttu við hirðina í Úganda, heldur en löng lýsing. Þess ber og að minnast, að Mtesa var engli líkari en manni í samanburði við föður sinn; því hann lét sama daginn drepa átta hundruð manna fyrir glæp, sem einn hafði framið. Saga Spekes er svona: «Konungur bað mig dag einn um það, að skjóta sem hraðast fjórar kýr; en eg hafði engar kúlur í kúlubyssuna mína, og bað því konung að ljá mér hjólskammbyssu þá, er eg hafði gefið honum, og með henni skaut eg allar kýrnar á svipstundu. Menn ágættu mjög þetta verk, og töldu það undrum sæta, og konungurinn gaf liði mínu kýrnar. Síðan hlóð nú konungur sjálfur eina af byssum þeim, er eg hafði gefið honum, dró upp bóginn, fékk svo byssuna einum af hirðsveinum sinum, og segir honum, að bregða sér út með byssuna, og skjóta einhvern mann. Drenghnokkinn kemur brátt inn aptur, og er þá eins hróðugur að sjá, eins og piltur mundi, er hefði verið svo heppinn að ná skaða, eða veiða silung. «Já, já, hvernig tókst það?» segir konungur. «Afbragðsvel», segir strákurinn, og var ekki á að sjá, að nokkur maður fengist um þetta; að minnsta kosti varð engum þeirra, er við voru staddir, að vegi að spyrja að því, hver sá hefði verið, er strákurinn hafði drepið».

Mtesa var orðinn 13 árum eldri, þegar Stanley

heimsótti hann; en honum þótti ekki mannslífið stórum meira virði þá en fyr. Hann var hemjulaus harðstjóri, og auk þess drykkjumaður hinn mesti, en við Stanley var hann hinn gestrisnasti, og léði ljúflega eyru frumsannindum kristindómsins; en þar sem Stanley hefir kallað hann «framfarafrömuð Miðafríku», þá á það ekki við annað að styðjast en það, að honum þótti vænt um að hafa hvíta menn sér við hönd; en það var reyndar af einberri eigingirni. Það, að Mtesa þó að nafninu til ríkti yfir ríki með einhverju skaplegu fyrirkomulagi, hefði mátt styðja að því, að greiða götu verulegrar þjóðmenningar. Síðar meir tók hann einnig með góðum beinleikum við kristniboðendum þeim, er sendir voru til Úganda; létu þeir þangað leiðast einkum fyrir ferðasögu Stanleys; en sonur hans Mwanga er allra manna grimmastur, og hefir hann sýnt kristniboðunum fullan fjandskap, og þeim þegna sinna, er kristna trú hafa tekið, og hefir hann látið drepa eða limlesta marga þeirra.

Í Úganda stóð Stanley við hálfan mánuð, og hélt hann þaðan áfram ferð sinni, og fór nú suður vatnið með vesturströnd þess; en Mtesa hét honum því að skilnaði, að hann skyldi senda báta á eptir honum, til þess að flytja allt lið hans og farangur til Úganda. Meðan Stanley dvaldi í Úganda í fyrra sinni, bar nokkuð það til nýlundu, er hann hafði sízt búizt við. Dag einn sagði Mtesa honum, að annar hvítur maður sé kominn þangað til landsins, og sé hann Tyrki; þarlendir menn kalla Egipta Tyrki, en Egiptar hafa smáþokazt

lengra og lengra suður eptir Afríku upp með Nílá. Nýkomni maðurinn var Linant de Bellefonds ofursti; hann var sendur til Mtesa frá hinum ágæta Gordon pasja, er þá hafði landstjórn í Súdanlöndunum (Blálöndum); var það sá hinn sami Gordon, er féll við frægan orðstír í Khartúm, þegar sveitir falsspámannsins brutust inn í Khartúm í janúarmánuði 1885. Báðum hvítu mönnunum kom það jafn óvart, að hittast þarna, og lifðu þeir hinu ánægjulegasta lífi þá tvo dagana, sem þeir máttu saman vera. Eptir fárra daga dvöl í Úganda hvarf Linant de Bellefonds aptur; en á norðurleiðinni var honum veitt atganga af svertingjaþjóðflokk einum upp með Nílá sunnanverðri, og brytjuðu þeir hann niður og alla þá, er með honum voru.

Á leiðinni suður að lestarstöðvum Stanleys bar margt til tíðinda, og opt sló í hart milli Stanleys og strandbyggjanna, og einu sinni varð Stanley að taka til fílabyssu sinnar, sem var hlaðin með sprengikúlum, til þess að fá varizt aðsókn báta. Eptir 57 daga burtuvist kom hann aptur til manna sinna, er fögnuðu honum svo sem hefðu þeir hann úr helju heimtan; en þar beið hans þá og sú harmafregn, að dáinn var enn einn af hvítu samfylgdarmönnunum hans, Parker; var þá enginn eptir nema Jón Pocock.

Stanley beið nú um hríð eptir bátum þeim, er Mtesa hafði heitið að senda honum, en þeir komu ekki, svo að honum tók að leiðast biðin, og réð hann þá af að fara landveg fyrir vestan vatnið norður í Úganda með allt lið sitt og farangur.

þó varð hann að hverfa af því ráði, með því að svertingjakonungur einn ríkur, er Rwoma hét, gerði honum svofellda orðsendingu: «Rwoma sendir hvíta manninum kveðju sína, en hann þarfnast hvorki fyrir dúkana, glertölurnar eða málmvírinn hvíta mannsins, og hvíti maðurinn má ekki fara í gegnum land hans. Rwoma vill hvorki sjá hann né neinn annan hvítan mann með langt rautt hár niður á herðar, hvítt andlit og rauð augu. Rwoma er ekki hræddur við hvíta manninn, en ef hvíti maðurinn kemur í nánd við land hans, þá hlýtur hann að berjast«. Í gegnum land þessa höfðingja þurfti Stanley að fara, ef hann átti að komast landveg norður, en á það vildi hann ekki hætta.

Eptir langa mæðu tókst Stanley loksins að kaupa báta hjá svertingjakonungi einum, er bjó á eyju þar skammt undan; fór þá Stanley af stað sjóleiðis með allt sitt, en opt komust menn hans í mesta lífsháska, því bátarnir flestir voru drekkhlaðnir; varð þá opt að taka til Lady Alice, til þess að bjarga þeim, sem nauðulegast voru staddir. Í miðjum ágúst komst Stanley og lið hans til Úganda.

Eptir að þeir Stanley skildu síðast, hafði Mtesa komizt í ófrið við nágrannakonung sinn; og lá hann nú í herbúðum niðri við vatn; þar hafði hann dregið að sér flota sinn, það voru 230 leiðangursbátar, og ógrynni liðs; þar voru saman komnar hér um bil 250 þúsundir manna, hermenn, þrælar og konur; þar á meðal voru 500 konur Mtesa kon-

ungs og börn hans. Stanley krafðist þess nú af Mtesa, að hann efndi við sig, það sem hann áður hafði lofað honum, að ljá sér leiðtoga að vatni því enu minna, er Níláin hefir upptök sín úr, sem þá var lítt þekkt, en kallað hefir verið Albert Nyansa; það liggur hér um bil þrjátíu mílur í norðvestur af Victoría Nyansa, og hafði ferðamaður enskur, er Samuel Baker hét, fundið það árið 1864. Mtesa hafði þau svör, að hann gæti ekki þá um sinn komið því við vegna ófriðarins, og að það væri of mikil hætta, að fara norður að vatni því, nema liðskostur væri nógur til fylgdar. Og með því að konungur taldi sjálfsagt, að ófriðnum mundi brátt lokið, þá lét Stanley tilleiðast að bíða. En ófriðurinn varð æði langvinnur, þótt ekki væri hann mjög mannspellasamur, enda var hernaðaraðferðin ofboð viðvaningsleg; varð nú Stanley að vera í öllum ráðum með Mtesa. Annars var konungi það mjög á móti skapi, að þurfa að láta annan eins mann og Stanley fara frá sér, jafn mikið traust og hann hafði fengið á honum, og ekki gat Stanley haldið áfram ferð sinni, fyr en snemma í nóvembermánuði.

Mtesa léði að skilnaði Stanley til fylgdar einn af höfðingjum sínum, ásamt 2 þúsundum spjótbera; en þessi agalausi flokkur varð Stanley nærri því meira að ama og óliði en liði, enda voru þeir allir hver öðrum ragari. Í miðjum janúar (1876) kom Stanley nú að stóru stöðvatni, Muta-Nsige, er hann ætlaði að væri vatn það, er Nílá hefir upptök sín úr, og sem hann var að leita að; en síðar reyndist það, að þetta var ekki svo; gerði Stanley

þannig, þegar hér var komið ferð hans, merkilega uppgötvun. En vegna þess, að þarlendir menn sýndu honum fullan fjandskap, en hermennirnir, sem honum voru léðir frá Úganda, reyndust huglausir, þá gat Stanley ekki komið því við, að kanna vatnið sjóleiðis, en síðan hefir engi hvítur maður séð það, og er mönnum því enn ókunnugt um stærð þess.

Stanley lèt nú frá sér fara fylgdarlið það, er hann hafði fengið með sér frá Úganda, og kannaði margt um afstöðu landa og vatna, er mönnum var áður ókunnugt, og kom hann í maímánuði 1876 suður að Ujiji við ströndina á Tanganikavatninu; þar hafði hann í nóvembermánuði 1871 fundið Livingstone. Var því ekki furða, þótt þar rifjuðust upp fyrir honum margar endurminningar frá þeim dögum, er þeir þá voru saman, og aldrei fyrnast honum. En nú var Livingstone liðinn, svo það var með sorg og söknuði, að hann nú leit þá staði, er hann þá hafði notið svo mikils unaðar á, meðan hann gat notið samfylgdar hins fræga ferðamanns. En maður eins og Stanley lætur ekki slíkar hugsanir lengi á sér festa; orðtak hans er: «áfram!», og á hverjum degi var hans ósigranda þreki og þolgæði fullfengið að starfa. Nú voru liðin hér um bil 3 missiri síðan hann lagði upp frá Bagamojo, og bjóst hann við, að sín mundu bíða í Ujiji bæði bréf og blöð; en sú von brást honum fyrir hirðuleysi arabisks erindsreka hans.

Stanley lét nú allan þorra liðs síns taka á sig

hvíld í Ujiji, en lagði sjálfur af stað með Lady Alice og annan bát til út á Tanganikavatnið; það liggur 2400 fetum hærra en sjávarflöturinn, og er 90 mílur á lengd, en það er hvergi breiðara en 12 mílur; á þessari sjóferð sinni var hann 51 dag, og varð enn margs fróðari þess, er áður var ókunnugt öllum. Þegar hann kom aptur til Ujiji, voru 5 af mönnum hans dánir úr bólunni, og með því að æ sýktust fleiri og fleiri, þótti honum sá hinn vænstur, að verða sem skjótast burt þaðan; en þá varð hann sjálfur veikur, og gat því ekki komizt burt fyr en seint í ágústmánuði. Arabar sögðu svo mikið af sögum um mannætur, þegar lengra drægi vestur eptir landi, að flest lið Stanleys lét hugfallast, og struku 41 af liði hans, svo að hann hafði ekki eptir nema 129 menn; en honum vildi það til láns, að hann fékk handsamað aptur nokkra af strokumönnunum.

Stanley lét nú flytja lið sitt og farangur vestur yfir Tanganikavatn, og hélt nú leiðar sinnar í norður og vestur, og í október komst hann til arabiskrar nýlendu, er heitir Nyangwe, er liggur við á mikla, er Lúalaba var kölluð; þegar Stanley kom til Nýangwe, vissu menn það eitt um á þessa, að hún rynni í norðurátt.

Nyangwe liggur inni í miðri Afríku, hér um bil 65 mílum fyrir sunnan jafndægrabaug, 200 mílum fyrir vestan Indlandshaf, og 200 mílum fyrir austan Atlantshaf; þessa nýlendu áttu Arabar vestasta um þær mundir. Til Nyangwe hafði Livingstone áður komið. Sömuleiðis enskur ferðamaður, er hét Cameron, og vildu þeir allt til vinna, að komast

fyrir það, hvað yrði af þessu mikla vatnsfalli, er engi vissi deili á; en hvorugum tókst það. Arabar vildu með engu móti neitt liðsinna ferðamönnum þessum; sögurnar, sem gengu um illþýði það, er byggi þar norður og vestur undan, og um torfærurnar, sem þar væri, voru hryllilegri en svo, að nokkur vildu á það hætta. Fyrir vestan Nyangwe var ein samfelld hvít skella á öllum landsuppdráttum, og ekkert nafn var þar. Menn höfðu þá enga hugmynd um, í hvaða stefnu hin afarmikla á Kongó rynni —en það kom upp úr kafinu, að Lúalaba og Kongó voru sama áin— og það, að Lúalaba hér svo sunnarlega og vestarlega rann í norður, blekkti suma landfræðinga svo, að þeir fóru að halda, að hún kynni að renna norður í Níl. En það átti að liggja fyrir Stanley, að ráða úr þessu vafamáli; og það, að hann fann rennsli og stefnu Kongófljóts, mun gera það að verkum, að hann ávallt mun verða talinn með hinum mestu landakannöndum heimsins; það þarf ekki annað, en líta á uppdrátt af Afríku, til þess að færa hverjum einum heim sanninn um, að það er fjarska víðlent flæmi, er hann hefir gert oss kunnugt.

Í Nyangwe hitti Stanley mjög merkilegann mann, sem síðan hefir opt verið getið og til ýmsra hluta; það var arabiskur þrælakaupmaður, er heitir Hamed ben Móhamed, en algengast er hann kallaður Tippu-Tib, sem er viðurnafn hans, sem hann hefir fengið af því, að hann er píreygður. Tippu-Tib er auðugasti og ríkasti Arabinn í allri Miðafríku; hann á margar nýlendur lengst inni í Afríku, og hefir

undir sér margar þúsundir svertingja, er allir hafa kúlubyssur að vopnum, með Aröbum fyrir fyrirliða. Þarlendum mönnum stendur ógn af honum, og arabisku þrælakaupmönnunum þykir það svo sem sjálfsagt, að telja hann yfirmann sinn. Tippu-Tib sem er allra manna bezt viti borinn og eptir því ötull og einbeittur, hefir fengið alla auðlegð sína fyrir verzlun með þræla og fílabein. Af hans völdum hafa menn svo að mörgum þúsundum skiptir verið drepnir, og á þrælaveiðum sínum hefir hann farið myrðandi og rænandi þangað, sem enginn þrælakaupmaður á undan hafði dirfzt að hætta sér. Athæfi hans er þannig hið djöfullegasta; en á honum sannast, að engum er alls varnað; Tippu-Tib hefir orðið mörgum hvítum ferðamanni sá vinur, er í raun reyndist, og án hans styrks mundi mörgum hvítum ferðamönnum ekkert hafa orðið ágengt með ferðalög sín um Miðafríku.

Stanley telur Tippu-tib «merkilegastan allra ósvartra manna, er hann hafi fyrir hitt í allri Afríku». Hið fyrsta sinn, sem Stanley átti tal við hann, var hann hinn alúðlegasti í viðmóti, en þó tilkomumikill, og honum leizt svo á þrælakaupmanninn, sem hann hefði þar fyrir hitt arabiskt göfugmenni; hann var glæsilega búinn, allt umhverfis hann var með talsverðri viðhöfn, og á öllu var auðséð, að hann var hafður í miklum metum. Tippu-Tib þekkti vel bæði Livingstone og Cameron, eins og hann síðar hefir átt kost á að kynnast mörgum hvítum ferðamönnum, og í þessari ferð varð hann nákunnugur Stanley, og virti hann Stan-

ley svo mikils, að hann kvað hann vera «sannan Araba að vitsmunum og dugnaði».

Eptir langa samninga tókst Stanley það, að fá Tippu-Tib til þess að fylgja sér með miklum liðsafla 60 dagleiðir inn í hinar ókunnu landsálfur Afríku. Stanley mundi ekki með neinu móti hafa tekizt það, að fá lið sitt til þess að halda áfram ferðinni til landa, sem Arabar sögðu svo hræðilegar sögur af, nema því að eins, að hann hefði öflugan liðsafla til fylgdar; en hann treysti því, að sèr mundi takast að fá menn sína til að halda áfram ferðinni, þegar hann væri kominn drjúgan kipp frá arabisku nýlendunni. Það var ekki hægt að fá neina báta í Nyangwe; það var því afráðið, að fara ofan með ánni að vestanverðu.

Í Nyangwe réð Stanley sér nokkra nýja menn til ferðarinnar, svo liðið var talsins 154 karlar, konur og börn. Tippu-Tib réðst til fylgdar með 700 manna, en af þeim áttu 300 að fara sinna ferða, til þess að ræna þrælum og fílabeini, þegar lengra væri á leið komið inn í hin ókunnu byggðarlög. 5. nóvember byrjaði Stanley þennan eptirminnilega hluta sinnar frægu ferðar, og var fullráðinn í því fyr að deyja, en aptur að hverfa.

Hörmungar þeirra Stanleys og hans manna byrjuðu á því, að leið þeirra lá í gegnum myrkvið einn mikinn, og versnaði æ því meir, sem lengra dró inn í hann; þeir urðu með öxum að höggva sér braut, fæturnir límdust ofan í hinn leirborna raka jarðveg, en svo megna gufu lagði upp af honum, að mönnum hélt við köfnun, og svo ógegndarlegur var jurtagróðurinn í þessari miklu jurtabaðstofu við

jafndægrahringinn, að eins var dimmt um hádaginn, eins og vant er að vera í rökkri. Stanley lýsir því þannig: «Vér vissum ekki, hvort það var glaða sólskin yfir skóginum, eða hvergi sæi í heiðan himinn, því um hádaginn var eins dimmt, eins og vera mundi stundu eptir sólarlag í tempraða himinbeltinu». Allir voru sí-rennvotir, vegna rakans í nýgræðingsskógnum, og þannig sigsaðist liðið áfram alveg reglulaust. Það var rétt að því komið, að vesalings burðarmennirnir, sem áttu að drægsast með Lady Alice, örvingluðust, því baggarnir þeirra voru svo fyrirferðarmiklir, að þeir voru einlægt að rekast í viðvindla og nýgræðingsgreinar. Stanley sagðist svo frá: «Vér þóttumst reyndar hafa séð skóga áður; en þeim tíma, sem vér ráfuðum áfram í þessum myrkvið —það er ekki hægt á nokkra tungu að finna neitt nafn, er honum sé samboðið— munum vér aldrei gleyma, vegna allra þeirra hörmunga, sem vér tókum út í honum».

Tippu-Tib var hvorki kjarklítill né úrtölusamur, og í 9 ár hafði hann lifað inni í miðri Afríku; en þegar hann hafði verið Stanley samferða í 11 daga í þessum ógöngum, þá sagði hann Stanley, «að sér hefði aldrei til hugar komið, að nokkursstaðar í heiminum væri til jafn hryllilegur staður og þessi myrkviður, þar sem loptið væri banvænt öllum mönnum, og að landið, sem þeir væru nú að vafra í, væri ófært yfirferðar; það væri að eins ætlað til bústaðar vesölum heiðingjum, öpum og öðrum villidýrum». Tippu-Tib sagði honum auk þess afdráttarlaust, að nú hyrfi hann aptur. Síðan töluðust

þeir lengi við Stanley og Tippu-Tib, og lauk svo því samtali, að Tippu-Tib lét tilleiðast að verða með liði sínu Stanley samferða enn 20 dagleiðir, en Stanley lofaði því, að fara að ánni, og var það ráðið að fara yfir um hana, til þess að vita um það, hvort færðin yrði ekki skárri hinu meginn.

Þegar þeir komust ofan á árbakkann, var Lady Alice skrúfuð saman, og ætlaði Stanley sér með lítinn hluta liðsins, að fara eptir ánni, en Arabar og meginhluti Stanleys manna áttu að halda áfram landleiðina ofan með ánni. Þegar hér var komið var allt lið Stanleys orðið mjög huglaust, og allt virtist benda á það, að nú ætti brátt úr að skera, hvort Stanley ætti að fá framgengt fyrirætlan sinni eða ekki, því að enginn vildi fara á flot með honum. Hann stefndi því á sinn fund bæði Aröbum og öllu liði sínu, og reyndi að hughreysta þá með þessari ræðu:

«Arabar, synir Sansibars; heyrið nú það, sem eg nú mun segja yður. Sjáið þessa miklu á; frá upphafi alda hefir hún runnið myrk og lygn svo sem hún rennur enn í dag. Hvert rennur hún? Hún rennur til sjávar, svo sem allar stórár; til sjávarins, skeiðvallar hinna stóru skipa; til sjávarins, á hvers ströndum búa vinir yðrir og mínir. Engi lifandi sál hefir enn farið milli þess staðar, er nú stöndum vér á, og sjávarins. Það erum vér, er vinna eigum það frægðarverk —vér og engir aðrir. Það er skapanna dómur. Guð almáttugur hefir fyrirhugað, að áin að ári komanda verði kunn að endilöngu. Í dag læt eg setja

fram bát minn, og eg sver það, að eg mun í bát mínum vinna það verk, sem mér er ætlað að vinna. Þér menn frá Sansibar! Þér hafið nú fylgt mér svo sem börn föður gegnum mörg lönd. Vér höfum saman siglt yfir stór vötn. Eigum við tveir einir, eg og minn hvíti bróðir, að fara út í bátinn? Œtlið þér að hverfa aptur, og segja vinum yðar frá því, að þér hafið yfirgefið mig í þessu óvistlega landi og látið mig deyja? Eða ætlið þér, sem hafið þegið svo margar velgjörðir af mér, að leggja á mig hendur og binda mig, og fara heim með mig nauðugan? Segið, hvað yður er í hug. Hvar eru nú mínir hugrökku menn? Hver þoiir að verða mér samferða?»

Hugprúður Sansibar-maður, sem var formaður á Lady Alice, stökk fram og hrópaði: «Eg fylgi þér, herra, í lífi og dauða». «Og eg, og eg með» kölluðu þá fleiri; og alls gáfu sig fram 38. «Nú hefi eg nóga», sagði Stanley fagnandi, með því hann vonaðist eptir því, að hitt liðið mundi seinna meir dragast með félögum sínum.

Tippu-Tib og Arabar hans leituðust nú við að telja Stanley hughvarf, og fá hann af því, að ráðast út í aðra eins ófæru jafn fáliðaður; en hann bað hinn volduga þrælakaupmann að athuga það, að hann ávallt hefði lifað innan um eintóma þræla, og kynni því ekki að meta hinar göfuglegri tilfinningar manna, og sagði honum jafnframt skýlaust, að hann fengi ekki eyrisvirði hjá sér fyrir fylgdina, ef hann færi að draga kjark úr liði sínu með æðrumálum. En hins vegar hét Stanley því, að Tippu-Tib og hver annar, sem greiddi

ferð sína, skyldi eiga til sín að muna sem «hins örláta hvíta manns».

Og áfram var ferðinni haldið. Hvað eptir annað varð Stanley og fylgdarlið hans að berjast við villiþjóðir þær, er bjuggu meðfram ánni. Stundum voru þeir að dauða komnir af hungri; stundum voru allt að 70 manna veikir úr bólunni. Um jól skildu Arabar við Stanley, og var það nokkru fyr en um var samið; en þá voru þeir orðnir alveg huglausir. En þá var þó ekki komið nema eitthvað um 40 mílur frá Nyangwe; og á Lady Alice og 23 bátum, sem Stanley hafði náð í einni orustunni, sem hann átti við þarlenda menn, sigldi nú Stanley og lið hans lengra «inn eptir meginlandinu myrkva», eptir ánni, sem enginn vissi hvert rann. Það var alvörumikil stund, þegar Arabar skildu við Stanley; og þegar Arabar hófu upp skilnaðarsöng sinn, fengu fæstir af Stanleys mönnum tára bundizt.

Þar sem þeir skildu, var áin hér um bil 2700 álna breið, og var full af hólmum; á árbökkunum virtist vera sæmilega þéttbýlt. Á kveldin slógu þeir landtjöldum á árbökkunum; þar sem þess var kostur, fékk Stanley þarlenda menn til þess að vera leiðsögumenn, hvort sem á landi var farið, eða eptir ánni; en opt var það og, að Stanley varð að berjast bæði á landi og á bátunum við óaldarlýð þann, er varð á vegi hans, og einu sinni vann hann geysistóran bát, 85 feta langan. Smám saman þokaðist Stanley með lið sitt norður undir jafndægrahring —svo sem fyr var getið, liggur Nyangwe 65 mílum fyrir

sunnan jafndægrahring—, og einlægt rann áin til norðurs. En snemma í janúar 1877 heyrði Stanley dimman nið í fjarska. Það voru fossarnir, sem þarlendir menn höfðu sagt honum frá; þarna rennur áin, á hér um bil 10 mílna kafla, í talsverðum halla, svo að hún lækkar æði-mikið; fellur áin þar yfir 7 geysi-mikla flata palla, og fram af hverjum palli steypist hún í sjóðandi hvítfyssis-iðu, og væri það hvers manns bráður bani, að fara ofan hávaða þá. Á milli pallanna má reyndar með mestu varfærni fara eptir ánni; en þegar í nánd dregur fossunum, er það mesta háskaráð, og fengu sumir Stanleys liðar að kenna á því í ferðinni, þegar stöku bátur fyrir fífldirfsku þeirra, er á voru, kom of nærri fossunum.

Það var engum smáræðis erfiðleikum bundið fyrir þá Stanleys liða, að þurfa að höggva sér með öxum braut gegnum hina þétt-vöxnu skóga á árbökkunum,. svo að fært væri að draga bátana fram hjá fossunum. Opt kom það fyrir, að skipta varð liðinu þannig, að annar helmingurinn hjó skóginn, en hinn helmingurinn stóð viðbúinn með byssur, til þess að verjast árásum villimanna; en í lok janúarmánaðar átti Stanley því láni að fagna, að geta aptur ýtt bátaliði sínu á flot út á stórkostlega breiða á, og nú heyrðist ekki álengdar til neins fossaniðar, svo að kvíða þyrfti í bráð striti og þrautum.

Nú fór hin geysi-vatnsmikla á að beygja af vestur á bóginn, og smámsaman gat nú Stanley

fyllt upp eina hvítu skelluna á Afríku-uppdráttunum með einhverju hinu vatnsmesta árrennsli á jörðinni. Í afarmiklum sveig, er náði hér um bil 30 mílur norður fyrir jafndægrahring, rann nú Kongóáin —því eptir henni leið nú Stanley með lið sitt— vestur á bóginn, og runnu á báðar hendur stórar þverár í hana; og víða var hún svo breið, að ekki sást þvert yfir hana bakka á milli. Opt var fjörlegt á ánni, allt á ferð og flugi; fjöldi af bátum þusti út frá hinum þéttbýlu árbökkum, þar sem aldrei hafði áður sézt hvítur maður, eða jafn mikil undrasjón og Lady Alice. En þótt þetta ferðalag eptir ánni allopt væri skemmtilegt fyrir Stanley og förunauta hans, þá var þó hitt litlu sjaldnar, að það varð þeim að mestu þraut, fyrir fjandskap þarlendra manna.

Að kveldinu settist Stanley með lið sitt opt að á hólmum í ánni, til þess að geta verið óáreittur af villimönnum; en þá ætluðu skorkvikindi og önnur illyrmi að eta þá upp. Á þessum hólmum var nóg af fuglum til að skjóta, en skotin gátu hóað að þarlendum mönnum, og um það segir Stanley svo frá: «Oss sárlangaði í kjöt, en margra manna líf, míns liðs, sjálfs mín og þarlendra manna, lá við því, að eg léti í friði fugla himins». Við og við tókst Stanley að eiga vinsamleg skipti við landsbúa, og kaupa af þeim vistir; en hitt var miklu tíðara: «Vér vorum eltir eins og villidýr», segir Stanley, «og skoðaðir sem kjöt, kjöt, kjöt».

Í febrúarmánuði var Stanley og hans menn búnir að berjast 28 sinnum á ánni; en þá lagði að

honum heill floti af bátum; voru þeir 54 saman; fyrir flota þeim fór afarstór bátur, er 80 réru, en höfðingjar og hermenn stóðu í báðum stöfnum og miðskipa, og var í honum glaumur mikill af hersöngvum, bumbuslætti og glym fílabeinslúðra. Á hlummunum á árum þeirra voru fílabeinskúlur til prýðis, og á handleggjunum höfðu heldri mennirnir og hermennirnir stóra fílabeinshringa. Stanley skipaði nú bátum sínum til atlögu. Að fornum víkingasið hlífði hann liði sínu með því að skara bátana skjöldum með endilöngum borðstokkum, en skjöldum þeim hafði hann náð í bardögum þeim, sem hann áður hafði átt í; ekki lét Stanley skjóta, fyr en spjót óvinanna hvinu yfir höfðum hans manna; en þá sendi hann þeim þær sendingar, að þeir sáu þann sinn kost beztan, að flýja undan og leita lands, en Stanley lét sína menn veita þeim eptirför, og greiða atgöngu að þeim í þorpum þeirra, og komust þeir Stanleys liðar þar yfir ógrynni fílabeins. Þar var svo mikið fyrir af þessari dýrindisvöru, að það var haft í óvönduðustu áhöld.

Hálfsmissiristíma lét nú Stanley þannig berast með straumnum nærfellt 200 mílur, og gerðist margt sögulegt á leið þeirri, og víða varð hann líf sitt að verja, en einlægt þokaðist hann nær Atlanzhafi; en þá rekur hann sig aptur á geysilangan kafla, er áin féll um í eintómum fossum, og þar lá við sjálft, að Stanley færist með öllu sínu liði. Þegar áin hefir runnið þennan afarstóra sveig, sem fyr var nefndur, fyrir norðan jafndægrahring, þá fellur hún á 40 mílna löngu sviði í eintómum

hávaðastrengjum, er myndast af aflíðanda afríkönsku hásléttunnar niður undir strandlengju þá hina láglendu, er Kongóáin sker sig gegnum út í Atlanzhaf.

Á þessu svæði komst Stanley og lið hans í ótrúlegar þrautir; enginn dagur leið svo, að Stanley væri ekki einhver harmafregn sögð. Einn daginn soguðust 9 menn í foss einn, þar sem þeir voru að reyna til að koma við bát á ánni. Nú fór lið Stanleys óðum að týna tölunni; studdu að því sultur og alls konar eymd og bágindi, þreyta og strit við bátana, sem draga þurfti langar leiðir um fjöllótt land, árásir óvinanna og loptslagið. En þó féllst Stanley um ekkert jafn mikið, og þegar hann frétti það, að Frank Pocock, er einn var eptir hans hvítu förunauta, hefði drukknað í iðu í ánni. Um það segir Stanley svo:

«Þegar eg sá tóma tjaldið hans og þjónana hans harmþrungna, kom yfir mig og nísti mig svo stór sorg, að eg fæ ekki lýst henni. Þá sá eg svo glöggt, að nú hafði eg þann mann misst, er eg mundi aldrei þess bætur bíða. Hann hafði svo marg-opt hughreyst mig, þegar eg varð fyrir mannsköðum; en nú var hann mér genginn, trygðavinurinn. Æ! ef einhver annar hefði getað tekið að sér það verk, sem mér var skylt að vinna, og ef eg hefði haft vissu fyrir því, að hann mundi geta komið förunautum mínum til átthaga sinna, þá mundi eg feginn hafa hætt því, að standa í þessu stríði; þá vildi eg feginn hafa mátt setjast í bátinn minn, og láta einhvern fossinn renna mér inn

í eilífðina, þar sem mér þá fannst það sannast allra orða, að betri er skjótur dauði en löng kröm».

Á öðrum stað segir hann: «Það er ekki hægt fullkomlega með orðum að skýra allar þær hörmungar, sem eg hefi orðið að þola; en þær geta geymzt í hjarta, er finnur til allrar þeirrar eymdar, er eg hefi sökkzt í. Frank, Frank, þú ert sæll; eg vildi óska, að eg væri í þinn stað». Og enn segir hann: «Tilfinningar vorar eru nú allt aðrar en þær, er áður fylltu oss, þegar áþekkar þrautir komu fyrir. Sumum verður það fyrir að segja: Það verður sem á að verða, eða þá: Enginn má sköpunum renna, o. s. frv. Vér höfum nú ekki framar af að segja ótta þeim, er stundum áður gat komið að oss. Sál vor og taugar eru svo doðnaðar af öllu því, er vér höfum orðið að þola. Vér höfum grátið svo opt, að oss er nú úr þessu gráts varnað, og vér höfum tekið svo mikið út, að það er eins og vér ekki framar kennum neinna kvala». Þetta eina tilsvar Stanleys, er hann hafði við Afríkufara einn frá Portúgal, þegar hann var kominn vestur á strönd Atlanzhafsins: «Eg hefi orðið að berjast 45 sinnum, en fossarnir í Kongó hafa gert mig gráhærðan», gefur mönnum betur en nokkuð annað hugmynd um hörmungar þær og þrautir, er Stanley og lið hans átti í á þessum kafla leiðarinnar.

Á þessu háskalega svæði var Stanley hér um bil fjóra mánuði að komast áfram með lið sitt ekki lengri leið en fjörutíu mílur. Lady Alice var nú orðin uppslitin, og hér varð að skilja hana eptir; og með söknuði skildi Stanley við þetta fræga far,

því á því hafði hann farið hér um bil 900 mílur. Smátt og smátt svarf svo að liði Stanleys, að það var alveg að þrotum komið með krapta, og hungur vofði yfir. En þá sannaðist og hið fornkveðna: að þegar neyðin er stærst, þá er hjálpin næst. Stanley var nú kominn í nánd hinni láglendu strandlengju, og þar lá við Kongóána sú af verzlunarstöðvum Evrópubúa, er þeir áttu lengst upp með ánni, sem Emboma heitir, og er hún ekki nema 20 mílur austur frá Atlanzhafi. Þegar hann átti fáar dagleiðir að því kauptúni, sendi hann á undan sér nokkra menn með þetta bréf:

«Til hvers góðs drengs, er ensku kann í Emboma.

Eg er kominn frá Sansibar með 115 sálir, karla, konur og börn, sem eru því nær hungurmorða. Hérlendir menn vilja ekki selja oss neitt, því að þeim þykja vörur vorar einkis virði. Auk þess getum við ekki fengið neinar vistir nema þá daga, sem markaðir eru haldnir, en menn, sem komnir eru að bana af hungri, eiga ekki hægt með að bíða svo lengi. Eg hefi því tekið það til bragðs, að senda út af örkinni þrjá hina vöskustu af liði mínu, og með þeim unglingspilt, sem Róbert heitir, sem hefir alizt upp hjá ensku kristniboðunum á Sansibar, til þess að biðja um hjálp yðar. Eg þekki yður ekki, en eg hefi heyrt, að Englendingur byggi í Emboma, og þar sem eg treysti því, að þér séuð bæði kristinn og drengur góður, þá bið eg yður, að daufheyrast ekki við bæn minni. Róbert mun betur en eg geta sagt

yður frá eymdarástandi voru. Vér líðum hinn mesta skort; en ef eg fæ hjálp, þá komumst við að vonanda er til Emboma á 4 dögum; en bezt af öllu væri það, ef eg gæti fengið tíu til fimmtán bagga af hrísgrjónum, til þess að stinga ofan í tóma magana. Fái eg ekki neina hjálp, áður en tveir dagar eru liðnir, horfi eg fram á hryllilega hörmungadaga meðal míns dauðvona liðs. Ef svo væri, að þér ættuð eitthvað af óhófsvörum, öðrum eins og tei, kaffi, sykri og hveitibrauði, sem eg gæti gætt mér á, þá bið eg yður að senda mér ögn af því.

Henry M. Stanley.

P. S. Ef þér ekki kannizt við nafn mitt, þá er eg sami maðurinn sem 1871 fann hann Livingstone».

Hvítu kaupmennina í Emboma hefði ekki furðað meira á því, þótt bréf þetta hefði komið af himnum ofan, en á því, að það skyldi koma úr þessari átt; en hins þarf ekki að geta, að þeir hið allra bráðasta urðu við öllum bænum Stanleys, og greiddu fyrir honum langt um meira en hann bað um. Nú var Stanley og allt hans lið úr öllum vandræðum leyst, og 9. ágúst 1877, á 999. degi ferðarinnar, komst Stanley til Emboma, ásamt 115 förunautum sínum, og voru þeir allir líkari beinagrindum en lifandi mönnum. Frá ósum Kongóárinnar lét svo Stanley flytja sig og allt lið sitt á «stórum eldbáti» —svo kallaði lið hans gufuskip— austur til Sansibar, og kom á leiðinni við í «Höfðakauptúni»; í Sansibar kvaddi Stanley hjartanlega sitt svarta fylgdarlið, er undir forustu hans hafði

reynt svo margt misjafnt, og þaðan fór hann sjálfur aptur til norðurálfunnar.

Svo sem skiljanlegt er, fannst menntuðum mönnum um allan heim mjög mikið til um þá fregn, að Stanley hefði skotið upp vestur á Atlanzhafsströnd, eptir að hafa gert einhverja hina mikilsverðustu uppgötvun í landafræði, og var nú ekki sparað að sýna honum marghúttaðan sóma. Óðara en hann kom heim úr ferðalagi sínu, tók hann með mesta kappi, svo sem honum er lagið, til að skrásetja sín alkunnu ferðasögu, «gegnum meginlandið myrkva», og hefir sú ferðasaga verið mest lesin allra ferðasagna nú á dögum. En honum var ekki ætlað að hafa langar kyrsetur, því uppgötvun Kongóárinnar varð til þess, að ráðizt var í afarmikið stórræði, en við það þótti einkar mikilsvert að geta notið ráða og aðstoðar hins reynda Stanleys.

Meðan Stanley var á leiðinni lengst inni í Afríku, hafði Leópold Belga konungur gerzt forkólfur að afarviðfangsmiklu fyrirtæki, til eflingar sannrar þjóðmenningar. Hér verður ekkert farið út í sögu þessa fyrirtækis; vér látum þess að eins getið, að það varð til þess, að hið frjálsa Kongóríki var stofnað. Upphaflega var svo til ætlað, að hafa fastar stöðvar á Sansibarströndinni, og stofna svo þaðan hverjar stöðvarnar inn af öðrum inni í Afríku, til þess að koma á verzlun við svertingjaþjóðirnar, og mennta þær, og til þess að Afríkufararnir á þeim gæti átt hæli og athvarf. Það var þegar búið að koma á stofn nokkrum slíkum stöðvum þar eystra, þegar fregnin barst til Evrópu um

hina frægu ferð Stanleys; en jafnskjótt og Leopold konungur fékk sannar sögur af ferðalagi hans, gat hvorki honum né neinum öðrum þeirra manna, er vildu vera í samvinnu við hann, blandast hugur um það, að ekki væri annað hægt, en álíta hina afarvatnsmiklu Kongóá með öllum þveránum, sem í hana renna, eins og aðra lífæð Miðafríku, og að því mundi vera tiltækilegast að gera hana að aðalbraut hinna miklu fyrirhuguðu menningartilrauna. Og óðara en Stanley var aptur landfastur orðinn í Evrópu í janúarm. 1878, komu til hans sendimenn frá Leópold konungi, til þess að fá liðsinni hans, því afarmikið þótti undir því komið, að það fengist. En þá sem stóð var Stanley allt of mikið eptir sig eptir ferðalagið —og þurfti auk þess að semja ferðasögu sína— til þess að hann gæti sinnt því, sem Leópold konungur fór á leit við hann; en 10 mánuðum síðar fór hann á fund Leópolds konungs í Bryssel, til ráðagerðar við hann og ýmsra samninga, og réðst það með þeim, að Stanley í janúarmánuði 1879 fór til Sansibar, til þess að ráða lið í nýjan leiðangur, og var stórmannlega fengið til alls útbúnaðar. Var Stanley ætlað að koma á fót föstum stöðvum upp með Kongó, og honum gefið fullt umboð til þess, að kaupa lönd eða leigja af þarlendum höfðingjum.

Á Sansibar réð Stanley til sín 68 menn einvalaliðs; höfðu $\frac{3}{4}$ þeirra áður verið förunautar hans yfir um þvera Afríku. Með þessa menn fór hann norður eptir Rauðahafi og vestur í gegnum Miðjarðarhaf og svo suður til Kongó-ósa; og þangað kom hann í ágústmánuði, réttum tveimur árum

eptir að hann kom þangað úr sinni frægu för. Menn þeir frá Sansibar, er Stanley hafði ráðið til sín, voru ekki nema lítill hluti liðs þess af Afríkubúum, er ráðið var til þessa leiðangurs, en þeim mönnum treysti Stanley bezt í liði sínu. Þegar Stanley kom til Kongóósa, þá var þar fyrir gufuskip frá Evrópu með þá aðra hvíta menn, er til fararinnar voru ráðnir, og öll efni og tilföng til nýgræðingsstöðvanna. Það var nú svo sem sjálfsagt, að það voru ógrynnin öll af öllu því, er vant er að hafa til langferða í Afríku; en auk þess hafði gufuskipið einnig komið með efnið í nokkurs konar skemmtigarð, og í tuttugu byrgi og húskrýli, er reisa átti þegar inn í landið drægi, og auk þess hvorki meira né minna en 5 smá gufuskip, sem voru milli 24 og 60 feta að lengd, ásamt tveimur prömmum og einum hvalabát. Svo var til ætlað, að nokkur af förum þessum yrðu flutt upp yfir hið langa halllendi, er áin féll ofan fossandi vestur af Miðafríkuhálendinu; og svo átti að setja þau á flot, þegar kæmi upp að hinum langa kafla árinnar, er skipgengur er inni í miðju landinu; hin förin átti að brúka á þeim kafla árinnar, sem skipgengur er frá ósi hennar, til þess að halda uppi samgöngum milli siðaðra manna og leiðangursliðs Stanleys. Af hvítum mönnum hafði Stanley með sér tvo danska sjómenn, fimm Belgi, tvo Englendinga, einn Ameríkumann, einn Frakka.

Í lok ágústmánaðar fór Stanley með lið sitt á gufuskipum upp eptir ánni, og við ræturnar á hinu illa ræmda hjallalandi, er hafði orðið Stanley og

liði hans svo hörmulega leikseigt á hans fyrstu ferð «gegnum meginlandið myrkva», voru nú settar á stofn fyrstu áfanga-stöðvarnar, og kallaðar Vivi. Þær liggja hátt. Hér þurfti svo um að búast, að allt lið það, er var í þessum mikla leiðangri, gæti haft þar fastar stöðvar meðan ekki væri lengra komið, og haft þar öll föng þau er á þurfti að halda, þegar lengra væri sótt fram, og var þetta yfirburðamikið stórvirki og eptir því erfitt. Mörg hundruð þarlendra manna voru látin vinna að þessu, og það var nú fyrsta þrautin, að fá þá vanda við reglulega vinnu; þá þurfti og að semja við þarlenda höfðingja, bæði um landakaup og um leyfi til þess, að hvítir menn mættu ráða þegna þeirra í vinnu hjá sér. Hér var ekkert umtalsmál um það, að fara fljótt yfir land, heldur þurfti Stanley hér að ná föstum stöðvum, hæna að sér þarlenda menn, og ávinna sér traust þeirra, byggja hús, ryðja vegu, yrkja akra og aldingarða, svo að lið það, sem hafði fast aðsetur á stöðvum þessum, gæti nokkurn veginn bjargast við þau föng, er það sjálft aflaði. Meðan verið var að koma á stofn þessum stöðvum, fékk Stanley viðurnefni það, sem síðan hefir við hann haldizt þar um slóðir; hann var kallaður «Bula matari» (Hamrabrjótur), og í öllum löndunum upp með Kongó er það heiti hans; því þarlendir menn urðu öldungis forviða á að sjá, hvernig hann fór að mola sundur björg með gríðarmikilli sleggju —því annað eins áhald höfðu þeir aldrei séð— þegar hann var að kenna þeim, hvernig ætti að mölva stórgrýti til vegagerða. Og það hefir opt komið fyrir síðan, að hvítir menn,

«synir Bula Mataris», hafa ekki þurft annað til þess að láta þarlenda menn hafa beyg af sér, en að hræða þá með «Bula Matari».

Það er svo sem sjálfsagt, að hinn ötuli og einbeitti Stanley lét kappsamlega vinna, og að hann seint sem snemma hafði eptirlit með öllu. Í febrúarmánuði 1880 hafði Stanley 14 hvíta menn undir sér, og þá fyrst gat hann látið allt sitt lið eindregið ganga að því, að fara að gera veg upp með ánni að norðan- og vestanverðu yfir hið torfæra fossaland, og var vegagerð sú afar-erfið, því vegurinn þurfti að vera talsvert breiður, þar sem eptir honum þurfti að flytja tvo af gufubátunum. Skipskrokkarnir voru fluttir sér í lagi og gufukatlarnir í öðru lagi; voru þeir lagðir á afarsterka vagna, og fjölda af svertingjum beitt fyrir. Frá því í febrúarmánuði 1880 var nú Stanley í heilt ár með allt sitt lið við það, að gera veg og flytja föng sín þangað upp með ánni, sem Isangila heitir, en þar þótti honum einkar vel fallið til að búa sér nýjar stöðvar, því þar verður Kongóáin skipgeng á æðilöngum kafla, þótt ekki sé komið upp fyrir alla vestari fossana; en alla varúð þarf við að hafa, því áin er þar ákaflega straumhörð, og sumstaðar í henni eru þar háskaleg iðuköst. Það voru engin tiltök á því, að flytja allan farangurinn í einni ferð; varð því að marg-selflytja. Þar sem ekki var því torfærara, þumaðist sæmilega áfram, þetta um fjórðung mílu á dag; en stundum kom það fyrir, að mörg hundruð svertingjar voru dögum saman við það, að vinda hina þungu skipskrokka og katla í dragreipum upp brattar brekk-

ur, og má geta nærri, hvort Stanley hefir ekki stundum verið hálf órótt, þegar hann sá litlu gufubátana sína hanga á kaðli; ef strengurinn hefði slitnað, þá hefði öll sú mikla fyrirhöfn, er orðin var á því að koma þeim þangað, verið höfð til einkis, og þá varð að bíða, þangað til fengizt hefði annar skipskrokkur eða annar bátur — frá Evrópu. Yfir hinar straumhörðu þverár þar í fjöllunum varð að gera brýr, svo sem bezt voru föng á, og stundum varð að sprengja í sundur hamra til þess að geta lagt veginn.

Eptir heils árs harða vinnu var Stanley kominn með allt lið sitt og öll föng sín upp að Isangila, en sá staður er ekki nema tólf mílur frá Vivi. Þar var nú ýtt á flot öðrum gufubátnum, og þegar hann var ferðbúinn, var hann látinn skussa allan faranguriun upp eptir ánni upp á móts við Manyanga; sá staður er 15 mílur frá Isangila, ef beint væri farið. Þar var ekki annars kostur en að draga á land aptur gufubátinn og allan faranguriun, því þar féll áin fram hvítfyssandi, svo að ekki var nein tilhugsun að koma förum við. Í maímánuði 1881 varð Stanley dauðveikur; var það mest fyrir hinn sífellda óhug, sem á honum var út af voða þeim, er stöðugt vofði yfir honum og liði hans meðan hann var á leiðinni upp eptir hinu straumþunga fljóti á sökkhlöðnum bátunum. Hann var svo langt leiddur, að hann var búinn að kveðja menn sína, og segja skilið við þenna heim; en með því að hann var hraustbyggður, bar hann af sjúkdóminum, en var þó mjög lengi eptir sig.

Nú var enn haldið áfram ferðinni; en því lengra sem dró upp með ánni, því erfiðara var að halda uppi samgöngum við Vivi, svo að þeim Stanley og hans liðum var opt vistafátt. Að áliðnu ári komst Stanley loks upp að hinum langa skipgenga kafla á ofanverðri Kongó. Þar voru settar á stofn nýlendustöðvarnar Leopoldville, rétt fyrir ofan fossalandið, og þar var enn ýtt á flot gufubátunum, og voru þeir að öllu ferðbúnir öndvert árið 1882. Þannig var Stanley hálft fimmta missiri að því, að koma liði sínu og föngum upp að þeim kafla þessarar miklu ár, sem gufubátar hans síðan hafa brunað fram og aptur um; en þetta var líka aftaka mikið þrekvirki, að koma á stofn þessum mörgu stöðvum, og að flytja gufuskip inn í miðja Afríku. Það má nærri því geta, að margt muni hafa gerzt sögulegt á þessum langa tíma, og að Stanley og lið hans muni hafa komizt í margar hættur og þrautir ekki síður en á hinum fyrri ferðum hans. Landslag og loptslag og þarlendir menn varð allt samtaka í því, að gera Stanley ferðalag þetta sem erviðast, enda missti hann marga menn af liði sínu. En Stanley hafði enn sem fyr, með snarræði sínu og ósveigjanlega kjarki, sýnt það og sannað, að hann var hverjum manni betur til þess fallinn, að vera grjótpáll og forkólfur þess, sem er jafn óárennilegt og þetta var. Nú mátti hann því vel una, er hann sá blasa við sér ána, er hann hafði fundið fyrir fám árum, genga gufuskipum, er þar voru til taks, er mjög mundi greiða fyrir öllu því, er enn var eptir óunnið.

Í miðjum aprílmánuði tók Stanley sig upp frá Leopoldville á litlum gufubát, er dró aptan í sér hvalabát og tvo aðra báta, og hélt nú upp eptir ánni, og hafði hann 49 menn sér til fylgdar. Í þessari ferð var hann tvo mánuði, og á henni kannaði hann eina af þverám þeim hinum miklu, er renna sunnan í Kongó. Í þeim bygðum höfðu menn aldrei séð hvorki hvíta menn né gufuskip, og er ekki hægt orðum að lýsa, hve mjög þá furðaði á hvorutveggja. Svo hræddir urðu þarlendir menn við þetta reykfnæsanda ferlíkan, er ýlfraði og blés, að þeir við og við stungu sér út úr bátum sínum, en optast tókst Stanley að taka úr þeim skelkinn með gjöfum, og gera sér vingott við þá. Á þessari ferð sinni varð Stanley mjög veikur, og með því að hann sá, að sér mundi að þeim einum kosti auðnast að fá fulla heilsu, að hann færi undir kaldara himinbelti, þá fór hann frá Leopoldville til þess að hverfa aptur til Evrópu. Menn nokkrir frá Sansibar báru hann ofan með fossunum, því sjálfur var hann ekki fær um að ganga, og í júlímánuði komst hann ofan að Vivi; í októbermánuði 1882, eða eptir hálfs áttunda missiris burtuveru, kom hann aptur til Evrópu, og gerði hann Belgakonungi grein fyrir því, sem hann hafði afkastað.

En það þótti einkar áríðandi, að halda sem fyrst áfram þessu mikla fyrirtæki. Fyrst og fremst þótti þurfa að fá svertingjakonungana til þess að gefa upp af löndum sínum við félagið svo mikla skika, að um munaði, og svo hitt, að halda áfram að koma á stofn stöðvum upp með ánni alla þá leið,

er hún er skipgeng upp undir efri fossana, er menn munu muna að Stanley rak sig á skömmu eptir að hann kvaddi Tippu-Tib og fylgdarlið hans, á sinni frægu ferð þvert yfir Afríku. Stanley heimtaði það, að liðsafli sá, er hann hafði til umráða, væri til muna aukinn, og margt annað, er hafði mikinn kostnað í för með sér; en að öllu því var gengið, ef hann að eins vildi fyrir bindast, og fyrir það fer hann enn til Afríku, og þangað er hann kominn um jólaleytið 1882; en þar var ekki allt í svo góðu horfi, sem hann hafði gert sér von um.

Í Vivi gerði Stanley ýmsar fyrirskipanir, kippti mörgu í lag og kom mörgu á gang; eitt með öðru var það, að láta flytja enn eitt gufuskip upp fyrir fossana; og að því búnu fór hann til Leopoldville til þess að búa út í stóreflis leiðangur upp eptir ánni. Fyrst skrapp hann stutta ferð, en síðan lagði hann upp frá Leópoldville seint í ágústmánuði, og hafði nú 3 smágufuskip, einn hvalabát og gríðar-mikla eikju. Lið hans var samtals 8 tigir manna, og öll förin voru fermd ýmis konar föngum til þess að efna til stöðva á þeim stöðum, er hæfilegir kynni að þykja til þess bæði af afstöðunni og góðum kynnum við þarlenda menn. Stanley og lið hans var svo út búið, að þeir gátu verið missiri burtu frá aðalstöðvunum, Leopoldville.

Þessi leiðangur Stanleys varð alveg ný landakannanarferð. Nú voru mikil umskipti orðin á fyrir Stanley við það sem áður var. Á fyrri ferðinni sinni, þegar hann lét berast ofan ána með Lady Alice og eiknaflota sinn, var hann opt eltur

eins og eitthvert villidýr, og mátti þá ekki um annað hugsa, en að forða lífi sínu; en nú er hann fyrirliði liðs, sem vel er að öllum föngum búið —hann hafði meira að segja með dálitla fallbyssu eptir Krúpp— og gat nú engi bannað honum að skoðast um, svo sem hann lysti. Og var það, eins og nærri má geta, ekki neitt smáræði, sem gufubátarnir hans gerðu honum hægra fyrir með það. Á þessari ferð sinni kom Stanley á fót nýbýlastöðvum upp með öllum skipgenga kafla árinnar milli eystri og vestri fossanna, sem er hér um bil 200 mílna langur, og fyrir það hans ferðalag þekkjum vér nú miklu betur til árinnar og landsins. Á henni fann hann margar stórar þverár; hann sigldi langar leiðir upp eptir tveimur þeirra, og með því að stofna nýbýlin hlaut hann að komast í kynni við þarlenda menn, svo að hann hefir getað sagt oss margt fróðlegt um þá.

Enginn má ímynda sér, að þessar stöðvar, er hann setti á stofn, eða nýbýli séu neinar stórkostlegar stofnanir. Eins og á stóð fyrir honum, gátu ekki til þess verið nein tök. Á hverjum stöðvum var skilinn eptir einn hvítur maður, hvergi voru hvítu mennirnir fleiri en tveir, og undir sér höfðu þeir nokkra menn frá Sansibar, og urðu þeir að sætta sig við það, þótt þeir eigi gætu lifað við neinn ríkmannlegan aðbúnað; en að einu leyti voru þeir vel út búnir: Stanley bjó þá vel að vopnum, og svo höfðu þeir ýms föng frá Evrópu, er gerðu þá að stórauðugum mönnum í augum þarlendra manna. Þessum hvítu mönnum var nú ætlað að

vingast við landslýðinn, og með hjálp Sansibarmannanna og þarlendra manna áttu þeir að yrkja svo mikið land, að hverjar stöðvar gætu staðið straum af sjálfum sér að vistaföngum. Stöðvaformenn, er höfðu lag á því og vilja til þess, að hafa svo gott sem þeir gátu upp úr þessari stöðu sinni, að því er snerti bæði land og lýð, gátu innan skamms komið sér svo á laggirnar, að þeir höfðu notalegasta líf, og starf þeirra hlaut því þá að verða þeim skemmtilegt, eins og það varð öðrum blessunarríkt; en mönnum, sem engan dug höfðu í sér, var það engin fagnaðartilhugsun, að vera skilinn eptir inni í miðri Afríku, og það stundum innan um mannætur. Það var ekki svo mikið, að neinar reglulegar póstgöngur væri milli þessara útstöðva og aðalstöðvanna Leópoldville, er voru svo fjarska langt burtu.

Eptir 146 daga útivist kom Stanley í janúarmánuði 1884 til Leópoldville; var þar allt komið í hið bezta horf, því stöðvaformaðurinn þar hafði reynzt hinn mesti dugnaðarmaður. Á þessari ferð sinni fór Stanley alls hér um bil hálft sjöunda hundrað mílur eptir ánum.

Nú var starfa þeim lokið, er Stanley hafði tekizt á hendur að vinna; hann býr sig því hið bráðasta burt frá Leópoldville, með því að hann þá líka fékk þær fréttir frá stöðvunum í fossalandinu, að þar væri ekki allt sem skyldi. Í júnímánuði fór Stanley út úr Kongóósnum, og í næsta mánuði komst hann til Evrópu.

Í grenndinni við Kongófljótið hafði þannig smásaman myndazt nýtt ríki, og ýms ríki höfðu þegar

berlega kannazt við þessa stórkostlegu belgisku stofnun sem ríki, og urðu Bandaríkin til þess fyrst í flokki. En sum ríkin þóttust þurfa eigin hagsmuna að gæta, einkum í löndunum í grennd við Kongóósinn; og sum ríki voru mjög áfram um það, að stofna sér nýlendur og ekki sízt í Afríku; það var því þegar í upphafi kominn krytur bæði um landamerki Kongóríkisins og um ýmislegt, er snerti verzlunarhagsmuni þess og annara ríkja, og var öll þörf á að ráða þeim misklíðum til lykta, og eptir langt þóf kom öllum, er hlut áttu að máli, ásamt um, að ráða málum þeim til lykta á almennum ríkjafundi í Berlín, er kom saman við árslok 1884.

Á þessum Berlínarfundi var «hið frjálsa Kongóríki» viðurkennt af því nær öllum ríkjum, og takmörk þess voru þar skýrar einskorðuð; Bandaríkin skipuðu Stanley «sem reyndan mann og þann er gott vit hefði á málinu» fyrir ráðanaut þess umboðsmanns, er þeir höfðu á þeim fundi. Annars var mikið gumað með hann og hann hafður í virðingum miklum þann tímann, sem hann var á Þýzkalandi.

Stanley gaf skýrslu um framkvæmdir sínar þau fimm árin, er hann hafði verið í löndunum við Kongó, og greindi glögglega frá því, hvernig Kongóríkið hefði myndazt, í riti, sem hann kallaði: «Kongóáin og hið frjálsa Kongóríki. Skýrsla um framkvæmdir, landakannanir og uppgötvanir». En hann átti eptir enn eina ferðina til Afríku, og hennar var ekki langt að bíða; og voru öll tildrög þeirrar ferðar svo vaxin, að aldrei hefir mennt-

uðum mönnum út um heiminn verið jafn mikið áhugamál, að ferðir hans mætti vel takast, eins og mönnum er nú, að honum mégi farnast vel í þessari ferð.

Á meginlandinu myrkva höfðu gerzt mikil tíðindi og ill. Hinir ofsafullu óaldarflokkar falsspámannsins höfðu því nær gersamlega brotið niður ríki Egipta í löndunum upp með Níl lengst suður í Afríku. Í janúarmánuði 1885 hafði lið falsspámannsins náð Khartúm, höfuðborg Egipta í Súdan, og var það fám dögum áður en enskir hermenn og sjólið, er fór upp eptir Níl til þess að koma Gordon til liðs, voru komnir í nánd við borgina; en Gordon féll við góðan orðstír, þegar her falsspámannsins náði borginni á sitt vald. Það var ekki nema lítill skiki af hinum víðlendu Súdanseignum Egipta, er fèkk varizt því, að verða að bráð falsspámanninum og liði hans; það var hið svo nefnda jafndægrahringshérað. Í þessu skattlandi var landstjóri maður sá, er nefndur er Emin pasja, og mikið orð fer af

Þessi Emin pasja er hinn ágætasti maður; hann er þýzkur að ætt og læknir, og heitir Edvard Schnitzer; fyrir rúmum 12 árum kom hann til Súdan, og vorið 1878 skipaði Gordon pasja hann landstjóra í jafndægrahringsskattlandinu. Hann stjórnaði skattlandi sínu með mestu snild, og efldi hag þess á allar lundir, og varði það skörulega fyrir arabiskum þrælakaupmönnum og mannaveiðamönnum, því sjálfur er hann tryggur vinur svertingja og einbeittur talsmaður þeirra. Hann fékk varizt fyrir óaldarflokkum falsspámannsins. En

nú hefir hann árum saman orðið að spila alveg upp á eigin spýtur, og honum verið allrar hjálpar varnað annarsstaðar að. Í mörg ár fréttist ekkert af honum, en fyrir hér um bil þremur árum tókst öðrum frægum Afríkufara, Dr. Junker, að komast til Sansibar; en hann hafði einnig langa stund hlotið að láta fyrirberast í Súdan, vegna þess, hvað ófriðvænlegt var og agasamt þar allt umhverfis, eptir að falsspámaðurinn reisti óaldarflokka sína. Hann hafði verið sjónarvottur að því, hvernig Emin bey lagði allt sitt í sölurnar, og lét eitt yfir sig ganga og þegna sína, í hvaða þrautir og raunir sem rak; og þótt Egiptastjórn hafi leyft honum að vera laus allra mála, þá hefir hann ekki viljað yfirgefa þegna sína, af því að hann er fulltrúa um það, að framkvæmdir sínar þar í landi muni verða sannri menningu til eflingar, og um hitt er hann eigi síður sannfærður um, að svertingjarnir eru menn og góð mannaefni.

Áður en Junker er kominn frá Afríku, skrifar hann vini sínum á Englandi bréf, hamslaus af gremju yfir því, að enginn skuli hugsa um það, að liðsinna öðrum eins manni og Emin bey er, og fer hann ómjúkum orðum um slíkt rænuleysi, og skorar fastlega á menn til þess að veita honum lið. Við þetta bréf var eins og menn vöknuðu af draumi, og fóru nú að hugsa um Emin pasja, og studdu blöðin á Englandi og Þýzkalandi trúlega að því, og á Englandi var það ráðið, að senda honum lið til styrktar. Nokkrir auðmenn á Englandi lögðu fram fé allríflegt, og Egiptastjórn bauð einnig fram fé. Stjórnin á Englandi vildi ekki láta neitt

við sig koma leiðangur þann, sem ráðinn var til liðs við Stanley, en var þó máli þessu á ýmsan hátt hlynnt.

Það var ekki annað en það, sem við mátti búast, að öllum þótti einsætt að leggja að Stanley, hinum frægsta allra þeirra Afríkufara, er nú lifa, til þess að fá hann til að bindast fyrir leiðangri þeim, sem ráðinn var. Hann var þá í Ameríku; en daginn eptir að hann fékk vírskeytið um, að menn óskuðu liðsinnis hans, var hann kominn á leið til Evrópu. Í Lundúnaborg var þegar tekið til að búa til leiðangurs þessa, og óspart til fengið. Liði því, er Stanley átti fyrir að bindast, var ekki það eitt ætlað, að fara hina löngu leið til Wadelai, sem eru aðalstöðvar Emins pasja upp með Níl; því var einnig ætlað að koma til hans vopnum, skotföngum og öðrum nauðsynjum, sem hann hafði vantað í mörg ár, og varð því leiðangur þessi að vera mjög stórkostlegt fyrirtæki. Stanley fór á fund Belgakonungs, og hét konungur því, að greiða fyrir leiðangrinum með því að ljá Stanley svo sem hann þyrfti gufuskip Kongóríkisins á Kongóánni, og við það fór Stanley til Egiptalands. Þeir menn, er kunnugir voru því, hvernig til hagaði, voru ekki á eitt sáttir um það, hverja leið tiltækilegast mundi að fara með leiðangursliðið; sumir lögðu það til, að taka sig upp einhversstaðar af Sansibarströndinni, og fara um þvera Austurafríku inn í Súdan; en Stanley hélt því fram, að fara upp með Kongó. Hann kvað það hægðarleik, að koma öllu liðinu lengst upp

með Kongó, en þaðan var miklu styttri landleiðin austur í Súdan, en vestur í Súdan, ef hin leiðin var farin, og því miklu minni erfiðleikum bundið, að koma áfram ferð sinni við fjölmenni mikið.

Þegar það var fullráðið, að gera út leiðangur þenna, þá voru send vírskeyti til Sansibar um það, að ráða burðarmenn til ferðarinnar. Sjálfur fór Stanley frá Egiptalandi til Sansibar, og þar lá gufuskip, búið til þess að flytja hann og lið hans vestur að Kongóósum sunnan fyrir Afríku. A Sansibar hitti Stanley fornkunningja sinn Tippu-Tib, og gerði Stanley, fyrir hönd Belgakonungs, samning við hann, sem mörgum þykir misráðið. Á síðustu árum höfðu Arabar tekið sér fastar stöðvar í löndunum við ofanverða Kongó, og tekið á sitt vald austustu stöðvar Kongóríkisins, þær er voru uppi við efri fossana; þó hefir það að öllum líkindum verið svo, að Tippu-Tib hefir ekki verið þar í ráðum. Tippu-Tib gekk að þeim kostum, að skila aptur Kongóríkinu þessum austustu stöðvum þess og enga áleitni hafa á lönd ríkisins upp með Kongó; í öllum þeim löndum var bönnuð þrælaverzlun; en Stanley galt honum fé fyrir, sem um samdi. Auk þess hét Tippu-Tib Stanley því statt og stöðugt, að útvega Stanley mikinn fjölda burðarmanna. Tippu-Tib varð þannig nokkurs konar landsstjóri í nokkrum hluta af Kongóríkinu, og það þeim, er nú var mest um vert að yrði á góðs manns valdi; en raun verður þar vitni um að bera, hvort það hefir verið happaráð eða óráð Stanleys, sem að vísu

er reyndur maður, að eiga nokkuð undir drengskap hins slægvitra Araba.

Í lok febrúarmánaðar 1887 lét Stanley út frá Sansibar með allt lið sitt; voru í því alls 8 hvítir menn; þar var Tippu-Tib með kvennalið sitt og mikla sveit manna; í liði Stanleys voru 60 egipzkir hermenn frá Súdan, og yfir 600 menn frá Sansibar; alls var þetta nær 800 manna. Í miðjum marzmánuði kom leiðangursliðið að Kongóósum, og fór svo þaðan af stað, fyrst upp eptir ánni spölkorn meðan hún er skipgeng, síðan yfir hið torfæra land upp fyrir neðri fossana, og komst eptir ýmsar þrautir í lok aprílmánaðar upp að Leópoldville, og 1. maí gat svo Stanley haldið með allt lið sitt áfram ferðinni á mörgum gufuskipum upp eptir hinum langa skipgenga kafla Kongóárinnar.

Stanley fór upp eptir þverá þeirri, er rennur austan í Kongó og Arúwimi heitir, og komst hann með þann hluta liðs síns, er á undan var, upp að Jambúgafossunum *19. júní*; þessir fossar eru eitthvað um 20 mílur frá ármótunum, og þar víggirti Stanley herbúðir, og setur þar til gæzlu mann þann, er Barttelot hét, majór í enska hernum, og átti hann að bíða þar, en koma svo á eptir Stanley, þegar Tippu-Tib, sem fór austur að eystri fossum (Stanley-fossum), væri búinn að draga saman nógu mikið lið burðarmanna til þess að flytja öll föng þau, er færa átti Emin pasja.

Undir lok júnímánaðar 1887 tók Stanley sig upp frá Jambúga með 4 hvítum mönnum og hálfu

fimmta hundraði burðarmanna og hermanna til þess að fara til Wadelai, og upp frá þeim tíma hafa menn engar vissar fregnir fengið. Síðasta brèfið, sem komið hefir til Evrópu frá Stanley, er dagsett: Jambúga 23. júní 1887, og er skrifað fám einum dögum áður en hann skyldi við Barttelot. Allt það, sem síðan hefir frétzt af Stanley, er ekkert annað en flugufregnir, eða þá frásögur strokumanna, en þær sögur er viðlíka mikið að marka. Áður en hann var kominn upp að Jambúgafossum var hann sagður dauður, og síðan hefir hann verið marg-sagður annaðhvort særður eða dauður. Það er marg-opt búið að skrifa æfiminningu hans; en það hefir opt komið fyrir áður, að Afríkufarar hafa fengið að lesa sögurnar um æfilok sín, þegar þeir komu heim aptur úr ferðum sínum með góðu lífi. Svo var það um Samúel Baker, þann er fyrri var nefndur, er fann minna stöðuvatnið, það er Níl kemur úr. Í tvö ár og 5 mánuði hafði ekkert af honum frétzt. Og frá Grant ofursta, er var förunautur Spekes kapteins, er fann stærra stöðuvatnið, er Níl kemur úr, fréttist ekkert í 21 mánuð. Pílagrímar Múhameðstrúar hafa í Súakin við Rauðahaf sagt frá því, að þeir á leiðinni vestan úr Afríku hafi frétt til þess, að pasja einn hvítur hafi verið á leiðinni í landinu fyrir norðan skattland Emins með óvígan her, og hafa sumar fregnir búið Stanley til úr þeim hvíta pasja.

Jafn skjótt og Stanley yfirgaf herbúðir sínar, steig hann fæti á byggðir, sem Evrópumenn aldrei áður hafa farið um, en eigi að síður þykjast menn

þó svo mikið um þær vita, að þar muni afartorfært yfirferðar vegna skóga og foræða, og að þarlendir menn eru hraustir og harðfengir, svo að arabisku þrælakaupmennirnir hafa opt fengið á því að kenna. Stanley hafði bát með sér, og ætlaði hann sér að komast að vatni því enu minna, er Níl rennur úr, en þangað er frá Jambúga 80 mílur, ef beint er farið. Þegar hann væri kominn að vatninu, taldi hann sér hægt að ná saman við Emin pasja, er hafði aðalstöðvar sínar í Wadelai, sem er ekki nema 10 mílur frá vatnsósnum norður með Níl. Síðustu fregnir frá Emin pasja eru frá nóvembermánuði 1887, og þá hafði hann tvö gufuskip.

Heilu ári síðar en Stanley fór frá Jambúga, gat Barttelot majór tekið sig upp, eptir mikið amstur, með mörg hundruð burðarmenn, er Tippu-Tib hafði útvegað. En skömmu eptir að hann lagði upp, drápu burðarmenn hans hann; sundraðist við það öll sú sveit, og er auðsætt, að ólán þetta getur orðið bæði Stanley og Emin pasja að hinu mesta óliði. Ókominni tíð er ætlað úr því að leysa, hvað nú muni líða ferðum Stanleys um meginlandið myrkva, en bezt er að muna eptir því, að hinn frægi ferðagarpur hefir opt áður vel ráðið fram úr því, er engum mundi hafa í hug komið í að ráðast.

---

Eptir að þetta var ritað, hafa borizt, nú í haust (1889), þær frjettir af Stanley, að þeir Emin pasja og hann væru langt á leið komnir austur á Sansibar, en Wadelai, aðsetur Emins pasja, í hers höndum, af liði falsspámannsins.
*Ritstj.*

# Stúlkan frá Bretagne,

eptir

André Theuriet.



Það var kveld eitt í nóvembermánuði, einmitt kveldið fyrir Katrínarmessu, að dyrnar á hegningarhúsinu í Auberive voru opnaðar, og þar kom út kvennmaður hjer um bil þrítug að aldri. Hún var klædd upplituðum kjól úr ull; á höfðinu hafði hún ljereptsskýlu, sem var eins og umgerð utan um hið föla andlit. Hún var þykkleit í framan, en það var þessi litlausa fita, sem leiðir af fæðinu í fangelsunum. Kvennmaður þessi var fangi, sem sleppt var úr hegningarhúsinu. Fjelagar hennar þar kölluðu hana «*La Bretonne*», eða stúlkuna frá Bretagne.

Hún hafði verið dæmt fyrir barnsmorð. Það voru liðin rjett 6 ár síðan hún hafði verið flutt í hegningarhúsið í lokuðum vagni. Hún fór aptur í hin gömlu föt sín, sótti í skrifstofu fangavarðarins peninga þá, er hún hafði aflað með vinnu sinni, og stóð nú loksins frjáls með vegabrjefið sitt í hendinni; en vegabrjefið var til *Langres*.

Póstvagninn til *Langres* var kominn af stað. Hún hjelt því til helzta veitingahússins, en var bæði hrædd og feimin, og lá henni opt við að hrasa. Með skjálfandi röddu beiddist hún gistingar um nóttina, en veitingahúsið var fullt af gest-

um, og gestgjafinn hirti lítið um að hýsa þess konar fugla. Hann ráðlagði henni því, að fara í veitingahús það, er væri í hinum enda bæjarins.

Stúlkan gekk þangað, enn þá feimnari og hugminni en áður, en barði þó þar að dyrum. Veitingahús þetta var í rauninni eigi annað en drykkjustofa, þar sem að eins óbreyttir hermenn sátu að drykkju. Veitingakonan virti hana fyrir sjer, og var heldur tortryggileg á svipinn. Hana hefir án efa grunað, að stúlkan kæmi úr hegningarhúsinu; því að loksins rak hún hana burtu, með því að hún kvaðst aldrei lofa neinum að vera þar nætursakir. La Bretonne þorði eigi að herða að henni með gistinguna, og gekk í burtu, álút og hnuggin, en í hjarta hennar vaknaði hatur til allra manna, þar sem þeir höfðu þannig snúið við henni bakinu. Hún hafði nú engin önnur úrræði, en að leggja af stað fótgangandi til Langres.

Þetta var síðast í nóvembermánuði. Nóttin fellur þá snögglega á. Myrkrið datt líka brátt yfir hana; hún sá varla götuna, sem lá á milli tveggja skóga, en kaldur norðanvindur þeytti í sundur stórum hrúgum af visnum laufblöðum.

Hún kunni eigi að ganga, eptir kyrsetuna í þessi sex ár, sem hún hafði verið lokuð inni; hnjáliðirnir voru eins og bundnir; fætur hennar kunnu eigi við sig í nýju skónum, eptir tréskóna, sem hún hafði haft í hegningarhúsinu. Þá er hún hafði gengið eina mílu, voru komnar vatnsblöðrur á fæturna, og hún þegar þreytt orðin. Hún settist skjálfandi á stein, og spurði sjálfa sig, hvort hún

ætti sannarlega að deyja af kulda og hungri á þessari hinni koldimmu nóttu, og í þessum ískalda næðingi, sem komið hafði kuldahrolli í hana. Allt í einu þóttist hún heyra gegnum vindhviðurnar, þar sem hún sat einmana, langdreginn hljóm. Hún fór að hlusta, og heyrði þá, að það var mannsrödd, sem var að syngja. Söngurinn var blíðlegur og tilbreytingarlaus, eins og þegar verið er að svæfa börn. Hún reis á fætur og gekk á hljóðið. Þar var bugða á veginum, og sá hún þá dauft ljós skína á milli trjánna. Fimm mínútum síðar kom hún að gömlum húskofa; veggirnir voru úr leir, en þakið úr torfi. Eigi var nema einn gluggi á kofanum, og út um hann lagði bjartan geisla. Með angist í huga rjeðst hún þó í að berja að dyrum. Söngurinn hætti, og bóndakona kom út og lauk upp. Kona þessi var á líkum aldri og La Bretonne, en vinnan hafði þegar gert hana þreytulega og ellilega. Treyja hennar var opin að framan, og skein í bert hörundið, brúnt og sólbrennt; hárið var rautt og úfið, og lafði niður undan dálítilli húfu, sem hún hafði á höfðinu. Kona þessi var gráeygð. Með undrun horfði hún á ókunnugu stúlkuna, sem var eitthvað frábreytt öðrum.

«Gott kveld», sagði hún, og lypti upp lampatýrunni, sem hún hjelt á í hendinni; «hvað viljið þjer?»

«Jeg kemst eigi lengra», tautaði La Bretonne með grátraust; «það er svo langt til bæjarins; og ef þjer viljið lofa mjer að vera í nótt, gerið þjer

mjer mikinn greiða. Jeg á nokkra peninga, og jeg skal borga yður fyrirhöfn yðar».

«Komið þjer inn», svaraði konan eptir litla bið, og bætti síðan við: «Hvers vegna gistuð þjer eigi í Auberive?» Í röddinni lá fremur forvitni en tortryggni.

«Af því, að enginn vildi lofa mjer að vera», svaraði La Bretonne, og horfði í gaupnir sjer um leið; hún varð gagntekin af samvizkubiti, og bætti við: «en það var af því, að jeg kem úr hegningarhúsinu, og menn fá eigi traust annara á sig við það».

«Nú, komið þjer inn allt um það; jeg verð eigi hrædd við neitt; jeg hefi aldrei átt við annað en eymd að búa. Það þarf samvizku til að reka nokkurn kristinn mann út í þenna kulda. Jeg skal búa yður rúm úr lyngi».

Að svo mæltu sótti hún fullt fang sitt af þurru lyngi, sem lá í byrgi einu þar hjá, og fleygði því í hornið hjá eldstónni.

«Búið þjer hjer einar?» spurði La Bretonne hálf feimin.

«Já, með krakkann minn, sem er á sjöunda árinu», svaraði hin; «jeg hefi ofan af fyrir okkur með því að vinna í skóginum».

«Er maðurinn yðar dáinn?» spurði La Bretonne.

Hin brást reið við og mælti: «Jeg hefi aldrei átt neinn; aumingja-krakkinn minn á engan föður. Hver hefir sinn djöful að draga. Nú er rúmið yðar til búið. Hjer eru tvær eða þrjár kartöflur,

sem eptir urðu af kveldmatnum; það er allt og sumt, sem jeg get boðið yður».

Samræðan varð ekki lengri; því þá heyrðist barnsrödd úr næsta herbergi, en það var afþiljað frá fremra herberginu. Þar var myrkur inni. «Góða nótt», mælti húsmóðirin; «jeg verð að fara til litlu telpunnar; hún er orðin hrædd. Reynið þjer að sofa vel í nótt».

Hún tók lampann, og fór inn í hitt herbergið, en skildi La Bretonne eptir í myrkrinu. La Bretonne lagðist á lyngið. Þá er hún hafði borðað, reyndi hún að láta aptur augun, en gat samt eigi sofnað. Í gegnum þilið heyrði hún, að konan var að tala í hálfum hljóðum við litlu telpuna, sem hafði vaknað við komu hinnar ókunnu stúlku, og vildi eigi sofna aptur. Móðirin hampaði henni, og faðmaði hana að sjer með gæluorðum. Það hafði undarleg áhrif á La Bretonne, að heyra þessi einföldu orðatiltæki; þessi blíðyrði vöktu óljósar móðurtilfinningar í brjósti hennar, sem forðum var dæmd fyrir að hafa kæft nýfætt barn sitt. Hún hugsaði með sjer: «Ef viðburðirnir hefðu eigi snúizt í svona vonda stefnu, þá hefði litla barnið mitt verið núna jafn-gamalt þessari litlu stúlku». Við þessa hugsun og við hljóm hinnar barnslegu raddar fór hrollur um hana alla; einhver blíða læsti sig inn í hið beiska og harðsvíraða hjarta, og hana sárlangaði til að gráta.

»Nú, nú, litla telpan mín, flýttu þér nú að sofna» sagði móðirin. «Ef þú ert þekk, skal jeg fara með þig á morgun á markaðinn, sem haldinn er í minningu hinnar heilögu Katrínar».

«Katrínarmessa, það er hátíð litlu stúlknanna; er það eigi mamma?», sagði barnið.

«Jú, elskan mín».

«Er það satt, að hin heilaga Katrín færi öllum litlu börnunum leikfang á þeim degi?»

«Já, stundum».

«Hví kemur hún aldrei með neitt til okkar?»

«Við búum svo langt í burtu, og auk þess erum við líka svo fátækar».

«Færir hún þá einungis ríkum börnum leikfang? og hvers vegna? Mjer þykir líka gaman að leikfangi».

«Jæja, ef þú ert góð og þekk að sofna, gefur hún þjer ef til vill líka einhvern tíma eitthvað».

«Þá ætla jeg að sofna, til þess að hún færi mjer gull á morgun».

Því næst þögnuðu þær, og mátti þá heyra ljettan og reglulegan andardráttinn. Barnið var sofnað, og móðir þess líka. La Bretonne ein svaf eigi. Tilfinningar, sem bæði angruðu hana og þó blíðkuðu, lágu þungt á hjarta hennar, og aldrei hafði hún hugsað eins mikið um litla aumingjann, sem hún hafði kæft fyrir 6 árum, eins og þá. Svona leið nóttin, unz birta tók.

Óðar en bjart var orðið —þær mæðgur sváfu þá vært— læddist La Bretonne hægt út, gekk hratt í áttina til Auberive, og nam eigi staðar, fyr en hún kom að fremstu húsunum. Hún gekk því næst hægt upp eptir hinni einu götu bæjarins, og horfði á nafnbríkurnar á búðunum. Loksins var

eins og eitt húsið vekti eptirtekt hennar. Hún barði á gluggahlerann, og var hann brátt opnaður. Þetta var glysvarningsbúð. Þar mátti líka fá barnagull, en það var lítilfjörlegt, og af því allur nýi blærinn; það voru brúður úr þykkum pappír, örkin hans Nóa og kindur. Sölukonan varð alveg hissa, er La Bretonne keypti það allt saman, greiddi verðið, og hjelt síðan af stað.

Hún var komin á leiðina aptur til kofans, þar sem hún hafði gist um nóttina; þá var allt í einu hönd lögð á öxl hennar. Hún snjeri sjer við, og það kom í hana titringur, er hún sá, að frammi fyrir sjer stóð lögregluþjónn. Aumingja stúlkan hafði gleymt, að það var bannað föngum, sem lausir voru látnir, að dvelja nálægt hegningarhúsinu.

«Í staðinn fyrir að flækjast hjer, áttuð þjer þegar að vera komin til Langres», sagði lögregluþjónninn byrstur. «Áfram; af stað».

Hún ætlaði að skýra fyrir honum, hvernig á stæði. Það var til einkis. Á svipstundu var búið að útvega kerru, og stúlkan var látin fara upp í hana undir umsjón lögregluþjóns, og vagnstjórinn sló í hestinn. Kerran skokkaði upp og niður eptir freðinni götunni. La Bretonne kreisti með sorgarsvip böggulinn, sem barnagullið var í, milli handanna, sem voru krókloppnar. Við bugðu á veginum þekkti hún aptur hina óglöggu götu milli trjánna. Hjartað í henni barðist af gleði; hún grátbændi lögregluþjóninn að nema staðar. Hún sagðist hafa erindi til konu einnar, sem byggi þar eigi þverfóta frá; hún beiddi með svo miklu þreki og svo innilega,

að lögregluþjónninn, sem var í rauninni góður maður, ljet tilleiðast. Hesturinn var bundinn við trje, og þau héldu eptir litlu götunni.

Fleuriotte —þannig hjet konan— stóð fyrir utan dyrnar á kofa sínum, og var að kljúfa spýtu. Þá er hún sá gest sinn í för með lögregluþjóni, hætti hún öllum tökum, stóð með opinn munninn og ljet hendurnar hanga niður.

«Þei, þei», sagði La Bretonne, «sefur litla lóan enn þá?»

«Já — en . . .»

«Farið þjer hægt, og leggið þetta barnagull á rúmið hennar, og segið, að það sje hin heilaga Katrín, sem sendi henni það. Jeg sneri aptur til Auberive til þess að sækja þetta, en það virðist svo, sem jeg hafi eigi haft rjett til þess, og nú er verið að flytja mig til Langres».

«Heilaga guðs móðir», mælti Fleuriotte.

«Þei, þei» . . .

Þær gengu báðar að rúminu, og lögregluþjónninn á hælunum á þeim. La Bretonne lagði á yfirdýnuna brúðurnar, örkina hans Nóa og kindahúsið með kindunum í, kyssti svo á beran handlegg barnsins, sneri sjer að lögregluþjóninum, sem var að þurka sjer um augun, og mælti:

«Nú getum við farið».

(Ísl. hefir *Þ. F.*).

# Köngurlærnar,

eptir

Emile Blanchard.

—⋙—

*Herbert Spencer* segir á einum stað í hinu fræga riti sinu *Um uppeldi:*

«Ætlar þú, að vatnsdropinn, sem í augum almennings er ekkert annað en vatnsdropi, missi nokkurs í augum vísindamannsins við það, að hann veit, að aðalefni hans haldast saman af krapti þeim, sem mundi leiða fram eldingu, ef hann allt í einu yrði frjáls? Ætlar þú, að það, sem í augum almennings er ekki annað en blátt áfram snjókorn, veki ekki hærri hugsanir hjá þeim, sem í gegnum stækkunargler hefir sjeð hinar breytilegu og fögru myndir snjókristallanna?» o. s. frv.

Það er einsætt, að mikill sannleikur er fólginn í þessum orðum; og það hið sama, sem hjer er sagt um vatnsdropann og snjókornið, má segja um hvað eina í náttúrunni; oss sýnist það flest svo hversdagslegt, svo lítilfjörlegt, að vjer gefum því ekki gætur; en hve undrunarvert og fullkomið er þó ekki hvert lítið blóm, hvert lítið skorkvikindi, eins og það er búið frá hendi skaparans!

Það er einnig mikill sannleikur fólginn í þessum orðum Spencers:

«Þeir, sem aldrei hafa haft vísindin um hönd,

sjá að mestu leyti ekki þann skáldskap, sem er allt í kring um þá».

Jeg vildi með þessum línum vekja eptirtekt lesendanna á litlu dýri, sem fyrirlitning er á höfð, og sumir jafnvel eru hálfhræddir við, þótt ekki sje mikil ástæða til þess. Dettur mjer ósjálfrátt í hug saga um Jeanne d' Arc, sem jeg einhverstaðar hefi lesið. Þessi mikla kvennhetja, sem Englendingar flýðu fyrir við Orleans, sem flutti Karl konung gegnum þann hluta Frakklands, þar sem óvinirnir voru flestir, til þess að hann yrði krýndur í Reims, þessi unga mær, sem ekki kunni að hræðast í bardögum, aldrei fann til hræðslu í hinum voðalegustu orustum, hún æpti upp yfir sig, ef köngurló settist á hönd hennar. Það er þetta litla kvikindi, sem jeg ætla stuttlega að lýsa.

Forn-Grikkir höfðu æfintýri til að skýra með það í náttúrunni, sem þeir skildu ekki. Þeir segja svo frá uppruna köngurlónna:

«Í Lydíu var ung og fögur mær, Arachne að nafni. Hún var svo vel að sjer í vefnaði, að enginn gat við hana jafnazt; en einu sinni varð henni á, að styggja Mínervu, sem hegndi henni með því, að hún missti hina kvennlegu fegurð sína og varð að köngurló; samt hjelt hún nafni sínu og hagleik».

Köngurló heitir á grísku *arakne*.

Köngurlær lifa bæði í hinum heitu og köldu löndum; sá er samt munurinn, að í heitu löndunum eru þær stærri og litfegurri. Á þeim er höfuðið samvaxið brjóstinu, og líkaminn því ekki nema tvískiptur, í framhluta og apturhluta; á höfðinu eru augun, vanalega 8, en það er mismunandi,

hvernig þau eru sett, eptir tegundum. Ekki geta köngurlærnar rennt til augunum, eins og mennirnir; það er að sönnu mikill galli, en hann er bættur upp með því, að augun eru svo mörg og snúa í sína áttina hvert.

Þessi litlu kvikindi geta engu hljóði komið upp og heyra heldur ekki neitt hljóð.

Á höfðinu eru tvær sterkar griptengur; yzt á þeim eru eins og ofurlitlar klær; þær eru holar, og gegnum þær rennur eitrið, sem kemur úr eiturkirtlunum. Köngurlóin drepur önnur smádýr á eitri þessu, áður en hún jetur þau; ekki eru köngurlær samt hættulegar mönnum, að minnsta kost ekki þær tegundir, sem lifa í Evrópu.

Köngurlóin hefir 8 fætur, og eru þeir á framhlutanum; yzt á þeim eru hreifanlegar klær, að innanverðu lagaðar líkt og kambar með tönnum, en þær eru svo litlar, að þær sjást ekki nema í stækkunargleri. Bæði bolur og útlimir eru þaktir smáum hárum, dún og broddum; hár þessi eru verkfæri tilfinningarinnar; ef eitt af hárum þessum er látið undir stækkunargler, má sjá, að það er líkt fjarskalega smágerðri fjöður.

Á apturhluta líkamans eru spunavörturnar; þær eru keilumyndaðar, með óteljandi götum; úr þeim kemur límkenndur vökvi, sem köngurlærnar spinna úr; hann harðnar við áhrif loptsins, og búa þær til úr honum vef, til að veiða í flugur og skorkvikindi, og til skýlis ungum sínum.

Köngurlóarþráður, sem menn taka sem dæmi um smágerð, er þó í rauninni margir þræðir, sem köng-

lóin tvinnar saman með fótunum, og koma þá áminnztir kambar að góðum notum.

Mönnum hefir opt komið til hugar, að nota köngurlóna á líkan hátt og silkiorminn. Árið 1710 reyndi Bon nokkur í Montpellier, að safna og nota silki það, er hinar smávöxnu köngurlær í vorri álfu búa til; honum heppnaðist og, að búa til úr því sokka og vetlinga; voru þeir síðan sendir vísindafjelaginu í París, en Réaumur, sem átti að semja álitið um það, sagði, að vísindafjelagið hefði haft ánægju af að sjá þessa hluti, og hrósaði Bon fyrir nákvæmni hans, en sagði jafnframt, að fjelagið hjeldi, að ekki yrði mikið grætt á þessari uppgötvun. Hann nefndi margt þessu til sönnunar, meðal annars það, að ekki þyrfti minna en 663,552 köngurlær til að búa til eitt pund af silki. — Upp frá þessum tíma hafa ýmsar tilraunir gerðar verið í sömu átt, án þess að árangurinn yrði meiri.

Skapnaður köngurlónna að innan er enn undrunarverðari; en hjer mundi of langt mál, að lýsa honum út í æsar, t. a. m. hinu fullkomna taugakerfi, maganum o. s. frv.

Köngurlóin andar með nokkurs konar lungum, sem þó eru mjög ólík lungum mannsins. Hugsum oss fjarska-litla poka úr þunnri himnu; innan í pokum þessum eru aptur flatar blöðrur, hver ofan á annari, eins og blöð í bók; blóðið rennur inn á milli hinna örþunnu blaðra, en loptið leggur inn í þær um smáar rifur neðan á maganum. Hjartað

er undir hryggnum, og er svo fullkomið, að furðu gegnir.

Lengi vel stönduðu allar tilraunir, að uppgötva æðar þær, er leiddu blóðið um líkamann.

Blóðið hefir engan lit, og sökum þess verður að spýta inn mislitum vökva, til þess að geta sjeð æðarnar og fylgt rás þeirra. Það eru hjer um bil liðin 40 ár, síðan að ungum náttúrufræðingi tókst að fylla aðalslagæðarnar; en hann hafði að eins vanalega köngurló til þess að gera tilraunir sínar á. Menn vonuðust því eptir betri árangri, ef tekin væri stór köngurló frá heitu löndunum til tilraunanna. Þetta var líka gert, að ein af hinni stærstu tegund, sem kunn er, var fengin frá Suður-Ameríku. Einn dropi af vínanda var nógur til að svipta hann meðvitundinni, án þess þó að drepa hana. Hún var látin í skál með vatni, þannig, að hjartað var sjáanlegt; með oddinum á ofursmágerðri nál var gert gat á það, og gegnum þessa litlu rifu var spýtt inn gulum vökva. Tilraunin heppnaðist; allar slagæðar fylltust út í yztu æsar.

Síðar fengu menn fleiri lifandi köngurlær af sömu tegund, til að gera tilraunir á. Nú tóku menn að rannsaka blóðæðarnar, og ekki leið á löngu, áður þeir gátu sannað, hve undursamlega því er fyrir komið, er blóðið stígur frá lungnapokunum, sem eru á búkhliðinni, upp í hjartað, sem er á bakhliðinni.

Köngurlærnar eru vanalega mjög frjósamar; þó sjest ekki tala þeirra fjölga um of í neinu landi, og kemur það til af því, að frjósemi allra dýra er

í samræmi við þær hættur, sem þeim eru búnar. Að því er köngurlærnar snertir, eru þessar hættur smáfuglar og skorkvikindi, sem þykir köngurlóin góð fæða. Undir eins og ungar köngurlónna koma úr eggjunum, eru þeir þegar mjög líkir foreldrunum. Þótt köngurlærnar sjeu umhyggjusamar mæður, sýnist samt svo, sem þær hafi ekki tilfinningu fyrir öðru en afkvæmi sínu, sem þær elska mjög. Undir eins og ungarnir geta verið án móður sinnar, byrja þeir einsetulíf sitt, ókunnir tilveru annara köngurlóa, og ef einhver köngurló verður á vegi þeirra, gleypa þeir hana miskunnarlaust. Svona lifir hver köngurló ein sjer, þangað til móðurskyldurnar koma. Í heimi þeirra er engin hjúskaparást; vilji karldýrið hafa samfarir við kvenndýrið, verður það að sýna hina mestu varkárni; það hefir einhverja tilfinningu um, að ekki muni verða tekið vel á móti sjer. Ef karldýrið er lipurt, getur það eðlað sig við kvenndýrið í einu vetfangi og verður svo að flýta sjer burt, til þess að hún gleypi sig ekki; kemur það sjer því vel, að karldýrin hafa lengri fætur en hin grimmlynda kvennþjóð, og eru þau ekki lengi að koma sjer undan og fela sig.

Þetta, sem hjer hefir sagt verið, á við allar köngurlær. En hver tegund hefir sína siði, lifnaðarhætti og iðnað. Vjer skulum nú virða dálítið fyrir oss hinar sjerstöku tegundir.

Opt sjáum vjer í einhverju horni á herberginu útþaninn vef, og í honum köngurló, sem situr um bráð sína; það er sú köngurló, sem á latínu er

kölluð «tegnaria domestica». Hún hefir svo miklar mætur á hýbýlum vorum, að hún notar þau sem væru þau gerð einungis fyrir hana, og er hún því í öllum húsum, þar sem menn á annað borð þola návist hennar.

Hún er ágæt spuna-nipt og býr til mikið silki; hún notar klærnar til að kemba það með, og má nærri geta, að það muni vera vönduð vinna, sem unnin er með svo frábærlega smágervum tólum. Vefurinn er mjallhvítur, meðan hann er nýr, en ekki líður á löngu, áður en rykið hefir saurgað hann. Húsköngurlóin er huglítið dýr, og ekki kann hún vel við sig, nema hún eigi hægt með að flýja. Hún hefir því gætt þess, að hafa smugu á veggnum í horninu, þar sem hún geti falið sig, ef hún heldur, að einhver ætli að ónáða sig.

Þegar sá tími kemur, að hún fer að verpa, býr hún til hylki utan um eggin, og er það úr silki hennar; það felur hún svo undir einhverju, t. a. m. dúnhnoðra eða mosaögn, til þess að verja eggin fyrir græðgi þeirra dýra, sem þykir gott að jeta þau.

Meðan á klakinu stendur, er hin umhyggjusama móðir ávallt nálægt eggjum sínum, til að gæta þeirra, og gleymir á meðan að taka til sín fæðu. Þegar ungarnir eru komnir úr hylkinu, snýr köngurlóin aptur að vefnum, og er þá mjög natin að grípa hverja bráð, sem hún nær í, til þess að styrkja sig, og nú falla flugurnar hrönnum saman, og sjá má líkama þeirra liggja um allt gólfið. Köngurlóin gerir ekki nema sýgur úr þeim blóðið. Hún vill ekki annað en vökvun.

Meðal allra skepna eru til ríkir og fátækir. Svo er og um köngurlærnar. Sumar framleiða fjarska mikið spunaefni, sem endurnýjast stöðugt; aðrar aptur á móti að eins lítið. Þær, sem ekki hafa efni á að búa sjer til skýli eða snöru, búa í holum undir steinum og visnum blöðum, og ganga á veiðar; þær sjást því opt á hlaupi í holtum eða engjum. Margar þeirra kunna vel við sig á tjarnarbökkum, og jafnvel á sefi og öðrum plöntum, sem vaxa í vatninu; því að þar geta þær opt náð í bráð, og eru þær þá fjarska liprar og liðugar. Svo er um þá tegund köngurlóa, er nefnast á latínu «lycosa», og vjer gætum kallað veiðiköngurlær. Norðan til í Evrópu eru þær smáar og litur þeirra alls ekki ásjálegur. En athugall vísindamaður staldrar samt við, þegar hann sjer veiðiköngurlóna, sem er að reyna að fela sig í grasinu. Þetta táplitla og huglausa kvikindi er dökkt á lit; því er líka hægt að sjá mjallhvítan pokann, sem hún ber eggin sín í; en til þess að búa til þennan litla poka, hefir hún notað allt silki sitt. Þegar hún hefir orpið, hefir hún engan bústað lengur, en ber með sjer hylki unga sinna, og yfirgefur það ekki eitt augnablik; og aðdáanlegt er að sjá árvekni hennar og umhyggju fyrir afkvæmi sínu. Ef einhverjum heppnast að ná í eina af þessum köngurlóm, og losa eggjapokann við hana, þá hugsar hún ekki um að flýja hættuna, sem endranær, heldur staðnæmist hún, reisir fæturnar og ógnar óvin sínum með eiturgöddunum. Ef eggjapokinn svo er látinn á jörðina, reynir hún að grípa hann, og koma sjer burt hið fljótasta. Móðurástin sýnir sig svo þrekmikla

og sanna hjá þessum fyrirlitnu dýrum, að engin getur annað en að dázt að honum. Þegar ungarnir eru komnir út úr eggjunum, festa þeir sig á líkama móður sinnar, og hún ber þá svo, þangað til sá dagur kemur, að þeir eru nógu tápmiklir orðnir til að elta bráð sína, nógu kænir til að tæla óvini sína, og nógu óþakklátir til þess að kannast ekki lengur við móður sína, sem þeir þurfa ekki framar hjálpar af. Í Suður-Evrópu, Afríku og nokkrum hlutum Asíu eru veiðiköngurlær, sem bæði eru stærri og litfegri en frændur þeirra í hinum köldu löndum; þær hafa það fram yfir hinar, að þær lifa lengur, og hafa því fasta bústaði; þær búa í holum í jörðinni, tjalda veggina og leggja þræði fyrir innganginn, eins og til varnar.

Það er ein af þessum litfögru veiðiköngurlóm, sem er orðin víðfræg, þótt hún eigi það ekki skilið; það er «tarantellan», sem opt má sjá nálægt Neapel. Ef eitt af þessum saklausu dýrum sezt á fingurinn á einhverjum íbúa þessa hjeraðs, kippist hann aptur á bak, því að það er hjátrú hjá þessu fólki, að tarantellan sje hræðilegt dýr; það á að hafa hinar skelfilegustu afleiðingar, ef hún stingur mann; hann á að verða eins og óður, og æði það mundi verða hans bani, ef Neapelsbúar, sem eru svo hugvitssamir og gefnir fyrir söng, hefðu ekki fundið fjörugan danz, sem getur læknað böl það, er tarantellan hefir valdið. Þessi hjátrú hefir breiðzt út um heiminn, og þess vegna er sagt um þann mann, sem mjög er ókyr og snöggur í bragði: «Jeg held að tarantella hafi stungið hann». En ekki er þetta annað en tilbúningur, því að nátt-

úrufræðingar segjast hafa verið stungnir af tarantellu, og haldið þó fullu ráði. Það kemur að eins fram kláði á þeim stað, þar sem tarantellan hefir stungið mann, og er stungan ekki stærri en gat eptir títuprjón.

Einna almennust undir berum himni er sú köngurlóategund, sem nefnd er á latínu «epeïra». Hún framleiðir mikið silki, sem hún vefur á einkennilegan hátt; hún hefir líka fullkomnari kamba á fótunum en hinar köngurlærnar. Vefurinn er hjólmyndaður, og þegar hún býr hann til, byrjar hún á því, að búa til þráð einn, sem hún þenur frá einu strái til annars, unz kominn er fram marghyrndur hringur; síðan skiptir hún hringnum í tvennt, með því að leggja þráð þvert yfir hann; í miðjunni á honum er dálítill silkihnoðri til stuðnings, og úr honum liggja þræðir í allar áttir á hringnum með jöfnu bili á milli, eins og geislar. Í grennd við hnoðrann byrjar hún svo aptur á að spinna þræði þvers um milli geislanna í eintóma hringi, þangað til hún hefir fyllt alla umgerðina; fer hún svo aptur sömu leið og myndar þá ótal smágerva hringi milli hinna. Það er eigi auðið, að búa til fullkomnara veiðinet en þetta; það má jafnvel líkja því við hið smágervasta knipl. Þar eð köngurlóin býr opt til vef sinn á daginn, einkum eptir hæga rigningu, má sjá, hvernig hún fer að, og er mjög gaman að sjá snilld hennar og lipurð. Þegar vefurinn er búinn, sezt hún sjálf í miðjuna og hengir höfuðið niður, en heldur sjer á fótunum í hinn innsta hring vefsins. Þegar nú fluga festir sig í netinu, spriklar hún, eins og eðli-

legt er, og finnur köngurlóin þá undir eins hristinginn á vefnum, þar eð fætur hennar eru mjög svo tilfinninganæmir; hún flýtir sjer þá eptir þráðunum og drepur bráð sína á eitri; annaðhvort etur hún hana þegar í stað, eða geymir sjer hana með því að spinna hylki utan um hana. Á haustin verpir hún eggjum, og býr utan um þau hylki; og veslings-móðirin, sem hlýtur að deyja með haustinu, gætir þess, að fela vöggu áfkvæmis síns á svo góðum stað, sem unnt er. Ungarnir koma ekki úr eggjunum fyr en á vorin, og lifa skamma stund saman, en skilja svo, til þess að lifa einmana lífi, eins og flestar aðrar tegundir köngurlónna.

Þessar tegundir má finna á Íslandi.

Þetta eru að eins hinar almennustu tegundir, en til eru margar einkennilegar í öðrum löndum, eins og t. a. m. vatnaköngurlóin, sem hefst við í ám og lækjum. Eins og aðrar köngurlær anda þær að sjer lopti, en með því þær lifa mest í vatni, hafa þær orðið að búa sjer til bústaði, sem eiga við lífsnauðsynjar þeirra.

Mennirnir þykjast af því, að þeir hafi fyrstir allra skapaðra skepna látið sjer hugkvæmast að búa til kafaraklukku; en samt sem áður er hún til í náttúrunni og hefir verið til svo lengi, að engin veit deili á; því bústaðir vatnaköngurlónna eru einmitt þvílíkar klukkur, búnar til úr silki, festar við vatnsplöntur með opið niður á við. Klukka þessi er vanalega í laginu eins og fingurbjörg. Þótt köngurlóin því lifi í vatni, hefir hún þannig nægt lopt; stundum draga þær líka hreint lopt að sjer með því, að klifra upp á sef og vatnsplöntur,

og ganga jafnvel stundum á bökkunum sjer til skemmtunar.

Þegar köngurlóin hefir fullgert bústað sinn, er hún þar róleg; hún snýr höfðinu niður, og situr þannig um bráð; en þegar hún er búin að ná bráðinni, flytur hún hana í bústað sinn, til að hafa frið til að neyta hennar.

Vatnaköngurlóin er eins óvinveitt náungum sínum, eins og aðrar köngurlær. Karldýrið neytir því bragða við til þess að komast inn til hennar; hann gerir klukku við hliðina á bústað hennar, og gerir göng á milli; þegar allur undirbúningur er fullgerður, brýzt hann allt í einn í gegnum vegginn, þegar hana minnst varir. Nokkru síðar verpir hún, og þegar ungarnir eru komnir út úr eggjunum, lifa þeir skamma stund hjá móðurinni, þangað til þeir eru orðnir nógu miklir til þess að berjast sjálfir fyrir sjer; þeir gera þá hver sína klukku og búa einir sjer, eins og ættingjar þeirra hafa gert.

Önnur einkennileg tegund í útlöndum er húsgerðaköngurlóin, sem eigi býr til veiðinet, heldur grefur sjer holur í jörðu niður. Til þess að fá rjetta hugmynd um bústaði þeirra, skulum vjer taka dæmi. Í mörgum borgum í Flandern búa fátækir menn í kjöllurum; en eigi eru það öfundsverðir bústaðir. Gangi ókunnugur maður að kveldi dags um hin dimmu stræti, vill honum opt til, að hann rekur fótinn í nokkurs konar palla fyrir utan húsin; það eru hurðirnar á kjöllurum, sem opnaðir eru að utan, með því að taka í hring á hlerunum, og lokaðir að innanverðu með króki. Þeg-

ar loksins er komið niður ljelegan stiga, gefst komumanni á að líta, eða hitt þó heldur. Veggirnir eru berir og fullir af sagga; lopt og birta kemst ekki niður þangað öðru vísi, en þegar veðrið leyfir að hafa hlerann opinn. Fyrir 50 árum voru þessir kjallarar mjög algengir, en nú eru þeir fágætari, og ekki út af eins illa gerðir. Við þessa kjallara getum vjer líkt bústöðum húsköngurlónna; því að bæði er hurðin lík, og á sama hátt má komast ofan í þá. Þeir eru samt svo vel faldir að utan, að illt er að finna þá; ekki eru þeir heldur mjög glæsilegir að utan; en þegar komið er niður í þá, eru þeir fagurlega prýddir; veggirnir eru tjaldaðir silki því, er köngurlóin spinnur. Eins og á hinum fyr nefndu kjöllurum eru hlemmar yfir opinu; búa köngurlærnar þá til úr moldinni, sem þær hafa grafið upp úr holunum, og þjetta þær hana með vökva, sem þær spinna silkið úr. Hlemmurinn er sterkur og þolir talsverða þrýsting, þar eð hann er líka svo mátulegur í opið. Að utan er hlemmurinn ósljettur, svo ekki er hægt að sjá hann; en að innan er hann tjaldaður silki, og öll holan slíkt hið sama. Á hverri hurð er nauðsynlegt að hafa hjörur og lás; þetta hvorutveggja hefir köngurlóin líka hugsað um. Hjörurnar eru silkisnúra, ótrúlega sterk og teygjanleg, og sem lætur hurðina þegar falla aptur, er búið er að ganga um hana. Lásinn er ekki eins fullkominn; það eru smá göt, eins og eptir títuprjón, sem eru á hlemmnum gagnvart hjörunum. Eins og áður er sagt, fellur hann svo vel í opið á holunni, að ekki er hægt að koma neinu þar á milli; köngurlóin

getur því lifað rólegu lífi í hæli sínu; en ef einhver óvinur reynir að lypta hlemmnum, þá rekur hún klærnar í hin smáu göt, og heldur honum aptur af öllum kröptum. Á nóttum fer hún svo á veiðar, og stökkur á bráðina, því ekki hefir hún nein veiðarfæri.

Í heitu löndunum eru til enn fullkomnari köngurlær þessarar tegundar, og frá Kaliforníu kom fyrir nokkrum árum ein köngurló til náttúrugripasafnsins í París; hafði hún verið tekin ásamt bústað sínum, og látin í hæfilega stórt ílát. Í 4 mánuði var allt gert til þess, að varðveita hana; hurðin var opnuð með mestu varfærni, og henni rjett fluga til fæðu; hún greip hana þegar, því að hún var hungruð eptir hina löngu ferð, en ef menn reyndu að lokka hana út, dró hún sig lengra inn í holuna. Hún hjelt áfram að vera tortryggin, jafnvel við vini sína. Eina nótt, þá er hún hafði verið vel fóðruð nokkra daga, klíndi hún hurðina aptur, því að henni var illa við, að sjá hana opnaða, og næsta morgun var komin ný hurð, ekki langt frá hinni gömlu. Skyldi aumingja-dýrið hafa hugsað, að þessi hurð hlyti að vera þeim ókunn, sem hingað til hafði fært henni fæðu? En það varð bani hennar; hún drógst loks máttvana út úr sínum kæru híbýlum, og fannst dauð í sandinum skammt frá.

Vjer höfum nú stuttlega minnzt á hinar algengustu og merkilegustu tegundir af köngurlóm, sem eru hver annari svo líkar í öllum aðalatriðum, en svo mjög mismunandi í mörgum smá-atriðum. Allar lifa þær einmana; allar eru þær ágætar og

umhyggjusamar mæður; allar hatast þær hver við aðra; þó eru til undantekningar, þar sem öll ættin, faðir, móðir og börn búa saman (svo sem t. a. m. «steniza fodiens», sem er ein húsgerðaköngurlóin, hún er sunnan til í Evrópu, og er fullkomnari en hinar), en ekki er það nema undantekning frá reglunni. Tilfinningin er mjög næm; það höfum vjer sjeð dæmi til hjer að framan; er það ekki jafnvel vottur um umhugsun, að þær kunna að varast hættur, bæta net sín, er eitthvað hefir orðið að þeim, og sitja um bráð sína?

(Íslenzkað úr *Revue des deux Mondes 1886*, af þ. F.)

# Yfirlit yfir sögu Ástralíu.

Saga Ástrallandsins eða Nýja-Hollands er yfir höfuð frásagan um það, hvernig heil heimsálfa, sem er byggð einum hinum lægsta flokki mannkynsins, er fundin og numin af Evrópumönnum, og íbúarnir flæmdir undan þeim, og svo hvernig hið nýja þjóðfjelag hefir myndazt og þróazt. Henni má því skipta í 3 kafla: ástandið áður en landið fannst, uppgötvun landsins og sögu nýbyggjendanna.

### *Ástandið áður en landið fannst.*

Þegar Evrópumenn fundu landið, stóðu Ástralíublámenn ekki á háu stigi. Íbúarnir lifðu í smáum ættbálkum, án þess heita mætti, að nokkurt fjelagslíf ætti sjer stað hjá þeim. Voru þeir á stöðugu flakki fram og aptur, og bjuggu í hreysum, sem þeir hrófluðu upp á svipstundu úr blöðum og trjáberki; voru þeir nærfellt naktir, höfðu engin verkfæri úr málmi, og ekki boruð göt á steinvopn sín, heldur bundu þau við skaptið með viðartágum. Boga höfðu þeir ekki og naumast nokkra báta, nema ljelegar barkarkænur. Húsdýr voru þar engin nema hinir hálfvilltu *dingo*-hundar, og akuryrkja var þar ekki kunn. Hvernig ástand íbúanna hefir verið áður, er ekki hægt að hafa neinar sögur af, fremur en af steinaldarþjóðum annarstaðar úr heimi. Eigi er heldur hægt að segja með vissu, hvaðan þeir hafi kyn sitt að rekja, með því að athuga það, sem einkennilegt er í háttum og siðum þeirra. Umskurn, hörundspent («tatóvering») og kukl finnst dreift um alla jörðina, án þess hægt sje að segja, hvert það eigi uppruna sinn að rekja. Með samanburðarmálfræðinni hefir jafnvel heldur ekki verið hægt að tengja frumsögu Ástralíubúa í áreiðanlegt samband við sögu nokkurra annara þjóða, þótt reynt hafi verið að finna líkingu milli tungna þeirra og frumþjóðanna á Dekanskaganum á Vestur-Indlandi, og nú seinast sjerstaklega við mál Afríkusvertingja. Fornmenjar hafa heldur ekki fundizt, nema stórkostlegir sorp- og öskuhaugar. Þá er aðeins eptir mannkynsfræðin (Anthropologie), og er þá sjer í lagi að bera

saman hauskúpur Ástralíublámanna við aðra þjóðflokka. En sá samanburður hefir heldur ekki veitt neitt fullnaðarsvar, því Ástralíublámenn eru sjerstakur mannflokkur, án þess á þeim finnist greinilegt ættarmót við aðra mannflokka. Samt sýnist sumt í höfuðlagi þeirra benda á, að þeir sjeu skyldir Papúum á Nýju-Guinea, enda eru þeir, hvað vegalengd snertir, nálægastir þeim.

Þannig vottar fyrir dálítilli skímu af menningarljósi, sem hefir komið til Ástralíu frá eyjum þeim, er liggja þar fyrir norðan, löngu fyr en saga hófst. Þar á móti hefir ekki fundizt, að menningarstraumar hafi síðar komið úr sömu átt, þó reynt hafi verið að sanna það. Reyndar hefir fundizt, að vopn þeirra (boginn), bátar, hús og líkamsskapnaður verður fullkomnara þegar nær dregur York-skaganum nyrzt á Ástralíu; enda sjest þar ljóslega, að þeir hafa haft kynni af Papúum og Malayum. En auðsjeð er, að það hefir ekki orðið fyr en fremur seint. En allar rannsóknir sýna að minnsta kosti, að afarlangur tími er liðinn síðan Ástralíubúar skildust við mannflokk þann, sem þeir eru komnir af.

Þar eð rannsóknirnar hafa þannig sýnt, hve Ástralía var algerlega útilokuð frá öllum áhrifum frá öðrum þjóðum, verður auðið að skilja, hvers vegna hún hefir svo að segja engum framförum tekið; því framfarir heimsins yfir höfuð, og sömuleiðis einstakra þjóða, eru komnar undir því, að aðrar þjóðir hafi haft áhrif á þær utan að, af baráttu þjóðanna fyrir tilveru sinni, sem leiðir af því, þegar þær vilja brjóta hver aðra undir sig.

Eðli og ásigkomulag landsins hefir einnig aptrað því, að sjálfstæð þjóðmenning gæti komizt þar á fót. Fyrst og fremst er landið lítt vogskorið, og auk þess má undir eins sjá, að margt fleira hefir verið þar þjóðmenningu til fyrirstöðu. Landið hefir engin upprunaleg jórturdýr, og óræktaðar korntegundir eru mjög sjaldgæfar. Af þessu var ómögulegt, að villimenn þessir gætu orðið hirðingjaþjóðir, hvað þá heldur siðast svo, að þeir tækju að stunda akuryrkju. Auk þess var ólíklegt, að þjóðir þessar hættu villimannalífinu, og tækju, í stað þess, upp akuryrkju, þar eð korn vex þar mjög óvíða; þó eru villihrísgrjón þau notuð til fæðu, er vaxa á ýmsum stöðum í Suður-Ástralíu. Auk þess er loptslagi landsins víða þannig varið, að korntegundir eiga illt með að þrífast þar, þó þær þoli þurk miklu betur en hrísgrjónin; því sumstaðar kemur þar ekki deigur dropi úr loptinu heilt ár, einkum um miðbik landsins. Enn fremur gefur landið margt af sjer, þegar vel lætur í ári, sem hafa má til viðurværis, og var því hægt að halda uppi lífinu fyrir aðra eins þjóð og Ástralíubúa.

Af þessu hefir leitt, að akuryrkjan, sú mikla uppfundning, sem öll æðri þjóðmenning byggist á, var ekki fundin upp í Ástralíu þegar Evrópumenn komu þar.

Þegar hinum upprunalegu íbúum landsins og hinum aðkomnu nýbyggjendum lenti saman, var hægt að sjá, hverjar afleiðingarnar mundu verða. Þeir voru svo ólíkir, að ómögulegt var, að þeir gætu samþýðzt hver öðrum. Hin eina vinna, sem

Ástralíublámenn gátu tekizt á hendur í hinu nýja landnámi, var smalamennska eða lögregluþjónusta; en lögreglustörfin gerðu frumbyggjendunum ekkert gagn. Flökku-þjóðir og bólfastur lýður eiga jafnan högg í annars garð, ef þeim lendir saman; en í Ástralíu varð sá ófriður brátt griðalaus, með því að landnámsmennirnir ensku voru flestir útlægir stórbrotamenn, er hlífðust hvergi við.

Ekki er hægt að gera sjer neina áreiðanlega hugmynd um það, hve margt hafi verið í landinu af frumbyggjum Ástralíu, þegar Evrópumenn tóku sjer þar fyrst bólfestu. Þeir hittast enn fyrir nálega um land allt, eða einhverjar menjar þeirra, og sumstaðar allmargt af þeim. Sturt segir svo frá t. d., að hann hafi hitt nál. 4000 á fáum dögum árið 1880. Þess vegna er óefað ekki of mikið í lagt, þótt gert sje ráð fyrir, að tala frumbyggja landsins hafi verið um 200,000 fyrir ekki meira en 50 árum. Nú er gizkað á, að þeir muni vera um 60,000.

Í tímaritinu «Gefn» er sagt frá því, hvernig íbúum eyjarinnar Tasmaníu við suðausturenda Ástralíu var útrýmt með óheyrilegri grimmd. Frumbyggjar hennar voru 4—5000, þegar fyrsta nýlendan var stofnuð þar, 1803, en hinn síðasti þeirra dó 1872, enda vora þeir ekki að eins drepnir í smá-styrjöldum, heldur var beinlínis farið á veiðar eptir þeim. Margir þeirra voru fluttir út í smáeyjar í Bass-sundinu, sem er milli Tasmaníu og meginlandsins, og dóu þeir þar innan lítils tíma. Í Queenslandi var einnig farið á veiðar til að drepa blámennina, eptir að nýlendan var nýstofnuð, svo

náttúrlegt væri, þó einhverjum dytti í hug að spyrja, hvort það hafi verið menntun og menning, sem á þann hátt hafi fyrst verið að gera vart við sig.

*Uppgötvun landsins.*

Ástralíu hafa Evrópumenn haft kynni af síðast af öllum meginlöndum, enda eru orsakir þess auðsæar. Ástralía liggur hinum megin á hnettinum, og of sunnarlega til þess, að hún gæti verið á vegi sæfara þeirra, sem lengst fóru. Á landafundatímabilinu var Indland það mark og mið, sem allir kepptu að komast til, og hvort sem farið var fyrir Góðrarvonarhöfða eða gegnum Magelhaenssund, lá leiðin langt fyrir norðan Ástralíu. Auk þess er svo að sjá, sem siglingamenn hafi gætt þess, að halda svo norðarlega, sem auðið væri.

Það getur þó ekki verið, að mjög langur tím hafi liðið frá því, að Portúgallar tóku sjer bólfestu á Indlandseyjum, og þangað til vart hafi orðið við Ástralíu. En ekki er hægt að segja með vissu, hverir fyrstir hafi fundið meginland hennar, þó ótrúlegt sje. Á sumum gömlum landabrjefum frá því fyrir 1545 má sjá stórt land fyrir sunnan eyna Java, sem kallað er «Stóra-Java», með kórallarifum umhverfis, og á því sjást nes og firðir, ár og ýms nöfn. Reyndar er ekki hægt að segja með vissu, að hve miklu leyti landabrjef þessi eru tilbúin eptir sjón, eða að hve miklu leyti eptir þeirri gömlu hugmynd, að á suðurhveli jarðar hlyti að vera stórt land til að halda jafnvægi móti löndun-

um á norðurhelmingnum. Var þetta ímyndaða land kallað «terra australis incognita» (þ. e. hið ókunna suðræna land); mun þar af dregið nafnið Australia; landið ætti raunar að heita Marega, því þannig nefndu Malajar það frá alda-öðli; þeir fóru þangað árlega til að veiða «trepang» (eins konar sæbjúgu, sem etin eru í suð-austurhluta Asíu) við norðurstrendur meginlandsins, meðan norð-vestanstaðvindurinn bljes þar um slóðir.

Eptir að Portúgallar fundu Ástralíu, mun ekki hafa liðið langur tími, áður en keppinautar þeirra, Spánverjar, voru komnir þangað á hæla þeim. Samkvæmt úrskurði Alexanders páfa 2. máttu þeir að eins helga sjer lönd vestur á bóginn, en Portúgallar höfðu einkarjettindi yfir þeim löndum, er þeir fyndu austur á bóginn og svo áttu þeir, eins og Loki og Logi, að mætast í miðju trogi hinum megin hnattarins. Af því ófriður varð milli þeirra út af Mólukkaeyum, sem voru á landamótum milli þeirra, getur hugsazt, að þeir hafi báðir þagað yfir hinu suðræna meginlandi, sem lá yfir sjálfri merkjalínunni.

En hve snemma sem Ástralía kann að hafa fundizt, eru þó ekki til áreiðanlegar sögur af ferðum þangað fyr en í upphafi 17. aldar. Eru þá Hollendingar í fararbroddi; þeir sátu sig aldrei úr færi, að hnekkja valdi Spánverja og Portúgalla, fjandmanna sinna, og ná undir sig hinum auðugu nýlendum þeirra, enda berjast þeir um sama leyti gegn þeim hjer í álfunni, til að verja fjör og frelsi. Á meðal fleiri sæfara til Ástrallandsins vitum vjer af de Eredia frá Portúgal, sem kemur að vestan og að vestur- og norðausturströnd landsins 1601.

— Arið 1606 kom Luis Vaes de Torres, spænskur maður, austan að landinu gegnum sund það, sem við hann er kennt, og um sama leyti eða nokkrum árum seinna hollenzka skipið Duyfhen fram með austurströndinni norður að höfðanum York, einum nyrzta höfða landsins. Og frá þeim tíma eru Hollendingar því nær einir um allar rannsóknarferðir þangað. Mundi verða of langt mál, að segja gerr frá hverri ferð þeirra þangað, sem þeir fóru annað hvort frá aðalnýlendu sinni á Java eða á leið sinni til Indlands, sem þeir urðu að krækja út fyrir vanalega leið Portúgalla.

1627 kom Peter Nuyts að vestan, og komst þá alla leið innst í Astralíuflóa á suðurströnd landsins, og er Nuytsland á suðurströndinni kennt við hann. 1642 kom Tasman að suðurodda lands þess, er hann kallaði Van Diemensland. Hjelt hann það vera suðuroddann á stóru meginlandi, en hvort það hefir verið af gömlum hugmyndum eða nýrri rannsóknum, er ekki hægt að segja.

Arið 1688 kemur ný þjóð til sögunnar. Það voru Englendingar, sem síðar urðu eigendur landsins. Var það Dampiers víkingur, og skoðaði hann nokkuð af vesturströnd landsins. Hundrað árum seinna stofnuðu Englendingar fyrstu nýlenduna í landinu.

Enn þá var þó ekki gerð nein tilraun til þess af neinni þjóð, að kasta eign sinni á landið, og var það af mörgum orsökum. Veldi Spánverja og Portúgalla var á förum, og Hollendingar höfðu nóg að gera, að hugsa um hinar auðugu nýlendur, er

þeir höfðu þá nýunnið. Auk þess var Ástralíu yfir höfuð lýst þannig, að landið væri eyðimörk ein, og þar væri neyzluvatn ekki að fá, og landsmenn siðlausir og fátækir. Sá hluti af ströndum landsins, er þá var kunnur orðinn, var heldur ekki girnilegur; á suður- og vesturströndinni eru fáar hafnir, og á norð-austurströndinni eru hin hættulegu kórallarif. Það var búið að sjá ranghverfu landsins, ef svo má að orði kveða, og hefði verið barnaskapur að setjast þar að, heldur en í Ameríku eða á Indlandseyjum.

Þegar landnámið byrjar, er það eptirtektavert, að vísindamenn eru þar í fararbroddi. Árið 1768 flutti J. Cooke, enski sæfarinn nafntogaði, stjörnufræðing og tvo aðra vísindamenn til eyjarinnar Tahiti (Otaheiti), til að athuga þar þann atburð, að Venus gengi fyrir sólina, og svo til þess að gera aðrar vísindaathuganir á heimleiðinni. Við það fengu landkönnunarferðirnar nýtt snið á sig, því nú var ekki að eins hugsað um, að leita landa til þess, að leggja þau undir sig, heldur einnig til þess, að auka landfræðislegan fróðleik. Arið 1770 kom Cooke á Botany-Bay í Astralíu, og gerði síðan uppdrátt af ströndinni norður að Torressundi, og sýndi fram á það fyrstur manna, hvað mikið væri í land þetta varið.

Einmitt um sama leyti voru Englendingar í vandræðum með, hvað þeir ættu að gera við þann sæg, er þeir höfðu af glæpamönnum, sem áður höfðu verið fluttir til nýlendna þeirra í Norður-Ameríku, sem þeir áttu þá í ófriði við; þegar Bandaríkin lýstu sig úr lögum við þá, var ekki

hægt að senda framar dæmda stórbrotamenn þangað; en þar eð Cooke hafði látið svo vel af landinu við Botany-Bay, varð það út úr, að Sydney ráðherra rjeð af, að gera það að sakamannanýlendu. Fyrstu fangarnir voru fluttir þangað 1788, en voru jafnskjótt fluttir þaðan til hinnar fögru hafnar Port Jackson, þar skammt í brott, þar sem bærinn Sydney óx síðar upp smátt og smátt.

Könnun landsins var nú haldið áfram frá þessari einmana nýlendu.

Árið 1795 hófu þeir Flinders og Bass rannsóknarferðir sínar fram með ströndinni á tvær hendur, á örsmáu bátkrýli, 3 álna löngu.

Árið 1797 fann Bass sund það milli Tasmaníu og meginlands, er síðan er við hann kennt, og sigldi kringum alla eyna með Flinders árið eptir. Með styrk frá stjórninni tók Flinders síðar uppdrátt af miklum hluta Ástralíustranda, sem síðan hefir verið haldið áfram á þessari öld.

Að svo búnu hefjast rannsóknirnar inni í landinu, sem mest hafa dregið að sjer hugi manna.

Það má geta því nærri, hve örðugt hefir verið að brjótast yfir Bláfjöllin, sem greina Sydney frá sljettlendinu upp í landinu, af því að aðrir eins menn og Bass urðu að hætta við það hálfgert.

Að 25 árum liðnum (1813) komust menn loks 10 mílurnar fyrstu, og fundu veg yfir fjöllin gegnum gljúfur, yfir kletta og klungur, og gátu komizt inn á sljettlendið. Rannsóknunum tók nú að miða óðum áfram, og landið fram með ám þeim, er renna niður til Victoríu, var nú kannað, og gerðu

það einkum þeir Evans, Oxley, Cunningham, Mitchell og Sturt.

Í byrjun þessarar aldar hafði Evans, enskur maður, fundið margar af ám þeim, er renna í fljótið Murray, þótt hann fyndi ekki aðal-ána. Varð honum mikið ágengt, og árið 1817 fetaði Oxley í fótspor hans, og komst allt að þveránum Castlereagh og Darling.

Árið 1829 tókst herforingi sá, er Sturt hjet, á hendur nýja rannsóknarferð, og með honum þeir Humes og Howell. Fundu þeir á ferðum sínum hið mikla fljót Darling, sem með þverám sínum hefir stærst vatnasvið af öllum ám í Astralíu.

Á árunum 1831—1836 fóru þeir Thomas Mitchell og Allan Cunningham þrjár rannsóknarferðir hverja af annari um suð-austurhluta landsins. Fundu þeir þar land mjög ólíkt hinu sendna strandlendi, grassljettur miklar, frjóvar mjög, með ám og lækjum, fjallgarða og frumskóga þykkva, og leizt þeim svo vel á land þetta, að þeir kölluðu það «Astralíu hina farsælu» (Australia felix).

Fám árum síðar hóf George Grey nýja ferð inn í meginlandið frá norð-vestri, og lagði upp frá Hannover-Bay. Fann hann skóga mikla, vaxna araúkariu-trjám, einu af hinum beztu barrviðartrjám, er vex á öllum Astralíueyjum, og þar að auki ýmsar aðrar merkilegar trjátegundir. Síðar hefir þekking manna á jurtalífi landsins aukizt mjög, og er talið, að þar vaxi 12,550 viðar- og jurtategundir.

Grey hafði mætt miklum örðugleikum á ferð sinni, og orðið að ferðast yfir stórar vatnslausar

eyðimerkur, en þó var ferð hans skemmtiför á móti þeim, er síðari landkannendur tókust á hendur. 1840 rannsakaði Eyri norðurhluta Suður-Ástralíu, opt með einum þarlendum dreng, 10—15 mílur frá öðrum samferðamönnum sínum. Vatn var ekki að fá, því allar lindir voru saltar; hestar hans drápust, en þó komst hann leiðar sinnar. Varð hann á leið þessari þess vísari, að á svæðinu frá Russelfjalli til Spencervíkur, sem er um 100 mílna langt, fellur engin á til sjávar, og mun það einsdæmi á allri jörðinni.

Þá kemur Ludwig Leichhardt til sögunnar, þýzkur maður, fæddur 23. okt. 1813 af fátækum foreldrum, komst þó til náms í Göttingen, og hneigðist að náttúrufræði, ferðaðist fyrst um Frakkland og Ítalíu, og tók sjer svo 1841 far til Sydney, og bjó sig þar undir för sína í tvö ár, ferðaðist á þeim á fjórða hundrað mílna í allar áttir, og kynnti sjer loptslag og náttúru landsins. Eptir að hafa þannig búið sig út til rannsóknarferðar lagði hann upp frá Sydney til Mortonbay á miðri austurströndinni, og þaðan lagði hann af stað í rannsóknarför sína 30. sept. 1844. Farangur hans var ekki nema hið allra nauðsynlegasta: matvæli til 6—7 mánaða, 16 naut, 15 hestar og 7 fylgdarmenn, sem fremur gerðu að tefja fyrir honum en hjálpa. Í ferð þessari fór hann 650 mílna vegalengd um austur- og norð-austurhluta landsins, og komst til bæjarins Victoríu á norðurströndinni með heilu og höldnu eptir 16 mánaða ferð; hjelt síðan aptur til Sydney sjóveg gegnum Torressund, og kom þangað 29. marz 1846. Tvær aðrar ferðir

tókst Leichhardt enn á hendur, og ætlaði að brjótast þvert vestur yfir landið, en í seinni ferðinni hvarf hann, og allir förunautar hans, svo ekkert hefir til hans spurzt síðan 3. apríl 1847, og er haldið, að þeir hafi dáið úr hungri.

Nú gugnuðu menn um nokkur ár við þessa sorgarfregn, þar til 1855, að A. C. Gregory, sem frá því 1848 hafði ferðast kringum Svanfljótið í Vestur-Astralíu, lagði af stað sjóleiðis vestur fyrir Arnheimsland, til þess að rannsaka Victoríufljót, en sneri sjóveg aptur til Adelaide, án þess að hafa fundið neitt markvert.

Arið 1860 lögðu tveir landkannendaflokkar af stað, er ætluðu sjer að komast þvert yfir landið frá suðri til norðurs. Öðrum flokknum, sem lagði upp frá Adelaide, stýrði Mac Dougall Stuart; hinn lagði upp frá Melbourne, og fyrir honum rjeðu þeir Robert O'Hara Burke og Wills. Stuart reisti enskan fána á fjalli því, er við hann er kennt (Central Mount Stuart), inni í miðju landi, en varð að hverfa aptur, þegar hann átti ekki nema 50 mílur niður að Carpentaríaflóa, af árásum villiþjóða. Burke og stjörnufræðingurinn Wills voru aptur á móti ekki nógu reyndir og þrautseigir í slíka hættuför, og voru þó vel útbúnir, með 25 úlfalda, vagna og vistir nógar. A tveim stöðum á leiðinni skildu þeir eptir matvæli, í síðara staðnum við Coopercreek; þaðan hjeldu þeir Burke, Wills og tveir menn aðrir enn af stað 16. desember 1860; komust norður í Carpentaríuvík á norðurströndinni 11. febr. 1861; sneru síðan aptur, en komust loks til Coopercreek 21. apríl, degi síðar en fjelagar þeirra höfðu farið það-

an, og voru þá svo örmagna af þreytu og hungri, að vistir þær, er þeim hafði verið geymdar þar, kom þeim að engu liði, og ljetust þar allir, nema einn ungur maður, King að nafni. Tók villimannaflokkur einn hann að sjer, og fann landkannandinn A. Howitt hann hjá þeim 15. sept. 1861.

Þegar fjelagar Burkes komu aptur til Melbourne, voru gerðir út menn að leita þeirra og hjálpa þeim, ef þeir væri á lífi. Howitt fór frá Melbourne sömu leið og Burke; Mac-Kinlay fór frá Adelaide, en Landsborough fór sjóveg til Carpentaríuflóans, og leitaði svo suður á bóginn, en Walker frá Queenslandi. Í ferð þessari fann Howitt King, og hafði með sjer bein þeirra Burke. Mac-Kinlay og Landsborough tókst að komast yfir álfuna þvera. Kinlay komst norð-austur til Rockhampton í Queenslandi, en hinn suður yfir til Melbourne, og gerðu báðir margar uppgötvanir. Walker varð ekki mikið ágengt. En meðan á þessu stóð, lagði Stuart enn af stað norður yfir land 1861, og 24. júlí s. á. komst hann alla leið að norðurströnd Arnheimslands. Arið 1872 var frjettaþráður lagður þvert yfir landið nálægt leið þeirri, er hann fór, milli South-Port og Adelaide.

Eptir þetta tóku við margar smærri landkönnunarferðir, sem oflangt yrði upp að telja. Helztir þeirra ferðamanna eru John Forrest, sem fór yfir mikið af eyðimörkum Vestur-Astralíu árið 1869. Hinn er Ernest Giles, er hjelt frá Chambers Pillar 13. ágúst 1872 vestur eptir, og fann á þeirri leið Liebig-Mountains, skógivaxinn fjallgarð, er liggur í austur og vestur, og er Mount-Musgrave

hæsti tindur þeirra. Þar eptir fann hann stórt stöðuvatn, Lake Amadeus, í miðju landi, er þá var þurt. Varð hann þá að snúa aptur af vistaskorti. Reyndi síðan aptur 1864, en það fór á sömu leið, og eins fór fyrir John Ross skömmu síðar. En árið 1875 komst Giles vestur yfir landið á endanum, hafði lagt af stað í maímánuði, og komst vestur að Porth á vesturströndinni 18. nóv. s. á.; en Hume, er fór að leita Leichhardts, týndist á leiðinni.

Flestir þessara ferðamanna hafa orðið að þola voðalegar mannraunir inni í meginlandinu: sífelldan vatnsskort, óþolandi hita, allt að 55° C., svo þeir hafa orðið að grafa sjer holur niður í jörðina, til þess að geta haldizt við; enn fremur lítt færra kjarrskóga, sölt vötn, sandrok o. fl. Sturt missti loks sjónina af sólarbirtunni, og margir hafa látið þar lífið; en þeir hafa líka greitt þjóðmenningunni nýjar leiðir, með því að opna henni þetta víðáttumikla meginland.

### *Landnámið og nýbyggjendurnir.*

Hinn 26. jan. 1788 lenti Arthur Phillip sveitarforingi í Sydney með fyrsta sakamannafarminn og helgaði Englandi þetta mikla meginland. Litlu síðar kom þangað frægur frakkneskur sæfari, La Pérouse að nafni, sendur umhverfis jörðina á tveim skipum af Frakkastjórn, en fórst síðar á ferðinni. Hefði hann komið til Sydney á undan Englendingum, er ekki ólíklegt, að bygging landsins hefði fengið á sig annað snið. Drottnunarandi hinnar brezku þjóðar fjekk nú nýtt tækifæri til að láta til

sín taka, og hinni engil-saxnesku þjóð opnaðist ný heimsálfa til að dreifa sjer yfir.

Landnemendur voru í upphafi 775 glæpamenn og 212 frjálsir innflytjendur, og af þeim nálega ¼ kvennmenn, og auk þess dálítil hermannasveit. Hundrað árum seinna eru íbúarnir á meginlandinu og eynni Tasmaníu orðnir nærri 5 miljónir. Akuryrkja var það hið eina, sem landnámsmennirnir gátu stundað, en þar eð flestir þeirra kunnu lítið til þess konar verka, hefðu þeir orðið að þola sult og seyru fyrst í stað, ef þeir hefðu ekki slátrað nokkru af kvikfjenaði þeim, er þeir fluttu með sjer þangað. Síðan eru liðin hundrað ár, og nú eru þar í landi 80 miljónir sauðfjár og 8 miljónir nautgripa, og ull, kjöt, tólg, hveiti og málmar eru árlega seldir til Englands fyrir 40 milj. pund sterling — hjer um bil 700 miljónir krónur. Það eru stórkostlegar framfarir á einni öld.

Saga nýbyggjendanna segir í fyrstu helzt frá innflutningi glæpamannanna. I fyrstu nýlenduna voru fluttir 60,000 afbrotamenn fram að 1839; en frjálsir menn, sem þangað höfðu flutzt, mótmæltu þá innflutningi sakamanna svo einarðlega, að því var þá hætt. Sakamannanýlendan, sem næst var stofnuð, var eyjan Tasmanía, sem þá var kölluð Van-Diemensland, — stofnuð 1803, — glæpamannaflutningi hætti þangað 1853 og höfðu þá alls 68,000 sakamenn verið fluttir þangað. Hversu fyrst hefir verið ástatt í þessum sakamannanýlendum, sem siðlausir hermenn áttu að gæta, má ráða af því, að 1835 var í New-South-Vales 22,000 föngum hegnt fyrir óhlýðni (þar af 3000 hýddir)

af 28,000 föngum, og enn fremur var fullnægt eitt hundrað líflátsdómum. Af 37,000 manns, sem voru í Tasmaníu 1834, var hegnt nálega 15,000, þar á meðal sjöunda hlut hinna frjálsu íbúa fyrir drykkjuskap.

Nýlendan·Vestur-Astralía, sem stofnuð var 1838, tók lengst á móti sakamönnum; 1849 bað nýlendustjórnin um, að sakamenn væru fluttir þangað til þess að flýta fyrir bygging landsins; en í hinum nýlendunum stóðu menn móti innflutning til sín með hnúum og hnefum, og höfðu svo mikinn ýmugust á sakamannainnflutning til Vestur-Astralíu, að því var hætt 1868, og höfðu þá verið fluttir þangað 10,000 glæpamenn.

Vjer sjáum, að það er ekki lítill mannfjöldi, allir þessir sakamenn, sem fluttir voru til Astralíu. Og nú tóku frjálsir menn einnig að flytja sig þangað. Tvö nýlenduríkin, sem nú eru, voru ekki í fyrstu stofnuð til innflutnings glæpamanna. Reyndar var reynt að flytja þá til Melbourne (1803), sem nú er höfuðborgin í Victoríu, en við það var hætt aptur, og nýlendan Port Phillip, sem Victoría var kölluð í þá daga, var stofnuð af frjálsum mönnum frá Tasmaníu. Suður-Astralía var beinlínis stofnuð af ensku fjelagi, sem fjekk þar ókeypis land með því skilyrði, að styðja að innflutningunum. 1841 voru komnir þangað 23,000, sem flestir voru frjálsir menn.

Elzta nýlendan, New-South-Wales, var stofnuð 1788, svo sem áður er frá sagt. Þaðan var stofnuð nýlendan á Tasmaníu 1803. Fylkið Port Phillip eða «Australia felix», sem fylgdi New-South-

Wales, var gerð að sjálfstæðri nýlendu 1851, og 1853 var Queensland myndað úr norðurhlutanum á New-South-Wales. Nýlendurnar West-Australía og South-Australía voru gerðar að sjerstökum fylkjum 1829 og 1836.

Síðan 1865 hefir South-Australía, sem upprunalega náði eins og breitt belti þvert norður yfir landið, verið skipt þannig, að úr henni hafa myndazt tvö önnur fylki: Alexandraland, sem nær yfir allt miðbik álfunnar, og er að mestu óbyggð ein; og Northern Territory, sem er skaginn frá Carpentaríaflóa að Victoríufljóti, er áður var kallað Arnheimsland; en það er að eins norð-austurhlutinn af skaga þessum, er í raun rjettri á að heita því nafni.

Vöxtur og viðgangur nýlendnanna fór, sem vitanlegt er, eptir því, hversu atvinnuvegirnir blómguðust. Eins og áður er sagt, var þar fyrst að eins stunduð jarðyrkja, og gekk lengi seigt með hana. En í byrjun þessarar aldar hjelt Macarthar því fast fram og röksamlega, að Astralía væri bezta sauðland, og úr því að komizt varð yfir Bláfjöll, og Macquarire var búinn að leggja þar veg, tóku framfarirnar stórum að aukast, svo að upp frá því má segja, að landið hafi byggzt á þessa leið:

Fyrst brýzt landkannarinn inn í óþekkta afkyma landsins; «the squatter», fjármaðurinn, kemur þegar á hæla honum, og svo lötrar «the selector», akuryrkjumaðurinn, er tekur fastan bústað, í humáttina á eptir. Hjer er rás mannkynssögunnar dregin saman í eina línu: veiðimaðurinn, hirðinginn og akuryrkjumaðurinn allir í röð á tæpum mannsaldri.

Lengi hafa stjórnmálagarpar í Ástralíu átt úr þeim vanda að leysa, að samrýma hagsmuni fjárbænda og akuryrkjumanna; en ekki hefir það tekizt enn, þótt ýmisa ráða hafi verið í leitað.

Þegar framfarir í fjárrækt og akuryrkju stóðu sem hæst, kom ný auðsuppspretta til sögunnar, og fleygði landinu geysi-mikið áfram, þótt það gerði heldur að hnekkja hinum atvinnuvegunum báðum.

Árið 1851 var að mörgu leyti tímamót í sögu Ástralíu. Þá rann upp gullöld þessa nýja meginlands í orðsins rjettu merkingu: þá fundust hinar feiknar-miklu gullnámur í *Ballarat* og *Bendigo*[1].

Frá því löngu áður höfðu menn haldið, að gull hlyti að finnast í Ástralíu, og meðal afbrotamannanna, er þar voru í útlegð, gengu margar sögur um gull, sem þeir hefði fundið í Bláfjöllum, en stjórnin skeytti hvorki nje trúði slíkum kynjasögum, og var það mál því aldrei rannsakað til hlítar.

En 1851 komst skriðið á. Þá keypti stjórnin við háu verði af gullnema einum frá Kaliforníu stórmiklar gullnámur, er hann hafði vísað á í Bláfjöllum í New-South-Wales. Jafnskjótt og stjórnin hafði þannig helgað eptirleit eptir gulli í landinu, hófst voðalegur gauragangur í nýlendunni. Kynjasögur um botnlausar gull-lindir komu nú aptur á gang, og voru nú haldnar heilagur sannleiki og óyggjandi í alla staði. Streymdu nú menn að úr

---

1) Um þetta efni er ritað meðal annars í 2. bindi þessa rits.

öllum áttum hópum saman til þessarar nýfundnu auðsuppsprettu, og hjeldu margir, að svo mikið væri af gullinu, að þeir þyrftu ekki annað en tína það upp úr sandinum, og fylla með því vasana. En svo glæsilegar vonir sem menn höfðu gert sjer, þá þóttust þeir blekktir harla margir, er þeir komu til þessa fyrirheitna gulllands, og komust þar að raun um, að þeir þurftu að vinna af kappi og með atorku, mánuðum eða jafnvel árum saman, til þess, að öðlast auðœfi þau, er þeir sóttust eptir. Margir eljulausir lausingjar, er þangað voru komnir, og ætluðu að ausa upp á svipstundu þeirri velmegnun, sem þeir höfðu hvorki dugnað nje staðfestu til að ávinna sjer við vanaleg störf, sneru nú aptur til Sydney, hnípnir í huga, er þeir höfðu slórt einn eða tvo mánuði iðjulausir í gullnámunum. Sögðust þeir hafa verið gabbaðir, og voru svo reiðir gullnemanum frá Kaliforníu, sem fyrstur hafði fundið námurnar, að þeir höfðu nærri drepið hann.

Smám saman safnaðist þó fjöldi gullnema saman í Bláfjöllum hingað og þangað úr nýlendunum. En þar eð vinnan borgaði sig svo fjarska-vel, streymdu þangað svo margir, að hin litla nýlenda Victoria var nærri orðin auð af fólki. Til þess að sporna við því, að nýlendan skyldi alveg verða mannlaus, hjetu helztu íbúarnir í Melbourne þeim manni miklu fje, sem heppnaðist að finna gullnámu í Victoríu. Enda leið þá ekki á löngu áður gullið fannst við Yorra-fljótið, að eins fáar mílur frá sjálfum bænum Melbourne, og skömmu síðar fund-

ust einnig hinar heimsfrægu gullnámur í Ballarat og Bendigo.

Í Ballarat fannst gullið á vanalegan hátt í fljótsbotni, en það var brátt unnið upp; undir fljótssandinum fannst þykkt leirlag, og var þá farið þaðan til þess að leita að nýjum námum. Til allrar hamingju datt þá einum gullnemanna, sem eptir varð, í hug, að grafa í gegnum leirlagið, og þá fann hann allt í einu feikna-mikið gull í hinum forna farvegi. Öld eptir öld hafði gullið, sem vatnið bar með sjer ofan úr fjöllunum, safnazt þar í klettaholurnar. Í holum þessum, sem kallast *pockets* (vasar), er stundum sem svarar mörgum þúsundum punda sterling. Áður mánuður væri liðinn var Ballarat auðugasta gullnáma í heimi.

Nú ætluðu allir af göflunum að ganga af gullgræðginni. Melbourne lagðist nærri í eyði; menn af öllum stjettum og úr öllum heimsálfum yfirgáfu störf sín og heimili til að leita gæfu sinnar. Í Melbourne tók jafnvel svo út yfir, að herforingjarnir struku úr herþjónustunni, embættismennirnir úr skrifstofum sínum og sjómennirnir af skipunum.

En þrátt fyrir það, þó nýlendubúarnir streymdu hver af öðrum í gullnámurnar, og landið gæti um tíma ekki þróast á vanalegan hátt, bættist Astralíu það brátt upp á annan hátt og meira til, með því, hve feikna-margir fluttu þangað frá öðrum löndum. Árið eptir að gullið fannst, komu yfir 100,000 innflytjendur til Victoríu, og íbúatalan tvöfaldaðist í einum svip, og fimmfaldaðist síðan á fimm árum. 1830 voru þar ekki full 4000 íbúa,

en 1860 nál. 1,300,000. Þar hafði líka fundizt svo mikið gull, að þetta er skiljanlegt, því að í Viktoríu einni var numið gull sem svaraði 18,000 miljónum króna á 10 árum.

Auðvitað urðu peningar í lágu verði, þegar svona stóð á. Fyrstu gullnámsárin var farið með gullpeningana eins og það væru koparpeningar. Þannig fjekk hárskeri 1 pd. (nál. 18 krónur) fyrir að klippa hár eins gullnema. Og að vera að láta skila sjer aptur afgang af gullpening, ef maður keypti eitthvað, það þótti fyrirlitlegur smásálarskapur í þá daga.

Margar sögur ganga af stórmennsku og ofneyzlu gullnemanna á þeim tímum. Einu sinni ætlaði einn þeirra að taka sjer hvíldardag og skemmta sjer, gekk inn á veitingahús, og bað um morgunverð fyrir 10 pd. (180 krónur). Veitingakonan sagðist ekki hafa til dýrri krásir en svo, að máltíðin næmi 5 kr., og bar fram allt hið bezta, er hún hafði föng á. En gullneminn ljet sjer fátt um finnast, tekur upp úr vasa sínum stóran böggul af seðlum, velur úr 10 punda seðil, leggur hann milli tveggja brauðsneiða, borðar þetta og rennir niður með kampavíni. «Þá hefi jeg það svona», segir hann; «þetta kalla jeg 10-punda-morgunverð». Síðan borgar hann matinn og fer.

Annað sinn voru tveir Írar, er grætt höfðu of fjár, að halda heim til fósturjarðar sinnar. Einu sinni er póstvagninn, er þeir voru í, stóð við meðan skipt var um hesta, gengu þeir inn í veitingahús. Þegar gullnemarnir heyra, að veitingamaður-

inn er líka írskur, vilja þeir endilega drekka «minni gamla Írlands», — náttúrlega í kampavíni, og biðja um 50 flöskur. En óðara en þeir eru búnir að borga fyrir þær, það sem upp var sett, 50 pund sterling, og taka upp tvær flöskurnar, kallar vagnmaðurinn: «Allir upp í vagninn!» Gullnemarnir kveðja í snatri, skreiðast upp í vagninn, og láta veitingamanninn eiga hinar 48 flöskurnar, sem eptir voru.

Gróði manna í gullnámunum varð þó ekki mjög mikill, þegar öllu var á botninn hvolft, og margir urðu enda að lifa við sult og seyru[1]. Á endanum komst regla á gullgröptinn, eins og við annað málmnám, svo sem eir, kol og tin, er byrjað hafði verið á löngu áður, og út lítur fyrir, að landið muni draga drjúgt, er stundir líða. Nýjar gullnámur hafa fundizt í norðanverðu landinu, og innflytjendur eru teknir að flytja sig þangað, en yfir höfuð eru þó kvikfjárrækt og akuryrkja aðal-atvinnuvegirnir.

Kínverjar, sem safnast jafnan þar að, sem nokkur arðsvon er, og hafa dreifzt yfir allar Indlandseyjar, hafa einnig flutt sig til Ástralíu, einkum í norðurhluta Qweenslands. En þar eð þeir spilla mjög fyrir atvinnu hvítra manna, hefir verið reynt að reisa öflugar skorður við innflutningi þeirra, t. d. með aðflutningstolli, eins og í Ameríku, en þeir hafa smeygt sjer inn samt sem áður, og samningi þeim, er átti að gera við Kínlandsstjórn, og mundi hafa gert Kínverjum hjer um bil ókleyft að ná þar bólfestu framar, neitaði Kínlandsstjórn í fyrra

1) Sjá gullnemalíf í Ástralíu, í III. bindi þessa rits.

samþykkis. Er því enn ósjeð, hvort hægt muni vera, að stemma stigu fyrir þeim, eða þeir muni skaðlegur «Þrándur í Götu» Evrópumanna.

Þar eð frumbyggjar Suðurhafseyjanna, sem kallast Kanakar í Ástralíu, sýnast betur lagaðir til að vinna í jafn-heitu landi og Ástralía er, en Evrópumenn, þá bendir framför landsins á, eins og í Ameríku, að hinir engilsaxnesku þjóðflokkur verði jarðeigendurnir, sem láti Kanakana yrkja jörðina.

Eðli og ásigkomulag landsins hefir sett sjerstakt snið á aðalbjargræðisvegi þess og notkun þeirra. Kvikfjárræktin þarf mjög víðáttu-mikið landflæmi, og þar sem akuryrkja er stunduð, eru stór svæði tekin til yrkingar. Landið verður því strjálbyggt, og sveitaþorp eða stórbæir geta ekki komið þar upp. Elztu landnámsbæirnir, sem hafa verið reistir á hagkvæmum stöðum, verða því harla mikilvægir. Þeir hafa alla verzlun landsins; þar eru höfuðstöðvar allrar andlegrar menntunar, og allra almennra skemmtana, og þangað safnast allir þeir innflytjendur, sem ekki eru hneigðir fyrir landbúnað, og ekki fá sjer land, heldur setjast að hvar sem hægt er að hafa ofan af fyrir sjer. Af þessu sjest, hvernig á því stendur, að í Ástrallandi, sem ekki hefir nema 3 miljónir íbúa, sem eru dreifðir yfir afarmikið landflæmi, skuli vera 2 bæir, Sydney og Melbourne, með nál. 400,000 íbúa hvor, og að þriðjungur allra landsbúa á heima í fimm stærstu borgunum, og er það alveg einsdæmi.

Niðurskipting landsins í nýlendur stendur í nánu

sambandi við það, hve íbúunum var ójafnt skipt í landinu. Þar eð aðalbæirnir Melbourne og Sydney uxu upp óháðir hvor öðrum, hlaut þar af að leiða, að New-South-Wales klofnaði í tvær nýlendur. Tasmanía fjekk sjerstaka stjórn í Hobartown 1825 og þegar borgin Brisbane tók að blómgast, var Qweensland gert að sjerstakri nýlendu, enda höfðu íbúar þar tvöfaldazt á árunum 1853—1859. Framsóknin heldur stöðugt áfram, og nú er verið að koma upp nýrri nýlendu úr Norður-Qweenslandi.

En jafnframt þessu er nú tekið að brydda á tilraunum, að koma öllum þessum nýlendum í eitt sambandsríki, og mun þess ekki langt að bíða, að það takist; er þegar komið sameiginlegt fjelagsskipulag á hervarnir landsins.

Svo mjög sem nýlendunum í Ástralíu hefir vaxið fiskur um hrygg, og þótt þær sjeu harla lítið upp á aðra komnar, þá fer því mjög fjarri, að losnað hafi fyrir það um tengslin milli þeirra og heimalandsins, Englands. Ástralíubúar halda einmitt fastara í þetta heldur en Englendingar sjálfir. Fagur og órækur vottur þess er það meðal annars, að þegar Englendingar áttu í ófriðnum suður í Súdan síðast (við Súakim), þá gerðu Ástralíubúar ótilkvaddir út allmikinn leiðangur til liðs við þá. Það hefir verið haft á prjónunum um hríð, að koma Englandi og öllum nýlendum þess í eitt allsherjarsambandaveldi, en lagið á því er ófundið enn.

Meðan meginþorri nýlendumanna var útlagir stórbrotamenn, var nýlendunum stjórnað á her-

mannavísu af landsstjóra Breta. En smámsaman fór sjálfsforræðisviðleitni að ryðja sjer til rúms, fyrst í «móðurnýlendunni», Nýja-Suður-Wales, og varð að lokum úr því fullkomin þingræðisstjórn. Fyrst kaus landstjórinn sjálfur ráðgjafarþing sjer við hlið; síðan komust þjóðkjörnir menn inn í það (1824). En ekki var það samt fyrri en hið mikla tímamótaár, 1851, er nýlendurnar fengu fullkomið stjórnfrelsi, með tvískiptu þingi. Efri deildina kýs ýmist stjórnin, eða hún er þjóðkjörin, af hinum efnameiri landsbúum. Kosningarrjettur í neðri málstofuna var einnig upphaflega bundinn við tiltekna fjáreign, en nú er það ekki nema að nafninu til. Þingræði er löngu komið á í öllum nýlendunum.

Rjettarfar og sveitarstjórn er sniðið eptir enskum reglum. Börn eru skyld að ganga í skóla; kennslan er ókeypis, og engin ákveðin trúarbrögð kennd þar. Nýlendur þessar, sem byggðust af afbrotamönnum að upphafi, leggja nú hið mesta kapp á, að efla menntun alþýðu. Háskólarnir eru eins og í Ameríku mikið komnir upp á styrk einstakra manna.

Í trausti til skjótra framfara landsins, og vegna hinna miklu auðsuppsprettna þess, hafa nýlendurnar látið leiðast til, að hleypa sjer í afarmiklar ríkisskuldir, hjer um bil 2000 miljónir króna á nál. 3 miljónir íbúa. Í súpu þeirri felast þó allar sveitaskuldir landsins, og hafa lán þessi yfir höfuð verið tekin til að koma á fót stórfyrirtækjum, einkum til að leggja járnbrautir, sem eru mjög svo mikilsverðar í jafn-víðáttumiklu landi. Auk þess

eru enn óseldar meira en 1000 miljónir dagslátta af óbyggðu landi; og er það mikil eign.

Ef vjer athugum sögu þessa nýja þjóðfjelags, þá sjáum vjer, að það er á hinni mestu æskuframfararás, en samþýðist þó fyllilega þjóðmenningarstraum Norðurálfunnar. Og öllum þessum framförum hafa þeir náð á ekki lengri tíma en tveimur mannsöldrum. Að öðrum tveim mannsöldrum liðnum verða stakkaskiptin orðin ef til vill margfalt meiri. Þá verður eigi einungis jarðargróði Norðurálfunnar (gras- og korntegundir o. s. frv.) og dýrategundir þaðan (sauðfje, hestar, kýr, kanínur o. s. frv.) orðnar algengar um land allt, um þetta feiknamikla landflæmi, sem hefir verið einangrað frá öllum samgöngum frá því löngu áður en nokkrar sögur hófust, heldur munu frumbyggjar landsins þá aldauða. Í stað þess að standa í stað á lægsta stigi steinaldarþjóða svo þúsundum ára skiptir, sjáum vjer þar fyrir oss látlausa framfararás, jafnhliða þjóðunum í Evrópu og Ameríku.

Snöggari umskipti þekkjast ekki í menningarsögu mannkynsins en þessi öld í sögu Ástralíu.

Þegar hátíðin var haldin í fyrra í minningu þess, að hundrað ár voru liðin síðan Astralía var numin, var því spáð, að þar mundi að hundrað árum liðnum verða sambandsríki með 50 miljónum manna, er mæltu á enska tungu, og væru upprunnir af sama kynstofni og Bandamenn í Vesturheimi, svipaðir þeim, en þó auðþekktir frá þeim.

Það er orðtak nýlendumanna: «Advance Aust-

ralíu», og hafa þær sýnt það, að þær kunna að þeirri herhvöt og munu gjöra það eptirleiðis.

(Úr Carl Lumholtz: „*Blandt Mennæskeædere*", og Louis Thomas: „Upptäckternas Bok).

*H. S.* +

---

# Norðurheimsskautið.

Eptir

Hjálmar Sigurðarson.

Jafnvel þó jörð vor sje ekki stór, þegar hún er borin saman við ýmsa aðra hnetti í himingeimnum, og þrátt fyrir það, þó hún hafi verið mönnum byggð um margar þúsundir ára, samkvæmt rannsóknum jarðfræðinganna, þá vantar þó enn þá allmikið á, að hún sje gjör-kunn. Allstór svæði hennar hefir einskis manns auga enn þá litið, og hefir þó landfræðisleg þekking afarmikið aukizt á síðustu öldum. Um miðja 18. öld mátti heita, að Ástralía og allar eyjar í Kyrrahafi væri ókunnar, og eins var upplendið í Afríku. En þá hefst nýtt landakönnunartímabil, sem staðið hefir síðan fram á þenna dag. Hefir mjög mikið verið glímt við, að komast til heimsskautanna, einkum norðurskautsins. Hefir margs verið getið til, hvernig þar

mundi ástatt vera. Hafa sumir jafnvel haldið, að kringum það væri íslaust haf, og þegar búið væri að komast þangað, væri greiður vegur að sjálfu heimsskautinu. En þar sem kunnugt er, að eptir því sem hiti sólarinnar verkar minna, eptir því aukast jöklar og ís, þá er ekkert líkara en að bæði heimsskautin sje ísi þakin eða jöklum árið um kring. Reyndar er ísinn við suðurskautið miklu meiri, því hann byrjar á 60. mælistigi suðurbreiddar, en samfastur ís byrjar í norðurhöfum ekki fyr en nálægt 70. mælistigi, og er enda auður sjór í sumum árum miklu lengra norður. Kemur þessi mismunur meðfram af því, að miklu meiri höf eru á suðurhveli jarðar, og rakinn af uppgufun sjávarins er þar því miklu meiri, en allur sá raki verður að snjó, af kuldanum. Heitir hafstraumar, sem koma sunnan úr höfum, draga aptur á móti talsvert úr kuldanum í norðurhöfum.

Ísinn og jöklarnir í heimsskautabeltunum hafa þannig gjört allar ferðir þangað mjög örðugar og hættulegar, og margir hraustir drengir og djarfir hafa látið lífið fyrir að reyna brjótast gegnum þau margföldu ísvirki. Má geta nærri, hvílík hætta hefir verið að komast á misjöfnum seglskipum innan um ísborgir þær, sem sumar eru margfalt hærri en siglutopparnir, og berast á hraðaferð, meir fyrir straumi en vindi, þar eð meiri hluti þeirra er neðansjávar, kastast hver á aðra með braki og brestum og mola þá allt í sundur, sem fyrir verður eða hrynja niður, þegar minnst varir eða frjósa saman, svo ófært hefir verið að brjótast lengra áfram.

Þegar gufuskipin komu til sögunnar, varð að sönnu miklu hægra að komast áfram, því þau eiga miklu betra með að snúa sjer undan í allar áttir; en þrátt fyrir það hafa þau ekki getað brotizt alla leið enn.

Þar sem skipin hafa orðið að hætta, hefir verið reynt að komast áfram á sleðum, sem dregnir hafa verið af hreinum eða grænlenzkum hundum; en þá koma nýir örðugleikar: á sleðunum er ekki hægt að hafa nema lítinn þunga, og ísinn er opt svo ósljettur, að hann er lítt fær; sumstaðar er stórjökum hrúgað saman í háa hryggi, sem eru eins og eldhraun yfir að líta; sumstaðar er snjókyngið svo mikið, að ekkert er hægt að komast áfram, eða þá tjarnir ofan á ísnum, þegar þíðviðri eru; sumstaðar eru sprungur í ísnum og vakir, sem ómögulagt er að komast yfir, eða þá að íshelluna rekur í gagnstæða átt við það, sem haldið er, eins og varð fyrir Parry, 1827, er ætlaði að komast alla leið á sleðum til norðurskautsins frá Spitzbergen. Varð hann að snúa aptur á 82¾ mælistigi. Hall frá Bandaríkjunum komst líka norður fyrir 82 stig árið 1871. Nares og Markham frá Englandi á 83° 20′ 1876. En þeir, sem lengst hafa komizt norður, voru þeir lautenant Lockwood, förunautur Greelys frá Bandaríkjunum. Komust þeir 13. maí 1882 á 83°24′ á vesturströnd Grænlands, en þaðan vantaði þó 99 mílur til að komast alla leið til norðurheimsskautsins; en nær suðurheimsskautinu hefir enginn komizt en Englendingurinn James Ross 1842, á 78½. mælistig, en þaðan voru þó 175 mílur til suðurskautsins.

En þrátt fyrir það, þótt engum hafi enn þá tekizt að komast að hinum ímynduðu möndulendum jarðarinnar, getum vjer þó að sumu leyti hugsað oss, hvernig þar muni vera umhorfs, einkum að því er snertir gang himintungla. Reyndar vitum vjer eigi, hvort þar muni vera láð eða lögur, fjöll eða sljettlendi; en það þykjumst vjer þó vera vissir um, að deplar þessir muni snævi þaktir eða ísi eða jökli, að líkindum árið um kring; og sje þeir á takmörkum lands og lagar, að torvelt muni þá jafnvel vera, að segja með vissu, hvort það sje á sjó eða landi.

Ímyndum oss nú, að vjer værum staddir á depli norðurskautsins um vetrarsólhvörf 21. dag desembermán. og himininn væri heiður.

Hvað mundi þá bera fyrir augu vor?

Allt í kring mundi vera ís og snjór, svo langt, sem augað eygði, þó bjartur dagur væri. Kuldinn væri ef til vill um 50 stig á Celsíusar mæli og kannske meiri. Vjer sæjum enga glætu af degi allan sólarhringinn, en stjörnurnar mundu tindra sí og æ, en þær kæmu hvorki upp nje gengju undir, heldur gengju í rjettum hringjum umhverfis á himninum. Norðurstjarnan eða Pólstjarnan væri beint yfir höfðum vorum, og mundi hún sýnast standa kyr í sama stað og öll himinhvelfingin snúast um hana; en með mælingum mundi þó sjást, að hún færi einnig í ofurlitlum hring umhverfis hvirfil himinsins, þar eð hún er ekki alveg beint yfir norðurskautinu, heldur lítið eitt sunnar. Efsta Fjósakonan mundi ár eptir ár bera við sjóndeildarhringinn; en báðar hinar Fjósakonurnar eru

svo sunnarlega á lopti, að þær sjást þar aldrei, og eins er með Siríus, er sumir kalla Litabregðu eða Lokabrennu, skærustu stjörnu, er sjest hjer á landi, og allar aðrar stjörnur á suðurhelmingi himins. Engar fastastjörnur, sem þar eru sýnilegar, koma þar upp eða ganga undir, en aptur á móti sólin, tunglið, plánetur og halastjörnur; en einkennilegt er, að þau geta komið upp í öllum áttum, hækka þar á lopti í skrúfuhring og lækka svo aptur, þar til þau hverfa sjón eptir víst tímabil, t.d. frá hálfum eða heilum mánuði upp að missiri.

Úr því 10. janúar líður, fer að votta fyrir ljóma af degi, og svo er smátt og smátt að birta, þar til orðið er ljóst í febrúarmánaðarlok, og 21. marz kemur sólin upp; vatnar hún fyrst í hring með hafinu nokkra sólarhringa og smáhækkar svo á lopti. Reyndar getur viljað til, að sólin sjáist fyr en hinn ákveðna dag, en það er þá að eins geislabrot sólarinnar, en ekki hún sjálf. Hinn 21. dag júnímánaðar er sólin komin svo hátt á lopt, sem hún getur komizt, 23½°, eða jafnhátt og nyrzt hér á landi jafndægradagana.

Alstaðar á jörðunni nema í sjálfum heimsskautunum eru tveir deplar á himni, þar sem öll himintunglin eru hæst og lægst á lopti. Þar sem þau eru hæst, köllum vjer hádegisstað, en þar sem þau eru lægst, gætum vjer nefnt miðnæturmark, því sólin er þar beint niður undan um miðnæturskeið. Í heimsskautunum er aptur á móti ekki hægt að ákveða þessa depla, því sólin hækkar og lækkar hringinn í kring í öllum áttum.

En hvernig er nú áttunum háttað í norðurheimsskautinu?

Þótt undarlegt kunni að virðast í fyrstu, eru áttir þar alls ekki til, í sama skilningi og annarsstaðar á jörðunni. Til þess að komast þangað, hefðum vjer hlotið að koma úr suðurátt, hvort sem vjer hefðum komið gegn um Smithssund milli Grænlands og Ameríku, gegn um Beringssund milli Asíu og Ameríku, eða fram hjá Spitzbergen; og hvert sem vjer hjeldum þaðan á brott, hlytum vjer að fara í suðurátt. Reyndar mundum vjer kalla þar suður í þeirri átt, sem vjer hefðum komið úr, en norður í gagnstæðri átt; en vjer mundum jafnt halda í suður, þó vjer færum í þá átt til baka, eða til hægri eða vinstri handar. Suður væri þar því í hverri þeirri stefnu, sem vjer miðuðum þaðan á jörðu, eða þó nákvæmlega beint undir fótum vorum, en norður beint uppi í himinhvirfli, og austur og vestur til beggja handa út í loptinu.

Úr því líður af sólstöðum, 21. júní, fer sólin að lækka á lopti í norðurskautinu smátt og smátt, eins og hvervetna á norðurhveli jarðar, þar til hún hverfur sýn 23. dag septembermán. Hefir hún þá skinið þar stöðugt í 185 daga, og veitt norðurskautinu sem svarar fimm tólftungum af þeim hita, sem hún veitir miðjarðarlínunni árið um í kring. Hefst þá langt hauströkkur, þar til síðasta dagsbrún hverfur í nóvembermánaðarlok, og þessi langa nótt er ekki á enda fyr en 21. marz árið eptir, og hefir hún þá staðið í 179 daga. Þannig eru hjer ekki nema tvö dægur á ári, einn dagur: sumarið, og ein nótt: veturinn; og eins er í suðurskautinu,

nema að þar er dagur, þegar hjer er er nótt, og nótt, þegar hjer er dagur. Hjer geta menn ekki komizt í vafa um lengd ársins, og hjer þarf engan Þorstein surt til að finna upp »sumarauka», því höfundur tímans hefir hjer ritað »almanakið» ljósar en á nokkrum stað öðrum á festing himinsins. Tunglmyrkvar geta hjer ekki sjezt nema á vetrum, og sólmyrkvar ekki nema á sumrum.

Margir munu ímynda sjer, að norðurljósin hafi hjer upptök sín, en ekki er svo að sjá, sem því sje þannig varið, þar eð þau eru sjaldgæf fyrir norðan 79. stig norðurbreiddar.

En eru þá nokkrar lifandi skepnur eða jurtir til við norðurheimsskautið ?

Því er auðvitað ekki hægt að svara með fullri vissu, en þó er mjög ólíklegt, að nokkurt hinna æðri dýra lifi þar, nema hvað ekki er ómögulegt, að fuglar kunni að flæmast þangað undan ofviðrum. Aptur á móti gæti hugsazt, að stöku sjávardýr af hinum lægstu tegundum kynni að lifa þar.

Hvað jurtirnar snertir, þá hafa stöku smásvampar fundizt innan um ísbreiðurnar í heimsskautalöndunum. Þannig fann James Ross rauða plöntutegund (Algæ), er kölluð hefir verið *Hæmatococcus nivalis*, innan um jökulbreiðu í heimsskautalöndunum norðan við Ameríku. Jurtir þessar voru svo smáar, að þær sáust ekki nema í sjónauka; en svo mikil mergð var af þeim, að jöklarnir voru allir rauðlitaðir á tveggja mílna löngu og sextíu feta þykku svæði. Ýmsar aðrar plöntutegundir hafa fundizt innan um ísinn og jöklana á norður-

heimsskautalöndunum, og er því ekki ómögulegt, að sumar þeirra eða einhverjar aðrar kunni að finnast á yzta norðurenda jarðarinnar. Steingjörð dýr og plöntur má aptur vænta að finna þar frá fyrri jarðöldum, þegar hiti jarðarinnar var jafnari en nú á sjer stað.

En mun þá nokkru sinni takast að komast til norðurheimsskautsins, og hvað mundi vinnast við að komast þangað?

Fyrri spurningunni verður sagan að svara á sínum tíma; en eptir því sem framfarir mannkynsins hafa verið á síðustu árum í öllum greinum, er ekki annað líklegra, en að áður langt um líður verði fundið upp ráð til að komast yfir ísbreiður þær, sem liggja í norðurhöfum, og liggur þá næst að hugsa sjer, að loptförin verði þannig fullkomnuð, að þeim megi fleyta áfram með rafmagnsvjelum, í hverja átt, sem óskað er, og að sá, sem fyrst stígur þangað fæti sínum, stígi þar úr loptknerri niður á jörðina.

Hvað gagn það snertir, sem hafa má af því, að komast þangað, þá er auðvitað, að miklu þarf til að kosta, og ekki eru líkindi til, að af því rísi neinn fjárgróði; en mikilsvert mundi það talið fyrir vísindin, ef þar yrði rannsakaður hiti og kuldi, vindar og veðrabreytingar, segulafl og rafmagn, lögun jarðar og margt fleira.



# Greptrunarsiðir eldsdýrkenda.

Eptir

N. Juel Hansen.

Í borginni Bombay á vesturströnd Vestur-Indlands er trúarbragðaflokkur sá, sem Parsar eru nefndir. Eru það afkomendur Forn-Persa, sem tilbáðu hinn eilífa eld, sólina; hafa þau trúarbrögð verið kennd við Zóroaster. Er margt fagurt og háleitt í trúarbrögðum þessum, t. d. trúin á eilíft líf og algjörðan sigur hins góða yfir hinu illa. Trúarbók þeirra, Zend, er rituð á forntungu þeirra, er Avesta nefndist, en er nú liðin undir lok. Þegar Múhameðsmenn lögðu undir sig Persíu nál. 640 e. Kr. ofsóttu þeir eldsdýrkendur með báli og brandi, og gátu útrýmt trú þeirra að mestu, svo nú játa hana ekki aðrir en þessir fáu Parsar í Bombay. Eru þeir dugandi kaupmenn, margir auðugir mjög og hafa á sjer almenningsorð fyrir hjálpsemi og ráðvendni, og trúa Englendingar þeim opt fyrir áríðandi störfum. En þó trúarbrögð þeirra sje í mörgu merkileg, eru þó trúarsiðir þeirra kynlegir í vorum augum, einkum greptrunarsiðir þeirra. Danskur rithöfundur, N. Juel Hansen, segir hjer um bil þannig frá þeim í bók sinni: «Frá Níl til Himalyafjalla».

»Meðan jeg dvaldi í Bombay, gekk jeg eitt sinn út snemma morguns til að litast um á ey-

þeirri, er borgin stendur á. Sá jeg þá, að í pálmalundinum, sem jeg gekk í gegnum, var fjöldi af gömmum, og hreiður þeirra í hverju trje, og gláptu þeir á mig, er jeg færðist nær, en sátu þó kyrrir. Kom jeg þá að háu og fögru steinriði, sem lá upp að grindhliði einu miklu. Þar stóð hof eitt lítið rjett hjá og logaði þar ljós dag og nótt; það jartegnar hinn eilífa eld. Fagur aldingarður var fyrir innan grindhliðið með lágum steinveggjum umhverfis, og í honum voru 5 turnar af steini, með einum dyrum niður við jörðu, en engum gluggum, og engin bust eða tindur að ofan, heldur skáþekja af járngrindum.

Þetta voru »Dokhmas», »þagnarturnarnir», hinn helgi greptrunarstaður Parsa. Flestir Persar tilbiðja nú Allah og spámanninn (Múhameð), en Parsar á Indlandi hafa stofnsett dálítið trúarbragðaríki í Bombay, og þeir hafa varðveitt hinar helgu kenningar Zóróasters; þeir tilbiðja eldinn og ljósið, ímynd hins hreina og góða í hugrenningum, orðum og gjörðum, gagnstætt því, sem óhreint er og illt. Eldurinn hreinsar, segja Parsar, og birtan, sem af honum stendur, flæmir burtu myrkrið, þar sem illir andar hafast við. Þess vegna má ekki vanhelga eldinn; þess vegna kasta Parsar aldrei óhreinindum á eldinn, fást aldrei við járnsmíði, hleypa aldrei af byssu, og slökkva aldrei nokkurt bál.

Þegar Parsi liggur banaleguna, sjá ættingjar hans um, að hundur sje þar við, því hann á að reka í burtu hina ósýnilegu illu anda, er safnast saman í kring um hann. Nú deyr maðurinn. En

ekki má brenna líkið, því það væri að vanhelga eldinn; ekki má heldur grafa það í jörðu, því henni á maðurinn að þakka sína líkamlegu tilveru og allar þær velgjörðir, er henni fylgja. Var því það ráð tekið, að láta líkið verða villidýrum að bráð. Forn-Persar ljetu hunda naga holdið af beinunum, enda voru þeir hirðingjar og veiðimenn, og var því hundurinn þeim trúr vinur og förunautur.

Í Bombay eru lík Parsa lögð ofan á járnrimlana yfir »Þagnarturnunum». Eta gammar holdið, en beinin falla gegnum rimlana niður í turninn. Þess vegna eru gammarnir friðhelgir.

Sólin var komin nokkuð á lopt og mjúkur morgunblær bar ilm af blómunum að vitum mínum; loptið var enn ómeingað eptir svala næturinnar. Fugl einn tók til að kvaka, annar tók undir, fleiri bættust við, og brátt varð hver runnur, hvert trje, fullt af fuglakvaki, er dreifðist út í allar áttir, hóf sig til himins og fyllti loptið með inndælum hljóm. En gammarnir sátu kyrrir, hálfmókandi, og böðuðu sig í sólinni, er skein á oss úr skarði einu í Ghates-fjöllum.

En brátt tóku þeir að hrína og láta öllum illum látum, svo ekki heyrðist lengur til söngfuglanna. Þeir hölluðu undir flatt og skimuðu allir í sömu áttina. Síðan fóru þeir að verða óþolinmóðir og loksins reiðir, og var auðsjeð, að þeir bjuggust við að fá morgunskatt. Engin lík voru á turnagrindunum; en þá sendu Parsar þeim þangað kjöt

á hverjum morgni til þess, að þeir yfirgefi ekki turnana.

Þá sá eg, hvar kom parsneskur þjónn og gekk ofur hægt og niðurlútur, nærri því hátíðlegur á svip. Í höndunum bar hann tvær körfur. Jeg hugsaði, að þetta mundi nú vera morgunskattur gammanna og stóð við af forvitni. Var sem gömmunum sýndist hið sama, því þeir gláptu á hann græðgislega og teygðu fram álkuna. Þjónninn gekk að steinriðinu, og tók lokin af körfunum. Voru þær fullar af blómum: helíótrópum, rósum, lótusblómum og brönugrösum. Jeg faldi mig bak við trje eitt og horfði á hann. Stráði hann blómunum um riðið, sneri sjer svo mót sólu, ljet aptur augun, og hóf hendurnar til himins. Síðan baðst hann fyrir á þessa leið: »Heilaga ljós! Þú, sem gefur lífið og tekur það aptur, þú ljómandi auga Ormudz, líttu í náð niður á hinn látna húsbónda minn og skín þú fyrir honum, svo að hann rati leiðina til paradísar».

Þá sást til kynlegrar hersingar álengdar. Það var svo að sjá, sem gammarnir könnuðust við hana samt, því það var eins og augun ætluðu út úr þeim af græðgi. Í broddi fylkingar gengu fjórir þjónar og báru á milli sín blómum stráðar börur; en þar ofan á lá líkið af Parsa einum. Þar á eptir gengu ættingjar og vinir hins látna, tveir og tveir saman, allir hljóðir, allir niðurlútir og allir í hvítum búningi. Gammarnir fengu veður af líkinu. Það fór að koma asi á þá; þeir þöndu vængina út til hálfs, krepptu klærnar fast um greinarnar, sem þeir sátu á, og bældu sig niður, til þess að búa sig

undir stökkið, sem þeir þurfa til þess að geta gripið flugið. Það leit svo út, sem þeir ætluðu að fljúga niður undir eins og hremma líkið.

Líkfylgdin gekk hægt og stillt upp riðið með líkið, þjónarnir báru það inn um hinar litlu dyr á einum turninum, og upp á skáþakið — járngrindaþakið —, og flettu ofan af því ábreiðunni, er hafði skýlt því. Einn þjónninn varð eptir; hinir fóru niður aptur og námu staðar hjá líkfylgdinni, sem hafði skipað sjer umhverfis hofið, er lampinn logaði í með hinum eilífa eldi, og baðst fyrir.

En þá heyrðist mikill hvinur, eins og þegar stormviðri þýtur í skógarlimi, og dimmdi snögglega upp yfir, eins og svart ský drægi fyrir. Það voru gammarnir. Þeir höfðu eigi getað stillt sig lengur; þeir þurftu að seðja hungur sitt. Þeir flugu upp allir í einni þvögu og steyptu sjer yfir líkið. Þar mátti segja að væri handagangur í öskjunni. Þar var barizt með vængjunum og beitt óspart klóm og nefi. Þjóninum, sem eptir var uppi, var illa vært. En hann mátti til að bíða þangað til, að fyrirburðurinn væri um garð genginn.

Loks fór hann niður til hinna. Fyrirburðurinn hafði vel gefizt: sál húsbónda hans var í paradís, því — gammarnir höfðu kroppað út vinstra augað á líkinu á undan hinu hægra!

Líkfylgdin gekk hægt og hljóðlega til bæjar aptur; en gammarnir svöluðu græðgi sínu í góðu næði.

H. S. +

---

# Kvæði.



## I. Harmkvæði.

Á Íslandi hefir efni fornkvæðis þessa verið kunnugt meðal alþýðu frá ofanverðri miðöld allt fram á þenna dag. Eru nú til 2 kvæði þessa efnis; er eldra kvæðið prentað í Íslenzkum fornkvæðum I. nr. 18 og er nú ekki nema svipur hjá sjón, svo hefir það kyprazt saman með ellinni og orðið allóljóst, en hið yngra, það sem hjer er prentað í fyrsta sinn, er þýðing frá 17. öld eptir dönsku kvæði, er prentað var í fyrsta sinn 1591 í þjóðkvæðasafni Vedels II. nr. 11 og nú síðast í Danm. gamle Folkev. V. nr. 285, og hefir kvæðið eigi fundizt hjá öðrum þjóðum en Íslendingum og Dönum, enda þótt víðar bregði fyrir keimlíku efni í öðrum kvæðum. Kvæðið er hjer tekið eptir 4 handritum: ÁM. 148.8vo (með hendi Gissurar Sveinssonar frá 1665, og fyrirsögn: Eitt gamalt kvæði), Nýjasafni í bókhlöðu konungs í Kmh. 1141 fol., J. S. 405. 4to (fornkvæðabók Gísla Ívarssonar), og J. S. 406. 4to (eptirriti Jóns Sigurðssonar eptir kvæðakveri með hendi Gísla Konráðssonar í safni Jóns Árnasonar), og er fyrirsögnin sett hjer eptir því. Til er og önnur þýðing þessa kvæðis frá sama tíma, en svo ljeleg, að varla þykir vert um að geta.

Þessu kvæði og hinu, sem prentað er í Iðunni IV. 468—74, mun sami maðurinn hafa snarað á íslenzku, því þau bera að máli og kveðandi langt af öllum öðrum þýðingum erlendra fornkvæða, sem mjer eru kunnar,

enda hafa engar aðrar átt neinu gengi að fagna meðal alþýðu manna, svo eru þær illa af hendi leystar, og eru að eins til í örfáum handritum, sem öll ber að sama brunni.

*P. Þ.*

Eg veit þegar mín æfin þver,
angrið gjörvalt dvínar.
Einn guð þekkir allar raunir mínar.

1. Mjög var eg fagurt meybarn smátt,
þá móðirin rjeð mig fæða;
þær sveipuðu mig með silkið blátt,
silfur og pellið rauða.
*Einn guð þekkir allar raunir mínar.*

2. Stjúpmóður fjekk eg ung að aldri,
ei var hún mjer góð:
í gyltum kistli af hyggju kaldri
hratt hún mjer út á flóð.

3. Bylgjan ein hún bar mig að landi,
en burt mjer önnur sló;
þar kom enn mjer svalaði að sandi,
svo að mig ekki út dró.

4. Flæðurin mig lengst að landi bar þá,
en löðrið út mjer skaut;
kynt er mjer engin kóngsbörn smá
kæmi í slíka þraut.

5. Loksins var mjer lukkan svo góð,
að löðrið á þurt mjer sló;
einn gráðugur úlfur af grænni slóð
gekk þar fram að sjó.

6. Sá úlfurinn grái öslaði á sund
og upp mig í munn sjer tók,

gekk svo burt í grænan lund
og göfugri rósemd jók.

7. Sá loðni úlfur í lundinum græna
lagði mig undir eik,
þar kom hlaupandi hindin væna
og heim með mig sjer veik.

8. Fóstraði hún mig í fimm ár síðan;
fullvel gekk mjer þá,
fyrst lærði eg um fold að skríða
og fram langt síðan að gá.

9. Alls var eg í átta ár
í þeim villu-skóg,
svefn eg margan sætan þar
svaf við hindar bóg.

10. Rósirnar voru mínar rekkjuvóðir,
reyrinn og fegursta lilja;
sú fagra hind var mín fósturmóðir,
er flest gjörði mjer til vilja.

11. Þar kom riddari ríðandi svo vel,
ríkur með hegðan væna,
frá eg hann skaut mína fóstru í hel
fram í þeim lundinum græna.

12. Fyrir mig í dauðann feldi sig
fóstra mín svo þar.
Í rauðum kyrtli hann reifaði mig
og á roðnum skildi bar.

13. Í því fóstri og elsku-gengi
eg ólst upp á hans garð,
þess eðla riddara, alt svo lengi,
að eg ekta-víf hans varð.

14. Riddarann höfðu fyrðar frætt
um faðernið mitt hið dýra:
greifans væri eg dóttir af göfugri ætt,
er gjörði Vallandi stýra.
15. Festar eptir hina fyrstu nátt
fjandmenn jóku mjer harm :
þeir vösuðu inn með vjelanna hátt
og vógu hann á minn arm.
16. Þá fyrstu nótt, sem nefnda eg fyr,
í náðum er menn sváfu,
brúðarhússins brutu upp dyr
og ben til heljar gáfu.
17. Fróman aptur fjekk eg mann
frænda ráði með :
herra Nikulás hjet, með sann
hann fyrir klaustri rjeð.
18. Með fyrsta eg í klaustrið kom,
krankt mjer nunnur völdu :
yfir Nikulás feldu nauða-dóm,
því náskyldan mjer töldu.
19. Fyrir ofan klaustrið á einum mel
sitt eðallegt líf hann misti.
Þá göfugan mann þeir grýttu í hel,
grimmleg sorg mig nisti.
20. Göfuga þriðju gipting þá
gjörðu mjer frændur að veita :
einn var kóngsson Englandi frá,
Engilbert nam heita.
21. Svo voru við í sambúð góðri
saman um árin níu ;
í sönnum ekta-sælu gróðri
synina fædda eg tíu.

22. Óvinir stálu æstu snert,
þá af voru veturnir tíu:
í hel slógu þeir hann Engilbert
og okkar synina níu.
23. Slíka hefi eg ratað í raun,
rammar því sorgir slíta,
minn tíunda son þeir tóku á laun,
trautt mun eg hann aptur líta.
24. Fleiri er mín sorg, en mæla kann mál
og mær spinna þráð af gulli.
Einn guð gleðji Engilberts sál,
minn ástvin dygðafulli!
25. Kærum gef eg mig Kristó á vald
í klaustur undir ey,
en aldrei meir í hjúskaps-hald,
úr heiminum þar til dey.

*Einn guð þekkir allar raunir mínar.*

---

## II. Axarskaptsbragur.

Með gamankvæði þessu og því, er þar fer á eptir, er enginn annar skyldleiki en sá, að í hvorutveggja er verið að skopast að gamla fólkinu, sem farin er að glepjast heyrn og sýn fyrir elli sakir, og hefi eg látið þau verða samferða eingöngu til þess, að gera körlunum og kerlingunum sömu skil, hvorugu hærra undir höfði, svo að eigi þurfi metnaður milli þeirra að rísa af þeim sökum.

Fyrra kvæðið er tekið eptir 2 handritum í safni Bókmentafjelagsins í Kmh. 194.8vo og 108.8vo, og mun kvæðið vera upprunnið á Austurlandi; en hið síðara er

tekið eptir blaði með hendi Páls stúdents Pálssonar í safni Grundtvigs í bókhlöðu konungs í Kmh. nr. 66 og sýnist munu vera ort á Vesturlandi og þá helzt í sjálfum Breiðafirði.

*P. P.*

1. Byrja skal hjer boðnar skrá
bóndatetri einu frá,
apalegur á allan sið,
svo enginn gat hann talað við,
á orðum hans og athöfnum varð engin bið.
2. Axarskapt hann eitt sinn hjó,
ei var maðurinn hagur þó,
sundur vildi saga þar,
sem á trjenu kvistur var;
í því bili eðalmann þar einn að bar.
3. Maðurinn sagði svo til hans:
»Sæll vertu». En hinn gaf anz:
»Ójá, það er axarskapt,
enginn mun það geta haft».
Riddarinn sagði: »Rekist það í þinn rækallskjapt».
4. »Upp fyrir kvistinn», anzar hinn,
»alla götu, ljúfurinn minn!».
Hatti þrýsti höfuðið á
herramaður og mælti þá:
ólukkann bað eyru karls að eiga sá.
5. Bóndanum heyrðist baugagrjer
biðja drottin fyrir sjer.
»Hafið þjer æru», hann þá kvað,
»hjartanlega var vel óskað,
auðnan gefi yður og mjer að öðlast það».

## III. Geirlaugar vísur.

1. Æpti hún Geirlaug,
þegar út í tún kom:
sýndist henni kýr sín
gliðna á svelli,
þá var þetta físisveppur
fastur í velli.
Svo var hún heimsk sem heyrast mátti.
2. Æpti hún Geirlaug,
þegar út í tún kom:
sýndist henni Ólafur kóngur
að garði ríða,
þá var þetta titlingur
á torfuköggli.
Svo var hún heimsk sem heyrast mátti.
3. Æpti hún Geirlaug,
þegar út í tún kom:
heyrðist henni helgur maður
hringja klukku,
þá var þetta trítill
og hristi brók sína.
Svo var hún heimsk sem heyrast mátti.
4. Æpti hún Geirlaug,
þegar út í tún kom:
sýndist henni kaupskip
koma að landi,
þá var þetta krákuskel
og kurraði að sandi.
Svo var hún heimsk sem heyrast mátti.
5. Æpti hún Geirlaug,
þegar út í tún kom:

sýndist henni Breiðifjörður
allur í loga,
þá var þetta maurildi
í mykjuhlassi.
Svo var hún heimsk sem heyrast mátti.

IV.

## Kórsöngur hertekinna kvenna.

(*Úr Ifigeníu í Tároi, eptir Euripides*, v. 1064—1124).

1.*erindi.* Skarfur! sem á kletti klakar,
Kaldri fyrir sjávar strönd;
Náttlangt muntu, veit eg, vaka.
Vegna fjarlægs elsku-maka,
Sem þig trygða tengja bönd;
Eg vil með þér undir taka,
Aumur vænglaus fugl, og kvaka' um
Það sem mína ángrar önd.
Til vina minna eg vil tilbaka,
Væn sem Hellas- byggja lönd;
Artemisar örlög banna
Aptur hæðir mér að kanna,
Pálmagrein að prýða hönd;
Lárs og viðsmjörsviðar reyra
Vilda' eg aptur gyðju sveig,
Aptur sönginn svana heyra,
Sjálfra dísa er skemtir eyra
Álftavatns á lygnum leyg.

1.*gagner.* Hafa mörg um mína vanga
Móðug síðan runnið tár,
Að mansals varð eg veg að ganga
Víkings út á skipið langa
Hingað yfir unnir blár. —
Nú við offurs athöfn veiti' eg
Agamemnons dóttur lið;
Þótt eg ambátt hennar heiti,
Hún á verra' að sínu leyti,

Mér því bregður minna við.
Höldar lengi láni sviptir
Lítil greina á raunum skil,
Hafa þeir að eins óláns skipti, —
En er falla' í grand úr giptu,
Gumar finna meira til.

2. *erindi.* Nú á Argos's aptur dóttur[1]
Yfir haf að bera fley,
Róðurinn eptir söngvi sóktur
—Sitja Pan og Foibos þóptur—
Til fósturjarðar flytur mey.
Hægum þanin vindi voðin
Veitir svanna þæga ferð,
Enginn rís til baga boðinn,
Brunar liðugt áfram gnoðin, —
En jeg arma eptir verð.

2. *gagner.* Fegin vilda' eg fara þangað,
Sem fákar vakrir renna skeið
Sólbjörtum á *sóknar tanga,*
Sérílagi þó mig langar
Að hefja vænginn heim á leið. —
Annað var, er ungur svanni
Uppi' eg stóð í meyja krans,
Brúður göfgum gefin manni,
Góðrar þá í móður ranni
Stigum léttan drósir dans,
Kepptumst við í þekkum þokka,
—Þó var sízt ei brúðurin,—
Féllu um háls í liðum lokkar,
Litmerlaðar blæjur[2] okkar
Báru skugga á bjarta kinn.

*Gr. Þ.*

1) Ifígenía var ferðbúin heim með bróður sínum, Orestes.
2) Isthmos.



